# Agiætar Fornmanna Søgur,

Eru at Prick wtgeingnar,

Ad Forlage

Hr. Vice-Løgmannsens

## Biorns Marcus-Sonar.

Kverid Innbundid Selst Tiju Alnum.

Pryckt a Hoolum i Hialltadal / Af Halldore Eriks-Syne.
ANNO M. DCC. LVI.

## Þessar Søgur hefur Bookin iñe ad hallda.

Pag.

# Til Goodfwſs Leſare.

Eg hefe fyrer ſkom̃u i Vetur vil- iad þiena mijnum kiæru Lands-Mom̃um med ſaameinum Islend inga Søgum, þeim til Leiſelegrar Dægraſtittingar, og þar eg heſi formerkt, ad marger ſkickanleiger Men̄ (um̃ þa ſem epter lijttgrundudum Gedþocka virda þetta Verk, ſem eg vona ei marg- er verde, hirde eg ecke) hafa vel upptekid þa mijna Fyrertekt: Þvi hefe eg nu laatid Epterfylgiande Søgur aa Prick wtgaan- ga i mijña Forme en̄ þær fyrre, ef Foolke þikir þær Handhægare. Vonande Good- fwſs Leſare fære aa betra Veg þad aafaatt kan̄ i þeſſu Verke vera, einkum þar Men̄ leitaſt vid ad þiena Publico her med, For- fedrum vorum til Sœmdar, er Sœmdar- Verken̄ epter ſig letu; Og hinum, er ſo voru Ærleger, ad laata tilbærelegan̄ Lofstijr Firre Mam̃a, meiga naa til Epterkomar-

 aña,

aña; Þeim sem uu eru, til Nytsemdar og Froodleiks; Og þeim ruinerada Biskups-Stool her a Hoolum og hañs Majest. Haaa Interesse til møgulegrar Conservation.

Eingu ad siidur hafa Meñ i fersku Miñe, epter sem aadur er Raad fyrer giørdt, ad hafa til Reidu Naudsynligar Theologiskar Bækur, af hverium her liggur fyrer allur Fiølldi Osélldur, kuña samt adrar fleire þess Slags ad þrickiast, nær þess Oskad verdur med Framtijdeñe.

Biørn Marcusson.

Bockrar

## Nockur Lioodmæle, sem skulu sijna Søfugleik Ættar vorrar Islendinga, hvern Forn-Alldar Maña Æfi og Atgeørfis Søgur oss fyri Siooner leida: Hvar til þær eru læ̈tnar æ Prent wtgæ̈nga.

Hauk Fiølnis læt eg leika
Lijtandi Tijma Bijti,
Adur sem Isa-Loodar.
Inbyggendur mæ̈ siña:
Orku og Afbragds Verkum
Uñu sast Sjoota-Nuñar,
Hreyste-Brøgd hæ̈du Lystum
Hreiner med Venia Teinum.
2. Reisda Frægd Hølda hafde
Hrimland æ fyrre Tijmum,
Og Lysta-Meñi mestu.
Marger sem gløddu Varga:
Þegar vogs Vidum Vigra
Val-Fødurs Ellda-Kali,
Vistlundud Venia Nastir
Bragna Sveit, geørdi magna.
3. Guñar var Mikilmeñi
Mentagiarn Frægdum þienti,
Kuñigur Kialars Breñu,
Kiendur ad Hlijdarenda,
Alldrei æ Isa-Folldu,
Añar neirn Fyrri Maña,
Hønum jafnt hefur Rannar
Herians beitt Skugga Verin.
4. Finnur var Fleigir Skooma,


Fleine

Fleini skaut Mañа beinast,
Hropta-Tijrs Eysum ypti
Eirnri, Primur, ei seirna.
Sundsæri Riovdur Randa,
Ramur liek ødrum framar,
Yr bendtañ opt nam hræra,
Alm-Drooser spilltu Mœlmi.
5. Skarphediñ steinkti Sorpum
Skeinur i Pætti Fleina,
Hamars-Troll Hyrdir Skiooma,
Henda red Tyrs œ Qvende,
Røm Egg i þwngt red þrama,
Pundar Stœls Egg-Spor fundu,
Sied-Prijdi Randa-Riovdur,
reynda bar, Frægd ei leyndi.
6. Kœri twar kiæñ ad stera
Kialars-Plogg Trygda valiñ,
Hrañar-Ellds Hyrdir sviñe
Hefndir Mœaga vel efndi:
Hoop leidañ Kvala klipu
Kaña let Breñu-Mañа,
Hølinger Høldar mistu
Hiœlms-Tøfn i Fleina Sœlme.
7. Grettir med hørdum Hrotta
Hraustur i Stœla-Flausiri,
Gilld Høgg œ Ginars-Fellde,
Gaf Yrslundum œn Tafa,
Fløgd deyddi Fialls uñ Bygder,
Frækiñ vid Sooknir Mækia:
Skœlldmœli hygnum Hølldum
Hrein vallde Bender Fleina.
8. Hørdur Hoolmverium siijrde,
Hardseingur leingi vardist,
Soota-Naut Sverda-Briootur
Sviñur bar Stœls i Viñu,
Kiartani Kaupid virdti,

Kindug-

Kindugur Svik nam stunda,
Jœlka Sool Hiarna-Hilki
Hañs klauf i Fleina-Dansi.
9. Þordur Hræda þrœtt geørdi
Þrekvirki Orku-frekur,
Hikadi hvergi ad leika,
Hrotta-El lioost þad vottar
Sagañ af Sooma frægum
Suñu Hœrs Borgar-Ruñi,
Hug-Vit med Hagleik nøgum
Hañ prijdde, þad mœ saña.
10. Gijsle red Børgum Veitslu
Veita med beittum Hneiti,
Rendur klauf Ruñur Randa,
Rivoda nam Dreppvarps Glooder:
Sextœn Ar Vidur Saxa
Sekur i Utlegd rekiñ,
Vardist og viña geørdi
Verkiñ stoor Frægda-merkur.
11. Bwi med Burde knœa
Beita nam skigdum Hneiter,
Andrijdar-Son og sendi
Sœra-Tein Pundum Fleina:
Hardur vid Hillde geørdist,
Hof brendi, sañ Kong Dofra,
Felldi œ Norvegs Folldu
Flagd illwdligt i Bragdi.
12. Helgi let Hrottañ tœlga
Hlijfar i Fleina-Kijsi,
Droplaugar-Son, og driwpa
Dreyra af biørtum Geiri;
Hollda Toolf frægur felldi
Feiga, med Brand Odeigum,
Rafna siñ Freyr Duns Fofnis
Foot klauf af hendtu Spioote.
13. Mañvøl slijk mœ þad fiña

Mundu

Mundu oc Isa-Grundu,
Frægd, reynder fromdu Trygder,
Frooder med Hegdan gooda,
Ettu pvi Ita Droottir
Yfir poo sem nu lifa,
Feta sem frekast giæte
Formaña Dygda Sporiñ.
14. Høfdingiar Heidri vafdir,
Hreinar med Vitsku Greinir,
Geordust hier fræger Fordum
Froomir, stundudu oc Soomañ
Ettar-Stofn Ita-Droottar
Isa-Loads vel máa prijsa,
Bæri pvi Dreingium dijrum
Dygda-Safn ecki brygda.
15. Frægder, Gnægt-Feoars og Trygder
Framar eñ Pretti Rama
Mættu peir, margir sveittust
Mest vid Dygder flestar,
Hlacki i Hug Gedrotkum
Hyggendum Sagna-byggra,
Añoalir elldstu af Mæñum
Endtust ad gaanga oc Prentid.
16. Launggiæde, Lucku saauge
Lundur Staals Heims oc Grundu
Vænt hier sem hægn Prente
Hitti Raad, so ad styttast,
Dægur af dijrra Sægum
Dreingia er fromdu leingi
Hreysti og Hug-Dyrsd glæsta
Hlackande Island packi.

Hier

## Hier Byriast

# Kialnesinga Saga / Edur Af Bwa Andrijds-Syne.

## I. Cap.

HElge Bioola, Son Ketils Flatnefs nam Kialar-Nes allt, mille Leyru-Vogs og Botns Aar, og bioo ad Hofe æ Kialar-Nesi; Hañ var Nijtmeñi mikid i fornum Sid, Bloot-Madur lijtill, Spakur og hægur vid alla. Helgi ætti Þoorniju Doottur Ingoolfs i Vijk, er fyrst bygde Island; Þeirra Syner voru þeir Þorgrijmur og Arngrijmur: Þeir voru bææder mikler og sterker, og hiner Vasklegustu Meñ. Helgi skipade Skipverinm sijnum Land, þad er hañ hafde numid: Þrœnde feck hañ ad Þrœndarstødum, Eylijfi i Eylijfs-Dal, Hækinge i Hækings-Dal, Tinde æ Tindsstødum, og þar hvørium sem honum þookti fallid vera. Madur het Aurligur, hañ var Irskur ad allre Ætt: Þañ Tijma var Irland Christid vordid, og ried þar fyri Kaunsøgur Ira Kongur. Aurligur vard fyrir

Kongs Reide, fvor hañ þa ad fiña Patrich Biskup Frænda siñ, og spurde hañ Rooda hvad hañ skyllde tiltaka? Eñ hañ bad hañ sigla til Islands, þvi þaungad er nu (sagde hañ) miked Fiolmeñi rijfra Maña komid: Eñ bad vil eg til-leggia med þier, ad þu flytier þaungad 3. Hlute: Pad er vijgda Molld, er þu læt under Hornstaf Kyrkiuñar, Kross-Mark Plenarium, og Iaarn-Kluckn vijgda; Pu munt koma Suñañverdt ad Islande, og skalltu þa sigla Vestur fyri þad allt, þar til er Fiordur mikill geingur vestañ i Landed, þa muntu siaa iñ i Fiordiñ 3. Fioll hææ, og Dale i millum: Skalltu þa stefna iñ fyri sidsta Fiallid, þar muntu faa gooda Høfn, og þar er spakur Formadur fyri er heitir Helge Bioola, hañ mun vid þier taka, þvi hañ er lijtill Bloot-Madur, hañ mun faa þier Bwstad Suñañ under þvi Fialle, er firr sagdi eg þier fraa: Par skalltu laata Kyrkiu giora, og grafa Meñ, og gefa hana hinum heilaga Columbo. Far nu vel, segir Biskup, og geim Trwar þiñar sem betst, þo þu verder med Heidnum Moñum. Eptir þad bijr Aurløgur Ferd sijna: Og var þad fraa Ferd hañs ad segia, ad allt geck epter þvi sem Biskup hafdi hønum fyrisagt. Took hañ Høfn i Perneyar Sunde, og foor sijdañ ad hitta Helga Biolu, og took hañ vel vid hønum; Reisti Aurløgur Bw og Kyrkiu under þvi Fialli er Biskup hafdi hønum ædur sagt, og bioo þar sijdañ til Elli.

## II. Cap.

Nofañverdum Døgum Kaunføgur Ira Kongs, kom Skip i Leyruvog, þar voru aa Irsker Meñ. Madur het Andrijdur, Ungur og Ofvongadur, mikill og sterkur. Par var og aa Kona sw er Esia het, Eckia-miøg Audug: Saa Madur var þar aa Skipi er Kolli het. Helgi took vid þeim øllum: Kolla setti hañ nidur i Kolla-Fiord Eñ med þvi Aurligur var gama ll og Barnlaus, þa gaf hañ upp Land og Bw, og took Esia vid þvi, settist hun þa ad Esiubergi. Aller þesser Meñ voru kallader Skijrder: Eñ þo var þad marg-

ra

ra Maña Mꜳl, ad Esia væri forn i Brøgdum.
Andrijdur foor uñ Veturiñ ꜳ Vist til Hofs, vard þa Foostbrædralag med hønum og Sonum Helga: Andrijdur bad Helga fꜳ sier Bwstad og Kvonfꜳng; Hañ hafdi Aud-Feꜳr: Þa var Skoogie varid allt Kialar-Nes, svo þar ad eins var Rioodur, er Meñ ruddu til Bꜳa edur Vega. Braut mikil var eptir Holltinu frꜳ Hofi, þꜳngad ridu þeir Helge og Andrijdur uñ Vorid: Og er þeir komu wt ꜳ Holltid, þa mællti Helgi: Hier vil eg Andrijdur (segir hañ) gefa þier Jørd, og ad þu reisir hier Bæ; Mier þykir sem þeir Syner mijner vilie setiast ad þier. Epter þad reisti Andrijdur Bæ i Brautiñe, og kalladi Brautarhollt, þviad Skooguriñ var svo þyckur, ad þeim þookti allt añad Starfa-miña. Andrijdur setti þar samañ reisugt Bw. Madur het Þormoodur, hañ bivo i Þormoods-Dal; Med hønum var Syster hañs er Þurijdur het, hun var frijd sijnum, og audug ad Fe: Þessarar Konu bad Helge til Handa Andrijde, og þeirri Konu var hønum heitid. Þetta Sumar var og heitid Þorgrijme Helgasyne, Arndijse Doottur Þordar Skeggiasonar ad Skeggiastødum, og voru Brullupiñ bæde samañ ad Hofi, og var veitt af hinu mesta Kappi: Þar var og all-Fiølment. Epter Bodid foor Þurijdur i Brautarhollt, og took vid Bws-Forrꜳdi Jñañstocks, og var brꜳtt audsætt ad hun var mikill Skørungur: Þau høfdu margt gꜳngande Feꜳr, og geck nær siꜳlfala wt i Skoogenum uñ Nesid. Þetta Haust var hønum vantad Þrevetrar Kvijgu Myrk-grꜳrrar, hun het Mws: Þesse Kvijga fañst Þrem Vetrum sijdar ꜳ Nesi þvi er liggur til Vesturs undañ Brautarhollti, og hafdi hun þa med sier 2 Dilka, Añañ Veturgamlañ, eñ Añañ Sumargamlañ: Þvi kølludu þeir Nesid Mwsar-Nes. Þañ Vetur er Andrijdur bioo Fyrstañ i Brautarhollti, Andadist Helgi Bioola: Þad þookti Møñum hiñ mesti Skadi, þvi hañ var hiñ Vinsælaste Madur. Uñ Vorid skiptu þeir Brædur Fodur-Arfi sijnum, hafdi Þorgrijmur Fødurleyfd þeirra og Maña

Forræd, þviad hañ var elldri, eñ Arngrijmur Ut-Jarder: Hañ reisti Bw vid Fiørdiñ; er hañ kallade Saurbæ. Hañ feck Borgfyrdskrar Konu er Olæf het, þau ættu 2. Sonu samañ, het Añar Helgi, Añar Vakur: Þeir urdu frækner Meñ, eñ ecki mikler æ Vøxt. Þorgrijmur reiste Bw um̃ Vorid ad Hofi, var þad bræatt Stoorkostlegt, enda stoodu margar Stoder under, Viner og Frændur: Geørdist hañ Herads-rijkur, hafdi hañ Maña Forræd allt til Miña-Hrauns, og var kallad Brundæla-Goþord: Hñ var kalladur Þorgrijmur Goþe; Hañ var Bloot-Madur mikill, og let reisa Hof i Twni sijnu, þad var 100. Foota læugt eñ 60. æ Breidd: Þar skylldu aller Hof-Toll tilleggia. Þoor var þar mest Tignadur; Þar var geørdt ad Iñañ Krijnglott sem Hwsa være, þad var allt tialldad og Gluggad: Þar stood Þoor i Midin, og yñur God æ Tvær Hendur. Frame fyri Þoor stood Stallur med miklum Hagleik geør, og þyliadur ofañ med Jærne; Þar æ skyllde vera Elldur sæ, er allrei skyllde slockna: Þad kølludu þeir vijgdañ Elld. A þeim Stalle skyllde liggia Hrijngur mikill af Sylfre geør, hañ skyllde Hof-Goþe hafa æ Hende til allra Mañfunda: Þar ad skylldu aller Meñ Eida sveria um̃ Kieñslu-Maal øll: A þeim Stalle skyllde og standa mikill Bolle af Kopar, þar skyllde i-læta Blood þad allt, er af þvi Fee riñe er Þoor var gefid, edur Møñum: Þetta kølludu þeir Hlut og Hlut-Bolla; Þar wr skyllde dreifa yfir Meñ og Fee, þad sem þar var gefid til, skyllde þad brwkast til Mañ-Fagnadar, þa er Bloot-Veitslur eru hafdar: Eñ Møñum er þeir blootudu, skyllde steipa i Fen, þad er wti var hiæ Dyrum: Þad kølludu þeir Bloot-Kelldu. Þau Þvertre voru ad Skæalanum æ Hofe (er i þessu Bloot-Hofe høfdu verid) þa Olafur Jons-Son let biggia hñ, let hñ þau øll i sundr kliwsa, og voru þo vel digur. Þorgrijmur let setia Vor-Þijng æ Kialar-Nesi, Sudur vid Sivoiñ, (er eñ sier Stad Bwdaña) þar skyllde øll Sinæamæle sækia, og þau ein til Alþingis leggia, er þar yrde ei sookt edur æ sættst. Þau Þorgrijmur

ur og Arndijs gootu Son samañ, sa het Porsteiñ; Hañ var sneiña Uppeodslu-Madur mikill, og þookti allt Laugt hiaa sier. Kolle bioo i Kollafyrde sem firr var sagdt: Hañ feck þeirrar Konu er Porgerdur het, Doottur Eylijfs wr Eylijfs-Dal; Pau aattu Doottur samañ er Oluf het. Pad var ad Gaatnm geordt hvorsu sogur hun var, og þvi var hun kolluð Oluf hin Væna.

## III. Cap.

Hlaer Andrijdur og Kona hañs, hefdu bwid nockra Vetur ad Brantarhollti, gaatu þau Son samañ: Hañ var Vatni ausiñ, og kalladur Bwe, hañ var braatt mikid Afbrigdi añara ungra Maña, meiri og sterkari eñ adrir Meñ, og frijdari ad sioa. Esia bioo ad Esiubergi, sem firr var sagdt: Hun band til Foosturs Bwa Syni Andrijds, og fæddist hañ upp med heñi; Hañ var kalladur Einræñ i Uppverti. Hañ villdi alldre bloota, og qvad þad Lijtilmañlegt ad hokra þar ad: Ei villdi hañ med Vopn fara, helldur foor hañ med Slongu Eina, og knijtti heñi um sig jafnañ. Kona er nefud Porgerdur, hun bioo ad þeim Bæ, er heitir ad Vatni, er sijdañ er kallad Ellida-Vatn: Med heñi fæddist upp Son heñar er Kolvidur het, hañ var sneiña mikill, svartur aa Haar og Osijnilegur: Hañ lagdist i Ellda-Skaala, og beit Børk af Vidi, og giætti Katla Moodur siñar. Porgerdi þookti ad þessu Mein mikid, þo villdi Kolvidur Raada. Porgrijmur Goþi gaf mikiñ Gaum ad þeim Moñum, er ei villdu bloota: Sættu þeir af honum þungum og stoorum Afarkostum; Letu þeir Porsteiñ Son hañs sara mikil Ord til Bwa, er hañ villdi ei bloota, og kolludu hañ Bwa-Hund. Pa var Bwi Toolf Vetra, eñ Porsteiñ Atiaan. Stefndi Porsteiñ Bwa mñ raangañ Atrwnad til Kialarness-Pyngs, og let verda Skoog-Gaang: Pessa Søk sookti Porsteiñ, og vard Bwi sekur Skoogar-Madur. Ei let Bwi sem hañ visse, og ollum Ferdum sijnum haattadi hañ sem firr. Hañ foor jafnañ i Brantarhollt, ad fiña Fodur siñ

og Moodur, og svo giørdi hañ eñ. Af þessu øllu samañ, urdu Fꜳleikar miklir milli Maña. Uñ Vorid er ꜳleid, er þess getid, ad Bwi foor til Brautarhollts, hañ foor jafnañ Eiñsamañ, ecki hafdi hañ Vopnaburd meir eñ firr, hañ hafdi knijtt uñ sig Sløngu siñi, Þorsteiñ sꜳ Før Bwa, og kendi Mañiñ, hañ geck þa til Fødur sijns og mællti: Hvørsu leingi skal svo frañ fara Fadir, ad Hundur sa, er eg sookti til Skoog-Gꜳngs i Sumar, skuli hier gꜳnga uñ Twn svo frialslega, sem hañ eigi oss eingu ad svara: Sijnist mier, ad ef slijckt þoolist af þijnum Nꜳbwum, sem ødrum muni ei mikid þikia fyri, ad brioota þitt Bod, og hirda ei hvad vier mælum: Þorgrijm quad sier mikid þikia til slijks hæst: Edur hvad villtu nu adhafast? Þorsteiñ segir: Lioos er eg i þvi, eg vil ad þu fꜳir mier Meñ, og vil eg taka Bwa af Lijfi, er hañ fer heim, mier þikir þad seint verda, ad fyri hañ bioodi Fadir hañs nockra Sæmd. Þetta stadfestist nu med þeim Fedgum, hallda þeir til Rioosnum, nær Bwi fer heim hiꜳ. Bwi dvelst nu nockrar Nætur i Brautarhollti, og er hañ bioost heim, kom Þurijdur Moodir hañs ad hønum og mællti: Þad villda eg Son miñ, ad þu færir ei svo Ovarlega, mier er sagdt, ad Þorsteiñ hafi hørd Ord til þijn, villdi eg ad þu letir fara med þier hid færsta Tvo Meñ vaska, og bærir Vopn, eñ færir ei slippur: Bwi svarar: Skyllda er þad, ad eg geøri eptir þijnum Vilia, eñ þwngt er Fooſtru miñi, ad añast slijka fleiri, sem eg er, eñ vant er ad siꜳ þad uñ ockur Þorstein, hvørjer frꜳ kuña ad segia, þoott ad eg eigi vid Lids-Mun nockurn: Mun eg fara ad Siñi, sem eg hefi ætlad. Eptir þad foor Bwi Leid sijna Austur med Sioo, og feck Þorsteiñ þegar Rioosn af: Þeir tootu þa Vopn sijn, og urdu samañ Toolf, Bwi var þa komiñ ꜳ Hæd nockra, er hañ sꜳ Eptirførina, nam hañ þar Stadar, og bar ad sier Steina: Þeir Þorsteiñ hlupu nu yfir Læk þañ er þar var, þa heyrdu þeir, ad þaut i Slaungu Bwa, og floo Steiñ, sꜳ kom fyri Brioost ꜳ einum Mañi Þorsteins, og feck sꜳ þegar Bana. Hañ sendi þa eñ Steina nockra, og hafdi Mañ fyri hvørium: Voru þeir Þorsteiñ

fleiñ þa miøg komnir ad Bwa, Bwi foor þa af Hœdiñi añ-
añ Veg vid þa: Leiti Eitt bar a milli þeirra; J þvi lanst
yfir Myrkri, ad hvørgi sa af Taam sier, Þorsteiñ mællti
þa: Nu er vid Ramañ Reip ad draga, er bædi er ad eiga
vid Hund og Trøll, eñ aptur munum vier fara nu ad Siñi:
Eñ Vilia skal eg til hafa, ad sa verdi Fundur ockar Bwa,
ad vid eigum ecki baadir fraa ad segia. Eptir þad snieru
þeir aptur, og baaru Førunauta sijna med sier, og undu all-
illa vid sijna Ferd. Var þad og Maal Mañа, ad þeim
hefdi all-illa tekist Ferdiñ.

## IV. Cap.

Nu foor nu heim, og var Esia Foost-
ra hañs uti i Dyrunum, hun heilsadi Bwa, hañ
took vel Kvediu heñar, Esia mællti: Þooktist þu
nu ecki Lid-faat vera uñ Hrijd? Bwi mællti: Ei
þurfti nu fleiri, Esia mællti: Ei varstu nu Eiñ i Bragdi
med øllu, Bwi mællti: Gott þikie mier goods ad niovta,
Esia mællti: Mun þier ecki eñ leidast Ellting Þorsteins,
þa visse þad segir Bwi, ef eg ætti nockurs Traustis ad Von,
Esia mællti; Til margs verdur hætt jafnañ: Skildu þau
Talid, lijdur nu a Veturiñ. Þa foor Bwi Eiñ Aptan
seint uti Brautarhollt, og var þar uñ Noottina: Eñ uñ
Morguniñ fyri Dag var hañ a Footum, snieri hañ þa Aust-
ur a Holltid, þar er hañ sa geørla til Bæarins ad Hofi:
Vedur var uti Heidrijkt og biart, sa hañ þa ad Madur
kom ut sneña a Hofi i Lijn-Klædum einum, sa snieri ofañ
af Hlidinu, og geck Stræti þad er laa til Hoffsins. Þooktist
Bwi keña, ad þetta var Þorsteiñ, snieri Bwi þa til Hoffsins,
og er hañ kom þar, sa hañ ad Garduriñ var Olæstur og svo
Hofid, Bwi geck þa iñ i Hofid, hañ sa ad Þorsteiñ laa a
Grwfu, fyri Þor; Bwi foor þa Hlioodlega, þar til er hañ
kom ad Þorsteini, hañ greip þa til Þorsteins med þvi Mov-
ti, ad hañ took añare Hendi undir Knesbætur hønum, eñ
añari undir Herdar hønum, braa svo Þorsteini a Lopt, og
keirdi Høfud hañs nidur vid Stein svo fast, ad Heiliñ braut

um̃ Soolsid, var hañ þegar daudur, Bwi bar hañ þa ut ur Hofinu, og kastadi hønum undir Gardiñ: Sijdañ sneri hañ iñ aptur i Hofid, hañ took þa Elldiñ þañ hiñ vijgda og tendrade: Sijdañ bar hañ Logañ um̃ Hofid, og bræ i Tiolldiñ, las þar brætt hvad af ødru: Logadi nu Hofid iñ-añ æ lijtilli Stundu. Bwi sneri þa ut, og læsti bædi Hofinu og Gardinum, eñ fleigdi Lyklunum i Logañ: Eptir þad geck Bwi Leid sijna. Þorgrijmur Godi vaknadi um̃ Morguniñ og sæ ut, hañ gat ad lijta Logañ til Hofsins, het hañ æ Meñ sijna, bædi Konur og Karla ad hiælpa til med Vatns-Kerølld og hiælpa Hofinu. Hañ kalladi og æ Þorstein Son siñ, og fañst hañ hvørgi. Eñ er þeir ko-mu til Gards-Hlidsins, var þad ecki Greidlegt, þvi þad var læst og svo Hofid, eñ þeir fundu hvørgi Lyklana: Urdu þeir ad briota upp Hlidid, þviad Garduriñ var svo hær, ad hvørgi mætti æ komast. Brutu þeir þa upp Hlidid, og er þeir komu iñ i Gardiñ, sææ þeir hvar Þorsteiñ læ daud-ur, Hofid var og læst, og mætti þvi eingu biarga er iñi var. Voru þa geordir til Krookar, og vard um̃ sijdir sundur-dregid Hofid, nærdist vid þad nockud af Vidum. Nu er ad segia fræ Bwa, ad hañ kom æ Bæ hañ er heitir i Hool-um, lijsti þar Vijgi Þorsteins sier æ Hendur, og geck eptir þad heim. Esia var fyri Vestañ Gard, og heilsadi Bwa, hañ took vel Kvediu heñar, hun mællti: Hefur þu nockud elltur verid i Morgun af Þorsteini? Edur hefur þu nu nockud tekid Brijuinguñi? Bwi qvedst nu ecki þræta, ad þeim Hofverium bætti i ordid nockud Snarf, Esia mællti: Hefur þu nockud lijst Vijginu? Hañ qvedst þad geort hafa, Esia mællti: Eigi hefi eg til þess Traust, ad hallda þig Filsnislaust fyri Þorgrijmi, þviad eg veit hañ kemur hier i Dag, Bwi mællti: Muntu nu ei fyri siæ sem þier lijkar? Snern þau þa fyri ofañ Gard med Fiallinu, og þar yfir Ana. Sijdañ geingu þau Einsijgi upp i Fiallid, og til Gnijpu þeirrar er het Laugar-Gnijpa, þar vard fyri þeim Hellir fagur, var þad gott Herbergi, þar var undir nidri føgur Jard-Lang: J Hellinum voru Visiir, Dryckur og

Klæde,

Klædi, þa mællti Esia: Hier muntu nu fyrst verda ad bigg ia, Bwi qvad þvo vera skuli. Esia sneri þa heim, eñ er hun kom heim, let hun giora Ellda i Hwsum, af votu Sorpi, þvi er svidnadi, og af vard sem mestur Reykur og Reña.

## V. Cap.

Nu er þvi er nu ad segia, ad Boondi sa er bioo i Hoolum, Reid þegar a Fund Þorgrijms Goþa, er Bwi var brott, og sagdi hønum hvørt Erindi Bwi hefdi þangad haft: Og er Þorgrijmur vard þessa vijs, sendir hañ sem snarast eptir Møñum: Fyrst eptir Sonum Arngrijms Broodur sijns Helga, og Vakur, og ødrum fleyrum, svo ad þeir urdu samañ Priatijge. Þorgrijmur Reid med Flock þeñañ til Esiu Bergs, og er sien var Ferd þeirra, þa let Esia bera Sorp og Horn a Elldana, eñ hun stood ut i Dyrum er þeir Þorgrijmur komu. Esia heilsadi þeim, og baud þeim þar ad vera, Þorgrijmur sagdi Añad Eirindi sitt eñ eta þar Mat: Vilium vier segir hañ, ad þu selier fram Bwa-Hund Foost ra þiñ, og skulum vier sa hønum herfilegañ Dauda, sem maklegt er, Esia mællti: Hvad hefur Foostri miñ þess geørdt, ad hañ sie Dauda verdur? Þorgrijm: mællti: Þad mun þier ei all-Okuñugt, og kantu ad læta marga Vega. Hañ hefur uñid þau Oddæma-Verk, ad þvi er betur, ad til munu fiñast sa Dæmi: Hañ hefur drepid Þorstein Son miñ, og er þetta lijtils verdt hia þvi, er hañ hefur brendt upp Hofid og øll Goþ vor, Esia mællti: Þo Bwi Foostri miñ væri hier, og hefdi hañ Dauda-Verk giørt, þa munda eg þier hañ alldre til Dauda fram selia, eñ nu hefur Bwi ecki hier komid sijdañ i Giærdag hañ geck brott. Þorgrijmur mællti: Þvi trwum vier ei, ad hañ sie ecki hier, og vilium vier Rañsaka, Esia mællti: Fiñ eg nu, ad Helgi Bioo la Fadir þiñ er daudur, allrei mundu Hws mijn Rañsøkud, ef hañ mætti Rada: Eñ vera mun sa Rijkis Munur nu, ad þu munt Rada ætla, eñ ecki skulu ad Vilia mijnum fleiri Meñ fara uñ Hws mijn, eñ þu med Fiñta Mañ,

Þorgrijmur qvad svo vera skylldu. Geck Þorgrijmur þa iñ og hinir Fiñ. Esia stood i Dyrnum, og qvaddi til Grid-Konu, ad bera Lioos fyri þeim: Eñ er þeir Þorgrijmur komu iñ, þa voru Hwsiñ full af Reyk, og af svo mikilli Reiku, ad valla mættu þeir draga Dudina, nema þeir birgdu Fotum yfir Høfud sier: Eñ Heima-Konu tookst seint ad kveikia Liooßid, eñ þo vard þad um sijdir, ad þad var borid fyri þeim ad kalla, eñ þeir voru þo miklu stiemur iñi, og fooru Dvijdara, og forvitnudust særra eñ þeir mundu, ef nockrum væri iñe vært. Eptir þad fooru þeir ut og kvadu þar eingum Mañi iñqvæmt, Þorgrijmur mællti: Pad høfum vier fyri satt Esia, ad þu hafir Bwa undañ brugdid, mundum vier nu gaanga nær, ef ei nyter þu Fødur mijns, og þess Añars, ad mier þykir til einskis ad taka þig Høndum. Esia mællti: Ei mun Bwe hier siñast, þvi hañ hefur hier ecki i Dag komid. Eptir þad reid Þorgrijmur brott, og Heimleidis. Hañ mællti þa til siña Maña: Miklu liggur mier þetta alltsamant i meira Rwmi, eñ ei verdi oß nockrum nidur ad koma mijn Reidi, skal nu fara i Brautarhollt og drepa Andrijd. Eñ þeir Helgi og Vakur søgdu þad vondt Verk, ad drepa hañ gamlañ. Þorgrijmur qvadst þad þo gesra skyllde. Rijda þeir þa i Brautarhollt, var þar þa eingiñ Vørn fyri, þvi Andrijdur var tekiñ i Øndveige sijnu, og leiddur wt. Þurijdur Hws-Freya baud Fee fyrer Andrijd Boonda siñ, eñ þad tiaadi ecki: Feck Þorgrijmur til Mañ ad drepa hañ, og vard hañ Dreingilega vid dauda sinum. Epter þad rijda þeir a brott. Þurijdur let bwa uñ Lijk Andrijds, og var hañ fluttur i Ey þa er þar liggur fyri Lande, og var þar Heygdur; Og er sw Ey sijdañ kolluð Andrijds-Ey.

## VI. Cap.

Þetta sama Sumar er fra var sagdt, Kom Skip af Hafe, Stijre-Madur het Ørn, Vijkverskur ad Ætt, hañ foor til Vistar i Kollafiørd. Eñ er Austmadur hafdi þar ei leingi verid, leit hañ Augum

Augum til hvørsu føgur Oluf var Kolladootter, og took þañ Vana, ad hañ sat a Tale vid hana hvørn Dag. Kolli hafdi prwd Hybiile, og villde hañ hallda til Glede, Saker Stijremañs: Let hañ þa efla til Leika. Eñ er þad spurdu Unger Meñ uñ Sveitena, þa drifu þeir til, og urdu þar Leikar Fiølmeñir: Esia kom braatt ad fiña Bwa Foostra siñ, og segir Draap Fødur hañs. Ecki bra Bwe sier vid þad, qvad Falls Von ad fornu Tre.

Þess er nu getid ad eirn Dag kom Esia ad fiña Bwa; Hañ spyr þa hvad hun hefdi hønum ad segia til Nijunga? Hun qvad Leike lagda i Kollafyrde: Eñ hitt er meira, segir hun, ad Ørn Stijremadur situr a Tale vid Olufu hina Vænu hvørn Dag: Og ætla Meñ ad hañ mune fipla hana. Bwe mællti: Hun skyllde fa gott Forlag. Esia mællti: All-heimsklega koma þier upp Ord Stundum, þar sem eg hefi þier þessa Konu ætlad: Nu vil eg ad þu gaanger til Leika þaangad, og hætter svo Lijfi þijnu, þvi ecki ma vardveita þig þañiñ, ef þier er Daude ætladur. Bwe qvad hana rada skyllde. Epter uñ Morguniñ geck Bwe til Leiks i Kollafiørd: Hañ kom helldur sijd, og var tekid til Leiksins; Hiñ sama hafdi hañ Bwning, gyrdt ad sier Sløngu siñe. Oluf sat a Palle, og Ørn Stijremadur a adra Hønd heñi, og tøluduss þau vid: Bwe geck ad Palle, og kipte þeim Tveimur upp er a adra Høud heñi satu. Sijdañ settist hañ nidur hia Olufu, og sat þar þañ Dag, geck svo heim uñ Kvølldid i Hellir siñ: Svo breitti hañ Añañ Dag og hiñ Þridia. Ørn Stijremadur hiellt Hætti sijnum: Eñ hvørge talade svo vid Olufu, ad ei heyrdi Añar.

## VII. Cap.

Nu er þar til ad taka, er Þorgerdur Hwsfreyia ad Vatni, kom i Elldhws Eiñ Dag, þar la Kolvidur Son heñar, og retti Vijsfur helst til laangar, hun mællti: Mikid ma skiiia til hvørs Meñ eru fæddir i Heimiñ, og ad hvøriu getid skal

verda

verda. Þar sitia Tveir Meñ i Kollafirdi, er kieppast uñ Olufu hina Vænu, og mørg Karlmañleg Brøgd eru fra þeim søgd. Nu gaanga þaangad allir ungir Meñ til Leyka, eñ þu ert þad Vanmeñi, ad þu liggur i Elld-Grøfum til Hrellingar þiñi Moodur, og væri betra, ad þu værir daudur, eñ vita slijka Skøm i Ætt siñi, Kolvidur svarar: Akøf ertu nu Moodir, og mun braatt betra: Þorgerdur snijr nu brott, eñ litlu sijdar rijs Kolvidur a Fætur, gengur ut, og litast uñ, sier hañ þa ad ecki er Frañordid. Kolvidur var svo bwiñ, ad hañ var i Koll-Hettn, og hafdi knept Bløduumm milli Foota sier: Hañ hafdi Hokul-Krækiur og Kalfskins-Skoo lodna a Footum. Vidar Budlungur stood a Hladinu, þaangad geck Kolvidur, og took Eitt Tre haatt i Hønd sier, sneri sijdañ ur Gardi, hañ skaut Stauñgiñi frañ undañ sier, og hlioop þar a eptir, og foor stoorlega mikid, og letti ei firr, eñ hañ kom i Kollafiord, var þa tekid til Leyks. Oluf sat a Palli, og a sijna Hønd heñi hvør þeirra, Ørn Aust-Madur og Bwi. Eñ er Kolvidur kom i Stofu, svo bwiñ sem firr var sagt, þookti flestum Møñum hañ helldur hrædilegur, nam hañ þa Stadar a Goolfinu og litast uñ, hañ sa hvar Reidustooll stood a Goolfinu, þaangad geck hañ, took Stooliñ, og setti þar framañ ad sem Oluf sat. Kolvidur settist nidur a Stooliñ, og sat þar þañ Dag allañ: Uñ Kvølldid foor hañ heim, og geck þa til Stofu: Moodir hañs heilsadi hønum, og spyr hvar hañ hefdi verid? Eñ hañ sagdi heñi þad, þa mællti hun: Hvørsu þookti þier þar uñ ad litast? Gott segir hañ: Skalltu fara þaangad optar segir hun? Kolvidur svarar: Ecki þikist eg Lausgediadur i Athofnum mijnum, og þiki mier meiri Von, ad eg veite þier þetta, ad gaanga þaangad uñ Nijd, þa mællti hun: Þa vil eg þu hafir Klædi Sæmileg Son miñ og Vopn good, og Mañ til Filgdar segir hun: Þad vil eg ei segir hañ: Vil eg hallda Bwnadi mijnum svo bwid, og eingañ Mañ mun eg med mier draga: Þu munt-raada vilia, segir hun. Eptir uñ Morguniñ geck Kolvidur til Kollafiardar, og haattadi øllu sem hiñ

fyrra

fyrra Dag. Svo foor fram̄ sndverdan̄ Vetur, ad þeir 3. Meñ hætudu svo Ferdum sijnum: Einguñ þeirra mællti vid añañ, hvørke Gott nie Jllt. Einguñ mællti þad vid Olufu, ad ei heyrdi añar: Øllum svarade hun þeim Kurteislega. Þorgrijmur Gode spyr nu Athæfi Bwa, og Atferder: Þeynker nu hvad nærre hønum hañ hefr høggvid i Dræpe Sonar hañs, þo geørdi hañ nu ei til hañs, og lijdur svo nockra Stund.

Eñ litlu sijdar geørdi hañ Meñ æ Fund vid hañ, voru þeir 30. Tals, og aller vel Vopnader: Vingguſt þeir heimañ, og letu all-mikid yfer sier, lettu ei siñe Ferd, firr eñ þeir komu under Fiallid og bidu þar, til þess ad þeir sæu Bwa hvar hañ foor, vard þa lijtid af Qvedium med þeim: Þurfte þar ecki ad Søkum ad spyria, slæſt þar þegar i Bardaga hardañ, geck Bwe all-Dreingilega fram̄, og vo til beggia Handa med Sverdenu Esiu-Naut; Var ei laung Stund ædur Bwe fellde 15. af Moñum Þorgrijms, vard þa þegar Støckur i Lidenu, og flwde hvør sem meſt gat, þooktuſt eiga Footum sijnum Fiør ad launa: Þooktiſt sæ heppnaſtur er fyrſtur komſt heim, og segia sijnar Ferdir ecki sliettar, hvørsu Bwe hafde leikid þæ wt. Þorgrijmur verdur miøg reidur vid þetta, og sagdiſt skyllde æ Bwa þessarar Sneipu grimilega hefna. Var þer ad-geørdt all-mikid Kalls, og lidu svo fram̄ Stunder.

## VIII. Cap.

Þess er nu getid Eiñ Tijma, Ad Ørn Ausimadur kemur ad Moale vid Kolla Boonda, og mællti svo: Her horfir til þess Kolle, segir hañ, ad her munde verda good Hybijle, og þad Eina leider til af þier er vel er; Eñ þad mæ þykia mikil Osyrisynia, ad þesser 2. Meñ hafa vanid hijngad Komur sijnar: Þyke mier þad þolande, ef illa skal vera ad Bwe hafe slijka Medferd, eñ hitt O-Mæſt'er þar situr, og hlijder til Tals-Maña, þa er eg æ Endaklíædur ad þola þad leingur. Kolle svarar: Hier

vil

vil eg ad þu hafir þa Medferd er þier lijkar. Þeñañ sama Aptan bad Orn Svein siñ ad taka Vopu þeirra, og gaanga med Sudur-Twne og bijda sijn þar; Eñ med þvi ad Þys var mikill, og marger Meñ bingguſt, þa gaaſu einger Meñ Gaum ad Auſtmañenum hvort er hañ geck, ſneri Auſtmadureñ þa Sudur uñ Hollt þad er þar var, ſaatu þeir þar 2. fyri Kolvide. Epter Leikiñ gerk Kolvidur wt epter Vanda, og ſer Lejd ſijna; Eñ er hañ kom ſudur af Holltinu, hlupu þeir Orn Auſtmadur upp, og ſooktu ad honum. Kolvidur vardiſt med Lurkinum, og barde Vopniñ fyri þeim, vard þeim hañ Torſooktare eñ þeir hugdu: Og er þeir hoſdu ſamañ aatt uñ Hrijd, ſloo Kolvidur Sveiniñ i Rot, hraut þa fraa honum bædi Skiolldurinn og Sverdid, Kolvidur greip þad hvortveggia upp, ſookti hañ þa ad Erne Auſtmañe, og lauk ſvo ad Orn fell, eñ Kolvidur vard ſaar. J þvi raknade Sveirneñ vid, og villde Kolvidur ecki gesra honum Mein, geck hañ þa Leid ſijna. Sveirneñ ſaa Auſtmañeñ veigiñ, ſkaut hañ þa yſer hañ Skillde, og geck ſijdañ heim i Kollaſiord. Kolle let flytia heim Lijk hañs, og bwa uñ epter Sidvenju. Nu er ad ſegia fraa Ferd Kolvidar: Hañ var ſaar miog, eñ Aar ſtoorar voru aa Leid hañs: Og er hañ kom ad Leyruvogs-Aa, gerdi honum kaldt miog, og ſtirdnade hañ; Froſt var aa nockud....

Madur het Korpwlfur, hañ bioo ad Korpwlfsſtodum; Hañ var gamall Madur, og kalladur helldur forn i Brogdum: Son aatti hañ hañ er Grijmur het, hañ var ungur og frᴂlegt Mañs-Efne. Korpwlfur var Moodur brooder Kolvids, þaangad ſneri Kolvidur Ferd ſiñe, og feck þar goodar Vidtokur: Batt Korpwlfur Saar hañs, og dvaldiſt hañ þar uñ Hrijd, eñ ſendi Moodur ſiñe Ord hvad hañ dvelde. Þeñañ ſama Morgun ſem Orn var veigiñ, kom Eſia ſnemma til Fooſtra ſijns, hañ fagnade heñi vel, og ſpurde ad Tijdindum? Eſia ſegir honum Wijg Arnar Auſtmañs, og aaña Atburde þaa er þar urdu: Nu vil eg ad þu breiter Bwnade þijnum, ſegir hun, hef eg hier nu Lodkaa-

pu,

yn, er eg vil þu berer; Skirta er hier añad Klæde, þad þyke mier lijkara ad huñ slitne ei skiott, hvørke fyri Vopnum nie Fyrnsku; Sax er hier hiñ Pridie Gripur, er eg meina Oviida nemi i Høgge Stad, þvi þu munt nu skiott verda ad reyna, hvørneñ þier bijta Vopniñ. Bwe qvad hana ráda skylldu, og helldt Ferdum siinum i Kollafiord: Var nu eingiñ Praung hiá Olufu; Jafnt leit hun til Bwa nu sem firr. Eñ þa Kolvidur var grooiñ Sáára siña, sagde hañ Korpwlfi Frænda siinum ad hañ vill fiña Moodur siina. Korpwlfur bad hañ þvi ráda; Eñ þvi vil eg ráda, segir hañ, ad þu hafir ei leingur Tøtra þessa: Vil eg ad þu hafir hedañ good Klæde, og Vopn er eg vil gefa þier, muntu þeirra brátt þurfa; Þar med vil eg fáá þier Grijm Son miñ til Fylgdar og Føruneytis. Kolvidur qvad svo vera skyllde. Epter þad fooru þeir Frændur til Vatns ad fiña Þorgerdi; vard hun þeim feigiñ, og spurde hvad Kolvidur villde adhafast? Kolvidur mællti: Eg ætla nu á Fund Bwa, skulum vid nu ei sitia báder leingur á Tale vid Olufu. Þorgerdur mællti: Sw Ætlan er ei Viturleg, ad skipta Høggum vid Bwa, og vid margkuñande Esiu, og Hardfeinge hañs. Kolvidur svarar: Tveir eru i Hættu hvørre, Añadhvørt mun eg lifa edur deya. Þu munt ráda vilia Son miñ, segir hun.

## IX. Cap.

Um Morguniñ fooru þeir Frændur sneña, og komu i Kollafiord, bingguſt Meñ þa til Leiks. Bwi sat á Palli hiá Olufu, Kolvidur sueri til Stofu, geck ad Pallinum þar sem Bwi sat, og mællti: Tveir eru þier Kostir gesrdir segir Kolvidur: Sáá Añar, ad þu liettir hiingad Komum med øllu: Hiñ Añar, ad þu gángir á Hoolm vid mig á Morgun, i Hoolmi þeim er liggur Sudur i Leyrvogs-Aa, Bwi segir: Þvi helldur skal kioosa, sem Kostir eru Ojafnari: Eg hefi verid Siálfráde Ferda miña hier til, og svo ætla eg eñ, eñ Hoolm-Gaungu skal veita þier þegar þu villt. Eptir

þad

þad tooku þeir Høndum saman̄, og bundu þetta sijn i milli. Þeir Kolvidur og Grijmur høfdu sig þegar brott, fooru þeir um̃ Kvølldid ꜳ Korpulfsstadi, og søgdu Korpulfi hvar komid var, han̄ svarar: Nu stefnir þu Frændi ecki vænt Raad, hefur þeim ordid þungt ad skipta vid Esiu, er meira ꜳttu undir sier: En̄ þad mun nu fram̃ verda ad gꜳnga, sem ætlad er: Þar voru þeir um̃ Noottina. En̄ er þeir biuggust, mællti Korpulfur: Lijtid Lid mꜳ eg veita þier Kolvidur segir han̄: En̄ Sverd er hier, er eg vil giefa þier, þetta bar eg Øndverda Daga mijna, en̄ ecki mun þier þad fyri mikid koma i þetta Sin̄. Eptir þad fooru þeir Frænd ur Leid sijna: Bwi var eptir hiꜳ Leik, er þeir Kolvidur skildu, geck han̄ ecki heim firr en̄ ad Vanda. Var Esia þar fyri, og heilsadi Foostra sijnum, og spyr hvørt hønum væri ꜳ Hoolm skorad? Han̄ qvad svo vera, Esia mællti: Þar er Hardfeingur Madur er Kolvidur er, og formikill: En̄ hier verd eg nu ad sofa hiꜳ þier i Noott, hun gørdi hønum þa Laug, og strauk hvørt Bein ꜳ hønum: Sijdan̄ klæddi hun han̄ um̃ Morguninn̄, og bad han̄ vel fara. Bwi foor nu til þess, er han̄ kom i Hoolmin̄, var Kolvidur þar fyri, og Fiølldi Man̄s, þviad Forvitni mikil var Møn̄um ad siꜳ Adgꜳng þessara ungu Man̄a, þvi bꜳdir voru þeir sterklegir. Þad var þa Sidur, ad kasta Felldi undir Fætur sier: Þad voru Løg þeirra, ad sꜳ er af Felldi hopadi, skylldi leysa sig Þrem Mørkum Silfurs, sꜳ þeirra var Ovijgur, er firri liete sitt Blood af sier ꜳ Jørd. Eptir þad voru søgd upp Hoolmganngu-Løg ꜳ milli þeirra: Bwi ꜳtti firri ad høggva, þvi hønum var ꜳ Hoolm skorad, hvørutveggin hafde goodan̄ Skiølld, og øll øn̄ur Vopn. Bwi hioo þa til Kolvidar, en̄ han̄ brꜳ vid Skylldinum, og took af ødrumeigin̄ Mundrida: Eptir þad hioo Kolvidur an̄ad þvilijkt Høgg til Bwa, hioo þa Bwe til Kolvids, og gørde Onijtan̄ fyri hønum Skiølldin̄, og særde han̄ miklu Sꜳre ꜳ Høndena, var Kolvidur þegar Uvijgur. Men̄ hlupu þa ꜳ millum þeirra, og voru þeir skilder: Epter þad foor hvør Leid sijna, foor Kolvidur ꜳ Korpwlfsstade,

og

og batt Korpulfur Saar hañs, og qvad ei miñe von ad uñt Skipte þeirra Bwa: Dvalde Kolvidur þar uñ Stund. Bwe sneri fra Hoolm-Stefnuñe og heim til Kollafiardar, og var Oluf vid Lang og heilsade Bwa, hañ took Qvediu heñar og mællti: Svo hefur nu farid til uñ Fund ockar Oluf, ad eg mun ei eiñsamañ fara til Hellis mijns, þyke mier og Leidindt ad ganga hijngad hvørn Dag til Tals vid þig, muntu nu fara med mier ad Siñe. Oluf segir: Pad mun Fodur mijnum illa hugnast. Bwe segir: Hañ mun nu ecki adspurdur. Took hañ þa Olufu uppa Handlegg sier, og geck Leid sijna: Foorn þau þar til er þau komu i Hellir Bwa, var Esja þar fyri, og heilsadi þeim og mællti: Pyker mier þu Bwe vel hafa hast af Maale, varid hana Olufu fyri Vaunmoñum, og flutt hana nu ur Klandre þeirra: Skalltu nu Oluf mijn vera hier vel komiñ. Oluf qvad Bwa nu munde raada sijnum Vistum ad Siñe.

Kolvidur spurde braatt Toku Olufar; Hañ mællti þa vid Korpulf Frænda siñ: Til-fiærre var eg nu, ei skyllde Oluf svo farid hafa; enda skal eg þegar leita a Fund Bwa er Saar mitt er grooid. Korpulfur svarar: Illa gører þu þad, segir hañ, er þu leggur epter Olufu Hug þiñ, skalltu og ei ad mijnu Raade leita a Fund Bwa, nema þu hafer Meñ marga.

## X. Cap.

Nu lijdur ai Veturiñ, og geørast grooiñ Saar Kolvidar, þa mællti hañ: Nu mun eg fara ad fiña Moodur mijna, og fa mier þadañ Meñ, eñ Grijmur Son þiñ skal vera a Morgun fyri mier vid Leyrnvogs-Aa, og þeir Meñ er þu sendir til Lids vid mig, Korpulfur qvad svo vera skylldi. Uñ Morguniñ funduft þeir Frændur, þar sem Kolvidur hafdi akvedid, og urdu þeir samañ Fimtan: Fooru þeir sijdañ alla þa Leyd, þar til þeir komu undir Fiallid hia Hellir Bwa, var þar Einstiigi bratt, þar voru uppi Tveir Vardmeñ, vel Vopnadir, hofdu þeir og Gnoott Grioots: Sa

Kolvidur, ad þeir mættu med eingu Mooti vina Einstijgid, Kolvidur kallar þa og mællti: Ef Bwi maa heyra Maal mitt, þa gaungi han ur Einstijginn, ef han hefur helldur Mans-Hug en Ber-Kvikindis. Bwi heyrdi geørla Ord Kolvidar, hlioop han þa upp, og greip Vopn sijn, og qvadst allrei þola skylldu Klækis-Ord Kolvidar: Oluf qvad O-Raadlegt ut ad ganga vid þan Lids-Mun sem var: Bwi qvadst þad ei hirda; Og er Bwi var Vopnadur, þa launst heim Verk i Augu hans bædi, ad han vard þar bædum Høndum til ad grijpa, Oluf spurdi hvad hønum væri? Bwi qvad þad mundi seinkast un Utgaunguna, get eg segir han, ad Fooſtra mijn hlutist nu til: Oluf qvad þad vel vera: En er Kolvidur þooktist vita, ad ei mundi verda af Utgaungi Bwa, sneri han aa brott og Men hans: Letti han þa ei firr, en han kom heim, og undi illa vid sijna Ferd. En er Kolvidur sneri brott fraa Einstiginu, batnadi Bwa Augna-Verkiarins, og leid nu af Veturin.

## XI. Cap.

ENN er Sumra took, Rædduſt þau vid Bwi og Esia: Pad vil eg nu segir hun, ad ei liggir þu hier leingur, og skalltu helldur fara Nordur til Hrwtafiardar, þvi þar hefur Skip uppi stadid i Vetur aa Bordeyri, skalltu aa þvi utan fara, og freysta hvad þar liggie fyri þier, giørist eg nu Gomul, og mun eg faa Vetur eptir eiga Olifad. Pessu næst bioo hun Ferd hans, og fek hønum Man til Fylgdar og Prioa Hesta: Oluf skylldi fara heim i Kollafiørd, og bijda hans um Prioa Vetur. Bwi foor med Fialli in, þegar han var bwin sem Leid liggur. Esia Fooſtra hans foor aa Leid med hønum, og þookti mikid fyri ad skilia vid han. Sijdan reid Bwi Leid sijna, og er han kom in fyri Blikdals-Aa, saa han þar Smala-Man ur Saurbæ, han spyr hvørier þesser Men væri? Bwi segir hønum allt hid Sana, og þegar þeir voru skilldir, og Leyti bar aa millum þeirra, took Sauda-Madurin aa Raas heim, og sagdi þeim Brædrum allt um

Ferdir

Ferdir Bwa: Þeir þøckudn hønum ſitt Starf, lietu þeir þegar taka Heſta, og kølludu a Heima-Meñ med ſier: Vopnuduſt ſkioott, og urdu ſamañ Toolf, ridu þeir mikid. Bwi ſa ei Eptir-Reidina, firr eñ þeir komu ofañ hiaa Skeid-Hliid, hañ reid þa þar til, er ſa Hooll vard fyri hønum, er ſijdañ er kalladur Oruſtu-Hooll, þar nam Bwi Stadar, og bad Førunaut ſiñ geima Heſta þeirra og Sagna. Bwi geck uppaa Hooliñ, og bar Griootad ſier, hañ hafdi øll good Vopn, og Skirtu þa er Fooſtra hañs hafdi gefid hønum. Þa Brædur bar braatt ad, og hlupu þegar af Heſtum ſijnum, og veittu Bwa harda Adſookn, eñ hañ vardiſt Dreingilega, og let hañ gaanga Griootid i Fyrſtu, var þad jafn ſneiña, ad fallnir voru Fioorir Meñ af þeim Brædrum, enda hafdi þa Bwi lokid Griootinu. Hañ took þa Skiolld ſiñ og Sverd, þeir Brædur ſooktu ad med miklu Kappi, þviad þeir vorn badir Hugprwdir, fellu þa eñ Tveir Førunautar þeirra, voru þeir Brædur þa ſaarir og allir þeirra Meñ. Bwi var þa eñ Oſaar, eñ aakaflega Vijg-moodur: J þvi Bili kom Eilijfur Boondi ur Eilijfs Dal vid Siötta Mañ, og geck a milli þeirra, og med þvi þeir Brædur Helgi og Vakur voru ſaarir, þa gaafu þeir upp. Eilijfur bad Bwa fara Leid ſijna, og ſvo geordi hañ. Eilijfur let Jarda dauda Meñ, eñ binda Saar hiña. Eptir þad fooru þeir Brædur heim i Saurbæ, og undu illa ſiñi Ferd. Bwi letti ei Ferd ſiñi, firr eñ hañ kom Nordur i Hrutafiord, took hañ ſier þar Far, og er þeir voru buunir, ſigldu þeir i Haf. Þeir Brædur Helgi og Vakur, tooku ſier Far i Kollafirdi, og fooru utañ badir. Þeir tooku Norveg, og fooru til Hirdar Haralld-Kongshiñs Haarfagra: Voru þeir med Kongi uñ Vetur iñ, og þockuduſt hvorium Mañi vel. Þeir ſøgdu Kongi fraa Skiptum þeirra Bwa; Liet Kongur illa yfir þvi, er Bwi hafdi brendt Hoſid, og kalladi þad Nijdings-Verk.

* *   * *   * *
*   *   *

## XII. Cap.

Nu er ad segia fra Bwa, þeim byr-jade seint, og tooku Orkneyar um Haustid siidla: Pa ried Einar Jarl Rognason fyrer Eyunum. Bwe foor til Hyrdar Jarls, geck fyrer Jarl og qvadde hañ. Jarl spyr hvør hañ være? Bwe segir af hid liooſaſta, og villda eg þyggia Veturvist med ydur Herra, segir hañ. Jarl svarar: Fylgd good muni þier, skalltu viist vera med oss i Vetur, ef þu villt. Bwe var med Hyrd Jarlsins um Veturiñ. Einar Jarl hafde Starfſamt miøg um Veturiñ, og var Bwe hiñ ørnggaſte i øllum Mañraunum: Eñ um Vorid er Skip bad biooſt til Norvegs, er Bwe hafde þangad a farid, þa geck Bwe fyrer Jarl og bad hañ Ordlofs: Jarl svarar: Hitt þyki mier Maadlegra Bwe, ad þu dvelieſt her med oss, þøfum vier þig ad røskum Mañe reyndt, munum vier leida þig i Hyrd-Løg, og laata þig taka þar med adrar Sæmder, ef þu villt her vera. Bwe þackade Jarle med føgrum Ordum, eñ qvadſt vilia til Norvegs; Jarl qvad svo vera skyllde. Epter þad sigldu þeir til Norvegs, og komu ad Nordarlega: Peir spurdu ad Haralldur Kongur sat i Praandheime, foor Bwe til Praandheims a einum Byrdinge; Og er hañ kom til Steinkera, þa geck hañ fyri Kong, er hañ sat yfer Bordum, og qvadde hañ vel. Kongur spyr hvør være sa mikle Madur? Bwe segir til allt hid Saña: Kongur spyr hvar hañ hefdi verid um Veturiñ? Bwe segir hønum þad: Og er eg her komiñ Herra, segir hañ, til þeſs, ad eg vil biooda ydur mijna Pioonustu. Kongur mællti: Muntu nockud eiga hier vel Kvæmt? Bwe qvadſt þad ei vita. Kongur bad þa kalla til ſiñ Helga og Vakur: Og er þeir komu fyri Kong, mællti hañ: Kieñe þid nockud þeñañ hiñ mikla Mañ? Ja søgdu þeir, og þad munde hañ reyna, ef eckı være hier svo nær, og giarnañ bidium vier ydur, ad þier gefid ockur Leifi til ad hefna a hønum Harma ockra. Kongur mællti: A eingum Mañe nydunſt eg, þeim er geingur a mit

æ mitt Valld, sie eg yckur eingañ Agooda, þo þid reynid med yckur jafn=bwnum: Eñ med þvi Bwe, ad þu brender iñe God vor, er ollum Moñum hæfir ad Tigna, þar fyri skyllde eg hafa lœted drepa þig, ef þu hefder ei a vort Valld geinged, eñ nu skalltu leysa Hofud þitt med eiñe Sende-Ferd, þu skallt sækia Tafl til Dofra Foostra mins, og færa mier. Bwe mællti: Hvort skal eg þa fara? Kongur mællti: Hygg þu sialfur fyri þvi. Bwe mællti: Pad munu marger Meñ mæla Herra, ad betta sie Forsending, eñ þo mun eg under=jœtast, vil eg ad þier festid mier Grid, þœngad til eg kañ aptur ad koma. Kongur qvad svo vera skyllde. Bwe foor þa brott ur Bænum, og var um Sumarid iñ i Prœndheime; Hañ frettist þa fyri uñ Drnesne: Var honum þa sagdt hvar Dofra=Fiall var.

## XIII. Cap.

Hundverdañ Vetur þa er Snioa lagde æ Fioll, sueri Bwe Ferd siñe upp i Bygder: Dvaldist þa i ofañverdre Bygdeñe uñ Hriid, med Boonda heim er Raudur het. Bwe spurde Raud, ef hañ kyñe nockud Rœd til ad leggia med honum, ad hñ kiæme fram Ferdiñe? Raudur mællti: Marga Meñ hefur Kongur sendt þess Eyrindis, og hefur eingiñ aptur komist, og audsyndt er mier ad Kongur vill þig feigañ: Eñ eingra þeirra Maña veit eg Von ad vita hvar Dofre rædur fyri, nema Haralldß Kongs. Eñ þar þu hefur mig sooktañ, þa skal eg til=leggia nockud: Eg mun visa þier Veg til Dofra Fialls, og svo Gnijpu þeirrar, er flester Meñ ætla ad Hellir Dofra mune i vera; Haga þu svo til ad þu komer under þa Gnijpu Joola=Aptan, eñ sijdañ verdur þu ad leitast uñ; Ecki kañ eg meira ad ad gøra. Bwe bad hañ hafa Pøck fyrir, og gaf Raud Fijngur=Gull gott og mikid. Raudur þackade honum Gefsina, og kom her Bwe, segir hañ, ef svo Olijklega fer, ad þu komer aptur. Bwe qvad svo vera skyllde. Hœttar hañ nu ollu svo sem Raudur hafde fyri mællt: Og kom hañ Joola=

Aptan under þessa Gniipu, dvalldist Bwe þar um Hrijd, og sa eingin Lijkinde til Dyra. Sijdan drap hu Sverds-Hiölltum a Hamarin og mællti: Pu Dofre (segir han) lat upp Höll þijna, og losa in Farmöodum Mañe langt ad komnum, þvi þad byriar þine Tign. En er Bwe hafdi þetta mællt Primsinnum, let i Hamrinum sem þa er geingur Reid, og i þvi sprack i sundur Hamarin, svo Dyr urdu a honum; Par nærst geck Kona ut i Dyrnar, hun var mikil a allan Vöxt: Fögur ad Alite, og ubuin i raudum Kyrtle Hladbunum, og digurt Sylfur-Bellti um sig; Hun hafdi sleigid Hꝏr, sem Meya Sidur er til, þad var mikid og fagurt; Fagra Hönd hafde hun, og mörg Gull a: Sterklegan Handlegg, Frijd a Asionu, og öll var hun Lysteleg ad sia; Heilsar hun nu hinum komna Mañe, en han took þvi vel. Hun spyr han ad Nafne? En han segir heñi þad: Edur hvort er þitt Nafn edur Kyn, segir han? Hun svarar: Eg heiti Frijdur, og em eg Dootter Dofra Kongs; Edur hvi ber þu Madur um Herberge vor, segir hun? Han svarar: Eg vil hitta Födur þin, og bidia han Joola-Vistar, þvi han er nu ein frægstur Konga. Pa mællti Frijdur: Ei ertu Ugiptulegur Madur ad sia, og kalla eg Raad þu gaunger in med mier. Buue geörde nu svo; Bad Frijdur þa aptur-lukast Hellirin, og svo vard: Geingu þau þa um Stund eptir Hellinum, þar til ad lijsste af Ellde, sneri hun þa ut ad Biarginu i einum Stad, þar vard fyri þeim Hurd, og Herberge lijtid. Og er þau komu i Herbergid, var þad allt inan tialldad, og agæta vel buid. Pa mællti Frijdur: Hier skalltu Buue setiast nidur og hvijla þig, og legg nu af þier Vopn þiju og Vosklæde, svo geörde han: Og sijdan skaut hun fyri þau fögru Bordi, og bioo þad til Virduglega, bar sijdan fram Munlaug af Sylfre, og bad han taka Handlaugar: Par nærst bad hun han sitia og snæda, voru þar dijrar Vister, og a-giætur Dryckur. Allur Bord-Bunadur var þar af Sylfre, og vid Gulle buin, Diskar, Ker og Spæner: Settist Frijdur þa nidur hia Buua, drucku þau og snæddu

bædi

bædi samañ: Bad hun hañ þa segia sier allt af Ferdum sik-num, og svo gørdi Buue, ad hañ sagdi heñi allt um̃ sijna Par-Komu. Nu hefur þu vel gørdt, segir hun, ad þu hefur ei dult mig hiñs Saña, og maa þad verda, ad ei hen-di þig Mein af þessu; Eñ vita þykiunst eg þad, ad marga Meñ hefur Haralldur Kongur sendt epter þessu Tafle, og hefur Fader miñ þeim øllum tortijndt: Eñ nu mun eg gaanga ad fiña hañ, og segia hønum þijna Hierkomu. Geck Frijdur þa braut, og var aa brott um̃ Hrijd; Eñ er hun kom aptur, fagnade Buue heñe vel, og spurde hvad þau Fader heñar hefdu vid-talast? Eñ hun sagdist hafa sagdt hønum, ad Skeggbarn eitt lijtid være komid, og liest hañ vilia siaa þad, eñ eg sagdi hønum ad þad yrde fyrst ad hvijlast i Noott, og skalltu nu hier sofa i mijnu Herberge, let hañ sier þad vel-lijka; Og skemtu þau sier þar um̃ Kvølldid, og svaafu af um̃ Noottena.

## XIV, Cap.

UM Mørguniñ sneim̃a vaknadi Buue þa er lioost var af Degi, og spurde Frijdur hañ þa hvørsu hønum sofnast hefdi um̃ Noottena? Eñ hañ let vel yfir þvi; Var hun þa ad hønum aa-giæt Klæde, og mællti: Nu skalltu hallda þier vel upp, er þu geingur fyri Fødur miñ, og kref hañ diarflega Joola-Vistar; Geingu þau Frijdur þa i Af-Hellir eiñ. Sijd-añ geck hun fyri, þar til fyri þeim urdu Hurder: Þessu nærst komu þau i mikid Herberge, þad var allt tialldad, og Hoalmur aa Gvolfi, Madur sat þar i Ondvegi, aa hiñ ædra Beck mikill og frijdur, hañ hafdi Skegg mikid, og hvijtt af Hærum: Þesse Madur var vel buiñ, og allur sijndist Buna hañ Vørpumañlegur. Hvørtveggi Beckur var þar skipadur af Foolke, og voru þar marger helldur Stoorleiter: Konur saatu þar aa Palle um̃ þvert Herber-gid, og var su betst fariñ ad Alite, er i Midid sat. Bord stoodu og um̃ Herbergid allt, og Vister fram̃ settar, sum̃ Mø-nnum syondu þañ Tijma ad neyta: Stoodu þar og unger

Meñ frashe, og skeluktu fyri Vordum. Friidur geck fyri Hœsætis-Mañiñ og heilsadi a Fødur siñ, eñ hañ svarade vel Doottur siñe: Poottist Buue nu vita, ad þetta mundi vera Dofri Kongur, geck hañ þa fyri hañ og mællti: Sit heill Dofri Kong: med Hyrd glada. Dofri took vel Ordum hañs, og mællti til Doottur siñar: Er þetta þad Skeggbarn er þu sagder mier frœ i Giær? Svo er Fader, segir hun. Pa mællti Dofri: Fæer koma sliker ur Mañheimum, nema Harralldur Kougur Hoostre miñ, og er hañ lœngt fyri øllum: Edur hvørt er þitt Eyrinde til vor? Buue mællti: Pvi em eg hier komiñ, ad eg vil bidia ydur Joola-Vistar, em eg Utlendur Madur, og hef eg margt heyrt sagdt af ydvarre Frægd: Nu þookti mier O-froodlegt, ad sia ei svo Tiguglegañ Høfdingia. Dofri svarar: Vel mælist þier, og vil eg ad þu siert med oss, skalltu drecka hier iñe uñ Daga, og vilium vier svo eiga Tal med þig: Skalltu skipa Ondveige hid U-ædra, eñ a Kvølldiñ skulu þid Friidur Doottur miin skemta yckur i Stofu heñar, þvi þa munu þier bykia Huskarlar mijner helldur Leikmiller. Buue þackade Konge med føgrum Ordum, Hofdinglegt Bod og fagra Tilskipun: Geck hañ þa uñ þvert Goolf, og Friidur med honum; Bad hun þa uppstanda Prim er þar sætu adur, og svo geordu þeir: Siidañ let hun taka under þau føgur Hægende, og settust þau þar uñ Dagiñ. Spurde Dofri Kongur Buua margra Hluta, eñ hañ leysti vel ur øllum: Og er Kvøllda took, geingu þau Buue og Friidur fyri Dofra Kong, og heilsadu a hañ, eñ hañ bad þau vel fara: Geingu þau þa til Herbergis siins, og voru þar uñ Noottena. Og med þessum Hætti liida nu Tiimar fram.

Siidasta Dag Joola geck Buue fyri Dofra, og mællti: Mikla Virding og Epterlæti hafi þier veitt mier, og nu þo mier þyke hier gott, þa skal þo hiedañ a brott ha lida. Pa mællti Dofri: Pu Buue skallt oss hier velkomiñ i Hellrer vorum, ef þier þad betur lijkar. Packar þa Buue honum ad niju siñ Velgeordning, og helldur nu frañ Hœttum

siin=

kinnum, sem aadur er sagdt: Leid nu af Veturinn. Enn er faar Nætur voru til Sumars, mællti Bune til Friidar: Hvoria Ætlan hefur þu aa ad verda skule mitt Eyrinde? Bid eg ad þu leggir til nockur Ord vid Fødur þinn. Friidur segir: Kemur þier þad ecki i Hug ad þu munet svo verid hafa hier i Vetur, ad ei munet þu eiga þeirrar Lijnkindar Von ad koma i Mann-Heima? Og er þier þad i Heimugleika ad segia, ad eg er med Barne þijnu. Bune qvadst ei vilia mæla þar i moot; Enn þo vænter mig, ad nockud mnni þier vel til mijn fara. Friidur mællti: Illt mun mier þykia þad ad sia, ad þu siert hier inne drepinn, þo þu værer þess verdur, mun eg nu helldur gaanga fyri Fødur minn, og vita hvad eg fæ komid þijnu Maale. Epter þetta geck Friidur fyri Fødur sinn, og settist i Kne honum, breiddi baadar Hendur umm hanns Haals, og mællti: Hvornin ætlar þu Fader ad skilia vid Buna, er Gestur þinn hefur verid i Vetur? Er þad Høfdinglegt ad gøra vel til hus, þar hann hefur þig heim sookt? Dofri svarar: Hvoria Velvilld villtu ad eg sijne honum? Friidur mællti: Gef honum aagætar Geafir, svo hann hroosi þeim er hann kemur i Mann-Heima. Dofri mællti: Hvad skal eg tiltaka honum ad gefa? Friidur mællti: Gef honum Tafl, þad er Haralldur Kongur hefur opt epter sendt, og goodann Gullhrijng, mæ hann þa Fridkaupa sig vid Kong med Taflenu, þvi hann er ordinn fyri hanns Reide, enn Hrijngenn skal hann eiga epter til Menia. Dofri mællti: Raada skalltu þessu Dootter, segir hann, þvi eg mæ þier ei synia. Þa gørir þu vel Fader, sem Von var, segir hun: Geck hun þa brott til Sætis sijns; Og lidu svo þesser Dagar til Sumars. Enn Sumar-Dagenn Fyrsta mællti Friidur til Bwa: Nu skulum vid snæda hier i Stofu minne, sijdann tak þu Klædi þijn og Vopn, og laat þad til Reidu, þvi skamma Dvøl munntu hier eiga, fræ þvi þid Fader minn skilied. Epter þad geingu þau aa Fund Dofra Kongs, og var hann þa kominn under Bord: Dofri heilsade þeim, og bad þau sitia ad Dryckiu, og svo gørdu þau. Þa mællti

Dofri: Þu Bwi hefur hier vel verid i Vetur ad vorre Vitund; Og til Marks þar um, vilium vier þad vitnisi med sønum Jardteikuum ad þu hefur oss heim sookt, er hier eitt Tafl er eg vil gefa þier, og þennan einn Grip veit eg svo, ad Haralldr Konge Fooftra minum leikur mestur Hugur a; Gullhrijng þennan skalltu og af mier þyggia. Packade Bwi þa Dofra med mørgum føgrum Ordum sin Velgiørning, og þa miklu Sæmd er han geordi til hans: Siidan qvaddi han Dofra Kong, og bad han sitia Konga heilastan. Eptir þad took Frijdur Ordlof til Handa Bwa, og sneru þau þa brott: Enn er þau komu til Hellis-Dyra, laukst upp Hellirinn, og geck Frijdur þa wt, mællti hun þa til Bwa: Nu er svo komid sem eg sagda þier, ad eg geing med Barne þijnu, og skal eg nu segia þier, hvør Skipan a skal vera: Ef þad er Meybarn, þa skal þad hier vera med mier; Enn ef þad er Sveinn, mun eg þier senda þa han er 12. Vetra gamall, og skalltu þa vel vid hønum taka; Enn ef ei georer þu þad, muntu a þijnum Hlut kenna. Hvørge mun eg nu leingra fylgia þier, segir hun, og fardu nu vel, mællti Frijdur: Og eptir þetta skilia þau.

## XV. Cap.

Siidan eptir Skilnad þeirra, geingur Buui Leidar sinnar, og lettir ei firr, enn han kemur til Rauds, took han vel vid hønum, og spyr ad Ferdum hans, enn Buui sagdi af hid sanna: Þa mællti Raudur: Mikla Giæfu hefur þu borid til um þijna Før, enn svo muntu nu meiga vid bwast, ad ei mun Haralldur Kongur þessu Einu vid þig hlijta, þvi nu mun han etia a þig þvi Trølli, er eg veit mest i Norveg, enn þad er Blaa-Madur, sa er mørgum Mønnum hefur ad Bana ordid: Nu vil eg gefa þier Fanga-Stack han, er þu skallt þa hafa, vænti eg þu munir þa ei all-mikid kenna, hvar sem han leggur ad Krumur sinar, þviad han brijtur Bein i flestum, ef han deydir ei: Bwi packadi Raud sinn Velgeorning, dvald ist han þar nockrar Nætur, foor siidan ofan i Prandheim, spyr

spyr hañ þa til Kongs, ad hañ var ad Steinkiernm. Seiñ Buui þar kom, geck hañ á Kongs-Fund, og kvaddi hañ, Kongur leit vid hönum, og mællti: Ertu þar Buui? Hvörsu took Dofri þier? Jaa Herra segir Buui: Hier em eg, og ydar naut eg ad þvi, þad vel foor Dofra til mijn, Kongur spyr: Varstu med Dofra i Vetur, edur feckstu Tafliđ? Jaa Herra segir Buui, feck eg Tafled: Kongur mællti: Kom til mijn á Morgun med þad: Buui qvad svo vera skylldu. Uñ Dagiñ eptir, kom Buui til Kongs, er hañ sat yfir Dryckiu-Bordum, og færdi hönum Tafled: Og er Kongur saa þad, mællti hañ: Pu ert mikill Madur fyri þier Bwi segir Kongur; Hefur þu saman Jardteiknir, ad þu hefur Dofra fundid? Petta Tafl hefur hañ allrei fyri mier lausi viliad laata: Eñ svo gilldur sem þu ert, þa verdum vier ad siaa nockud af þijnu Afli, og skalltu faasi vid Blaamañ vorn, er Bölverkur heitir, Buui segir: Pad hugda eg, ad þier mundud laata mig fara i Fridi, Kongur mællti: Petta er lijtils verdt, ad taka Eitt Faang. Buui svarar: MJrt Er DROTTins ORDid, og vil eg þad nu skilia til vid ydur Herra, ef svo Olijklega fer, ad eg beri af hönum, ad þier gefid mier upp Reidi ydar, og gott Ordlof til Islands, Kongur jaatadi þvi. Eptir þad lagdi Kongur Fresl, nær þetta Faang tækist, þvi hañ villdi ad sem flestir sægi. Eñ er su Stund var lidiñ, þa let Kongur blaasa öllu Foolki ut á vijdañ Voll, sem Kongur og mikid Fiölmeñi var þar komid, þa bioost Buui til Faangs, hañ foor i Skirtu sijna, er Esia hafdi gefid hönum, er firr gaatum vier. Sijdañ steipti hañ yfir sig Faanga-Stacki, er Raud ur gaf hönum, og foor þa til Leitmootsins. Kongur liet þa framleida Blaa-Mañiñ, og helldu hönum Fioorir Meñ, hañ greniadi fast og let Trollslega. Svo var haatt ad, ad þar var slettur Vollur, eñ uñ utañ Hadir miklar: Sat þar á Foolkid Uñhverfis: á Vellinum stood Eitt Hella mikil og upp-þuñ, eñ þick nidur i Volliñ, þad kolludu þeir Faanga-Hellu. Buui geck þa fyri Kong, og mællti: Hvar er saa Madur Herra, er þier ætlid mier Faang vid?

Kongur

Kongur mællti: Sicu hvar þeir hallda þonum fram œ Vellinum, Buui mællti: Ei sijnist mier hañ Madur, Trœlli sijnist mier þad lijkara, Kongur mællti: Vier skulum freista þijn skama Stund, ef vier sicuum ad þu hefur ecki vid, Buui mællti: Pier munud Rœda vilia. Eptir þad geck Buui fram œ Völlin, og er Foolkid sœ hañ, þa mælltu margir, ad þad væri illa, ad Trolli skylldi etia œ jafnDreingilegañ Mañ: Þeir lietu þa lausañ Blœ-Mañiñ, hlioop hañ þa greniandi ad Buua, og er þeir mættust, tookust þeir œ æfar fast, og sviptast helldur sterklega, skilldi Buui þad skiott, ad hañ var mœg Aflvaua fyri þessu Kvikindi, fordadi hañ sier þa vid Follum, stood þo fast, eñ foor undañ vijda uñ Vollin: Skilur nu Buui, ad Bein hañs mundu brotnad hafa, ef ei hlijfdu þonum Klœdin, þad skildi Buui, ad Blœ-Madurin villdi fœra hañ ad Hellūni, eñ er þeir þöfdu adgeingist uñ Stund, þa mæddist Blœ-Madurin œkaflega, og took ad lœta i þonum, svo sem þa lætur i ödrum Golltum, er þeir gœngast ad, og œ þañ Hœtt fellldi hañ Frodu, og er Buui sañ þad, let hañ þörfast undañ ad Hellūni, Biœ-Madurin herti þa ad ad niju, og voru Ofurleg hañs Læti ad heyra, þvi hañ var driugum sprungin af Sookn: Eñ er Buui kom ad Hellūni, svo hañ kendi heñar med Hælunum, þa herti Blœ-Madurin ad slijkt er hañ mœtti, Buui brœ þa vid, er minst var Von, og hlioop öfugur yfir Helluna, eñ Blœ-Mañinum urdu lausar Hendurnar, og skruppu af Fœnga-Stackinum. Buui kipti þa ad sier Blœ-Mañinum, slijkt er hañ mœtti, hrasadi hañ þa ad Hellūni, svo ad Brijngspalir hañs tooku þar sem hvassast var, þa hliop Buui ofañ œ hañ med öllu Afli, geingu þa i sundur Brijngspalir Blœ-Mañsins, og þar næst var hañ daudur,. Margir tölndu uñ, ad þetta væri mikid Þrekvirki. Buui geck fyri Kong, þa mællti Kongur: Mikill Madur ertu fyri þier Buui, mun nu skilia med ockur, og far nu til Ætt-Jardar þiñar i Fridi fyrir oss: Buui þackadi Kongi. Foor Buui þa til Hafs ut, og feck sier Far til Islands.

XVI.

## XVI. Cap.

Ad Sumar er Bwi foor utañ, geck Oluf hin Væna med Barni, fæddi hun uñ Haust-id Mey, er hun kiendi Buna, og var kølllud Puriid-ur, Esia baud Meyññi til Foosturs til sijn, og bad þaan þau Kolli. Eñ þad Sumar er Buui var i Prœnd-heimi, foor til Islands Helgi og Bakur, sogdu þeir ut þau Tijdindi, ad Buui væri laatiñ, og Haralldur Kongur hef-di sendt hañ Forsending þa, er eingiñ hefdi aptur komid, eñ er þad spurdist, foor Kolvidur til Kollafiardar, og took þad-añ a brott Olufu hina Væuu nauduga, ad Ovilia Fødur heñar. Kolvidur foor þa med Olufu ut til Vatns, var hun þar Sumar og Vetur: Eñ uñ Sumarid eptir, kom Skip a Eyrarbacka, i Høfn þa er Einars-Høfn heitir: Spurdist þad braatt, ad þar var a Buui Andriidsson, og þegar þetta friettist Vestur yfir Heidar, helldt Kolvidr til Mosfnum uñ Ferdir Bwa, og spurdi þær er hañ kom i Øl-ves: Pa Reid Kolvidur heimañ upp til Ørnaskards (*) med Toolfta Mañ, þar vay og i Før Grijmur Frændi ha-ñs, og Tiju Meñ adrir: Peir saatu þar fyri Buua. I þvi Vili Reid Buui ofañ ur Skardinu, og sa Meñina Vopnada, hañ hyxar hvørier vera mundu, Buui hafdi øll good Vopu, hañ var i Skirtu siñi Esiu-Naut. Buui reid til Steins eins mikils, er stood undir Skardinu, og stie þar af Hesti sijnum, þeir hlupu þa þaangad til. Bwi haf-di hast lijtid Snar-Spioot i Hendi, fleygdi hañ þvi til þeirra, og kom a Skiølld Grijms nedañ verdañ, og brast ut ur Skylldinum, hlioop þa Spiootid i Knie Grijmi, edur fyri ofañ nockud, og var Grijmur þegar Ovijgur. Bwi sneri þa Baki ad Steininum, þvi hañ er svo mikill sem Hamar, mælti þar ad eins framañ ad hønum gaanga, Kolvidur mællti þa: Vel er þad Bwi, ad vid høfum hier mættst, muñ nu ei hlijfa Heillir Trøllsins Esiu sem næst, Bwi segir: Ei kañ eg ad kasta Løstun a þad, hafa þeir ein-

ir ordid

(*) Hellis-Skard.

ir ordid Fundir ockar, er þu munt svo lijtid hafa i uñid, og vænti eg svo muni eñ verda: Er þad nu Dreings-Verk, ad Eiñ-gaangi ad Einum, Kolvidur mællti: Peß skulum vier nu niota, ad vier erum fleyri, Bwi mællti: Pa skal-vel vid þvi taka: Veittu þeir hønum þa hai da Adsookn, eñ hñ vardist Priisdilega. Kolvidur eggiadi sijna Meñ, eñ hlijfdist sialfur vid, þviad hañ ætladi sier Afburd, eñ þeim vard Bwi Torsooktur: Þviad þo þeir kiæmi Høggum ednr Løg um a hañ, þa vard hañ ecki saar, þar er Skirtañ took, eñ hvar sem hañ kom Høggum a þa, þurfti ei uñ ad binda: Var þa svo komid, ad Sex Meñ voru fallnir af Kolvid, eñ hinir allir saarir: Bwi var saar a Fæti, Kolvidur mællti þa: Mikid Troll ertu Bwi, er þu verst svo leingi jafnmørgum Møñum, Bwi mællti: Þu hefur i Leykandi eñ nu hast, og er þad Klækilegt, ad þora ei ad sækia ad mier: Kolvidur mællti: Pad mundi eg vilia, ad ei ættir þu þad ad segia, ad eg hlijfdist vid þig adur eñ lijkur. Hliop Kolvidur þa ad Bwa med brugdid Sverd, og hioo hvørt Høgg ad ødru, eñ Bwi hlijfdi sier med Skylldinum, Kolvidur hioo hart og Tijdum, og sookti All-Dreingilega: Hiooft þa allur Skiolldur Bwa, eñ er Kolvidi rienadi hin mesta Adsookn, og hañ mæddist, þa herti Bwi ad hønum, og geck þa fraũ fra Steininum, hioo hañ þa ecki mørg Høgg, adur hañ Onittti Skiølld Kolvidar. Sijdañ veitti hañ Kolvid þad Slag, ad hañ toot sundur i Midiu, Bwi var þa og nockud saar, bædi a Høndum og Footum, þar sem ei hafdi Skirtañ hlijft, eñ aafaslega var hañ Vijgmoodur. Bwi geck þa þangad til sem Grijmur var Son ur Korpulfs, og spyr hvørt hañ villdi Grid hafa? Eñ hañ qvadst þad vilia: Pa skalltu þad sveria segir Bwi, ad vera mier Trwr hiedañ af, Grijmur qvad svo vera skylldu. Førunautar Kolvidar tooku þar Grid af Bwa, og bad hañ þa taka Lijk Kolvidar, og sia vel fyri þvi. Toot Bwi þa Hest siñ, og Reid allt þar til, er hañ kom til Ellida-Vatns, þa var Oluf uti, og heilsadi Bwa, hañ bad hana taka Klædi sijn, og fara med sier, og svo giørdi hun. Reid hun nu

med

med Bwa allt til Kollafiardar: Eñ er hañ kom þar, var Kolli uti og fagnadi vel Bwa, baud hañ hønum þar ad vera, eñ Bwi qvadst mundi eiga þar Døl nockra vid Laugina og binda Saar siin: Var nu svo geørdt, þa mælti Bwi til Kolla: Nu er svo koomid, sem þier er kuñugt segir hañ, uñ Skipti ockar Olufar, og hefi eg nu launad Kolvidi siina Diørfung, skal Oluf Dootter þijn nu hiaa þier vera, þar til heñi bijdst Forlag, þvi eg vil nu ei elska hana, siidañ Kolvidur hefur spillt heñi. Vard nu svo ad vera sem Bwe villde.

## XVII. Cap.

Epter þetta reid Bwe til Esiubergs, og var Esia Foostra hañs þa eñ aa Lijfi, vard hun hønum alls-Hugar feigiñ, og siidañ foor Bwe i Brautarholtt ad fiña Moodur siina, var hun þa eñ hraust Kona; Þar dvaldist Bwe uñ Hrijd. Bioo Þorgrijmur þa eñ ad Hofi, og var gamall miøg; Hañ ætti Doottur eina Barna er Helga het, hun var ung, og hin skoruglegasta Kona. Arngrijmur Brooder hañs var þa og andadur; Eñ þeir Brædur høfdu skipt Arfi med sier: Hafdi Helgi Land i Saurbæ, eñ Vakur geordist Kaupmadur, og þookti vera hiñ Vaskaste. Eñ er svo var komid, vøldust til vitrer Meñ og Goodgiarner, ad bera Sattmaal millum þeirra Bwa og Þorgrijms: Og hvørsu margt edur faatt sem hier var uñtalad, foor þad fraam, ad þeir festu øll þesse Maal Bwe og Þorgrijmur, under Doom hiñg betstu Maña. Þessum Maalum var uñ Vorid upplokid aa Vor-Þijnge: Og høfdu þeir þad Upphaf ad Sættiñe, ad Bwe skyllde faa Helgu Þorgrijmsdoottur; Eñ Fee-Geolld þau sem dæmdust aa Bwa, skylldu verda Heimañ-Fylgia Helgu: Søgdu þeir þad sem var, ad þau Bwe ætti hvørn Pening epter Andlaat Þorgrijms; Skyllde og Helgi Arngrijmsson faa Olufar Kolladoottur. Epter þetta veittu hvørier ødrum Trygder, og var nu bwist vid mikille Veitslu ad Hofi, þvi þar skylldu halldast bædi Brullupiñ;

Tookust

Tookust nu þesse Raad um Sumarid hvortveggiu. Og litlu-siidar andadisi Esia, og gaf hun ædur allt Fee sitt Bwa, og Purijde Doottur hañs: Took Bwe þa vid Bw-Stad ad Esiuberai, og geordisi þar Rausn mikil. Eñ epter Brullupiñ um Sumarid, foor Helga til Esiubergs med Bwa, og var þad bræatt audsætt, ad hun var hiñ mesti Skorungur: Tookst nu Vinætta med Mægdum millum þeirra Þorgrijms og Bwa, og helldt Þorgrijmur nu ollu Bwa til Sæmdar, og var þaangad skotid ollum Maalum: Færde Bwe sier þetta allvel i Nyt, og vard hañ hiñ Vinsælasti Madur. Þeim Bwa og Helgu vard Barna audid: Attu þau hañ Son er Jngoolfur het, og Añañ er Þorsteiñ het; Doottur ætti þau þa er Hallbera het. Añad Sumar eptir took Þorgrijmur Soott og andadist, var hañ wtleiddur ad þeim Sid er þa var, og druckid Erfi epter hañ. J hañ Tijma let Vakur af Forum, og took hañ vid Lande i Saurbæ, eñ Helgi took þa Hofs-Land ad Bwa: Siidañ took Bwe vid Mana-Forræde, allt wt ad Nija-Hraune, og iñ til Botns-Aar, bioo Bwe ad Esiubergi 12. Vetur, og ætti mikid Rausnar-Bw: Og a þeirri Stundu feck Vakur Purijdar Doottur þeirra Bwa, og Olufar Kolladoottur.

## XVIII. Cap.

Eptir þetta, sem nu var fræasagt, kom Skip af Hafi a Gaasum i Eyafirdi, þar voru a Prændskir Meñ: A þvi Skipi var og sa Madur er Jokull hiet, ungur og stoor Prislegur: Eñ er Jokull kom a Land, keypti hañ sier Hesta og Foruneyte: Reid siidañ Sudur um Land, og er ei af hañs Ferdum sagt, firr eñ hañ kom Eiñ Aptan Dags til Esiubergs, let hañ þa lijtid yfir sier, og voru þeir þar um Noottina, þviad þar var ollum Moñum Matur til Reidu. Um Morguniñ eptir, geck Jokull til Tals vid Bwa, og mællti: Svo er Maal med Vexti, ad eg a vid þig Eyrindi, Bwi spurdi hvorniñ þad var? Jokull mællti: Pad er mier sagt,

ad

ad þu siert Fadir miñ, eñ Moodir mijn er Frijdur Doottur Dofra Kongs: Olijkleg Søgn er þad segir Bwi, ad þu siert miñ Son, þvi þess þækti mier Von segir hañ, ad sa mundi gilldur Madur verda, er undañ ockur ælist, eñ mier sijnist þu helldur auduirdiligur, Jøkull mællti: Eg hefi eñ ecki marga Vetr a Baki, og bad Moodr mijn þad segia þier til Jardteikna, ad hun qvadsi þad sagt hafa þier, ad aa þijnum Hlut mundir þu kieña, ef ei tækir þu vel vid miñi Frændsemi, Bwi mællti: Ei hirdi eg um Søgur þijnar, og þiki mier þær Omerkelegar, vil eg ad vid tøkum Faang, og ertu ei þa ockar Son, ef eingiñ Maattur er i þier, Jøkull mællti: Faaheyrdt er þad, ad eg Toolf Vetra gamall, skuli reina Faang vid þig, þar sem þu deyddir Blaa-Mañ Haraldds Kongs i Faang-Brøgdum þijnum, eñ þo muntu nu raada verda. Geingu þeir þa Austur undir Fialtid til Laugar, þvi þar voru Vellir sliettir: Sijdañ klædduſt þeir til Faangs, og tookuſt aa all-sterklega, geck þad svo leingi, ad hvørugur fell, vard Bwi þa moodur miøg, Jøkull mællti: Preitum ei þetta framar, og tak vid Frændsemi miñi, ney qvad Bwi, falla skal añar hvør ockar aadur, ei mun þa betur verda segir Jøkull: Eptir þad Rieduſt þeir aa i Aña, Siñ, voru þa Sviptingar miklar, var þa vid sialft bwidd ad Jøkull mundi falla, eñ i þvi var sem kipt vær i baadum Footum señ undañ Buña, svo hañ fell aafram, vard þa vid Brestur haar og mikill, Buni mællti: Fleiri munu nu tilhlutaſt, og maatti Moodur þijn ei Hlutlausi laata vera, þa hlupu ad adrir Meñ, og siaa þar Vegs-Uñmerki, ad Brijngspaliñar voru i sundur aa Buna, og hafdi ordid undir Steiñ, þa mællti Buui til Jøkuls: Ecki hefur nu ordid Erindi þitt hijngad Hagfelldt, þviad þu hefdir verid gott Mañs-Efni, ef ei hefdi þig hendt Slis þetta, eñ nu mun skøm Saga fraa mier gaanga hier eptir. Var nu Buui boriñ heim aa Raudum Skilldi, lifdi Priaar Nætur, og Audadist sijdañ: Eñ Helga Þorgrijmsdottir Kona Buna, bioo samt ad Esinbergi med Børnum þeirra. Stood þa eñ ad Esinbergi Kyrkia su, er Ørligur hafdi giøra laatid, og

gaf þa eingiñ Madur Gaum ad heñi. Eñ med þvi ad Bwi var skijrdur Madur, eñ blootade allrei, þa let Helga hañ nidur-setia under Kyrkiu-Vegg hinnm Sidara, og leggia ecki Femætt hiaa hønum, nema Vopn hañs.

Sama Jaarn-Klucka hieck þa yfer Kyrkiuñe ad Esiu-Bergi, i Tijd Arna Biskups Porlaakssonar; og Richnlausar Petursſonar, er bioo ad Hofi; Var hun þa miøg slitiñ af Ride. Arne Biskup let og þañ sama Plenarium fara Sudur i Schaalhollt, og let binda og lijma øll Blødiñ i Kiøliñ: Og er Jrskt Letur aa. Fraa Bwa Andrijdsſyne er komiñ mikil Ætt hier aa Lande:

Og endast hier nu Kialnesinga Saga,
Edur af Bwa-Andrijds-Syne.

Hier

# Hier Byriast Lijf-Saga Hiñs Kynduga Krooka Refs, Hvør ed Iñehelldur alla Hañs Frægd og Mañlega Geørninga: Hagleik, Vitsku, og Hroodrar Smijde.

Samañsett af Froodum Fræde-Mønum.

## I. Cap.

ADDGum Haakonar Kongs Adalsteins Foostra, Bioo mt aa Islande i Breidafyrde aa Bæ þeim er Kveñabrecka heiter, Madur saa er Steiñ het; Kona hañs het Þorgerdur, hun var Oddleyfs-Dootter, Syster Gests aa Bardastrønd. Steiñ var audugur Madur, og vel metiñ, eñ þo alldradur. Syn aattu þau sier er Refur het, hañ var Stoormeñi, og værn ad Yferlitum, med litlu Meñingar Moote: Hañ sat i Ellda-Skaala, og var miøg Udæll, hvar fyri hañ var Elldseti i Æsku kalladur: Var þad Almeñilegur Bygdar-Roomur, ad Refur munde Fijfl vera, þar hañ ecki neitt fyri sig lagde, añad eñ aafram rooa, og vefiast fyri Footum þeirra, er þar um̃ geingu: Stoor Raun var þeim Hioo-

num, Steine og Þorgerdi ad þessu, þar Sonur þeirra Refur villde øngra goodra Maña Sidu nema.

Madur er nefndur Þorbiorn, Audugur og Odæll, Vijga-Madur mikill, og hiñ mesti Hœvada og U-jafnadar Madur: Hañ hafdi bwid i øllum Lands-Fioordungum. Høfdingiar og øll Alþijdañ høfdu þeñañ Mañ a Brott geørvañ, hvør wr siinum Lans Fioordunge, fyri Saker U-jafnadar og Vijga-Ferla: Eingañ Mañ hafdi hañ Feebæitañ. Rañveig het Kona hañs, hun var Heimsk og Hardrœd. Og var kallad, ad Þorbiorn hefdi nñid nockrum U-Høppum færra, ef hun hefdi hañ ei fram-æsiañ. Þorbiørn þesse hafde nu keypt Land, þad er ad Saudafelli heitir. Margir Meñ kvidu miøg vid Komu hañs, þeir ed høfdu spurt til Þorbiarnar. Skamt var a millum Bœa þeirra Steins og Þorbiarnar, og fell þar Aa ein a millum, sw er skilde Lønd þeirra. Eñ er Þorbiørn hafdi bwid þar uñ Stund, þa took Fenadur hañs ad leggiast i Land Steins, þvi hañ atti margt gaangandi Fee.

Eitthvørt Siñ kom Steiñ ad Mœli vid Þorbiorn Bwa siñ, og mællti: Þañiñ er farid; Þu hefur bwid i Grend vid mig i 2. Vetur, og hefur verid ætijd ockar a mille helldur vel eñ illa: Af ødrum hefur þu halldiñ verid U-vinsæll Madur, þar þu bwid hefur, eñ eg hefi einga Raun af þier hast, nie þiñe Eign allt hijngad til, eñ nu leggst Fee þitt i Eingiar mijnar, og bijtur þær: Nu vil eg þu laater skipast vid mijna Umrœdu, og lœter betur geima Fear þijns, eñ hier til hefur verid; Kañ og vera, þar sem eg er eingiñ Stroks-Madur, ad til verdi einhvør ad trwa mijnum Ordum, þeir ed þig deila Mœlum, og ma eg þa slijkt frañ bera, ad ei hafir þu siint mier Ojøfnud, edur mitt med Raungu a-gyrnst. Þorbiorn qvad hañ eingañ verid hafa, ad jafn-hoogværlega hefdi vid hañ uñ-mællt, þad Aboota þætti umvandt, og hañ munde færri siosku Vijg uñid hafa: Skal og ad Vijsu batna vid þijnar Umrædur. Epter þad skiliast þeir: Lætur Þorbiorn so vel skipast vid Umrœdu Steins, ad Fee hañs geørir høgum allrei Mein.

II. Cap.

## II. Cap.

NU lijda svo Stundir, þar til ad Steiñ tekur Sootť, hañ lijsir þvi yfir, ad hañ muni ei fleiri Soottir taka, og qvad sier þessa Einhlijta til Bana. Hañ mællti þa vid Konu sijna Þorgerdi: Þad villda eg, ad þu helldir Land þitt eptir Dauda miñ, og færir Vestur aa Bardaströnd til Gesis Broodur þijns, segir mier so Hugur uṁ, ad þier muni ei roott i Bigdiñi vid Þorbiorn, þo vel hafi fallid aa med ockur, varir mig, ad hønum muni nu þikia Odælla Land þitt til Beitingar, eñ þa er eg var vid, eptir þad Andadist Steiñ. Nu lijda Stundir, og neñir Þorgerdur ei ad looga Landi sijnu, þvi heñi sijndist þad fagurt, og ad flestu gott: Og er ei lidu laangar Stundir, vesnadi Feaar-Geimsla Þorbiarnar, Fee geingur i Einginn Þorgerdar Noott og Dag, og svo giördist af þessu mikill Gaangur, ad þad bijtur upp alla Tödnna, og var Tvo Vetur, ad af Bw-Feenu vard ad looga fyri Heyaleysi. Þorgerdur Rædi opt uṁ þad vid Þorbiorn, ad hañ skylldi laata vardveita betur, og stodar þad ecki. Nu leytasi hun vid, ef nockur vill Land heñar kaupa, eñ eingiñ qvadst fws, ad sitia svo nærri Þorbyrni, vard þvi Landid ecki selldt. Þess er vid getid, ad saa Madr var þar i Heradi er Bardi het, Maña miñstur, hañ var kalladur Bardi hiñ Litli, allra Maña var hañ Fraaastur, og ei hlioop hañ miña, eñ Hestur betsti: Hañ var Skign og glögg-þeckiñ, hañ hafdi Feaar-Geymslu aa Sumrum: Hañ var Triggur og Trwr uṁ alla Hluti. Þeñañ Mañ sañ Þorgerdur aa Vor-Þijngi, og spyr, ef hañ vill Raadast til heñar, Feaar ad giæta? liest hønum mundi Kaup saa, sem hønum hugnadist: Hun lijsti þvi og fyri hønum, ad ei mundi miña ad geyma Feaar Þorbiarnar vid Misgaungum: Sagdi hun hønum nu Liwst og Leidt hvad þar var til Vandræda. Bardi segir: Ei munda eg kioosa mig helldur Añarstadar, eñ med þier ad vera, þañiñ sem þu segir þar fraa, og vex mier þad ecki i Augu, ad veria Land þitt vid

Beyt añara Maña. Fer nu Bardi heim med Þorgerdi, og tekur til Fear-Geymslu: Hañ giørir sier Skala Tvo, Añañ vid Fiall, eñ Añañ a Fitium Ar þeirrar, er fellur a millum Hwsa, hañ hefur þar Einatt Bool uñ Nætur, og varnar svo Fee Þorbiarnar Land Þorgerdar, ad þad kemur allrei yfir Ana, og Nitiast nu Fee Þorgerdar vel, og betur mikln, eñ hin firri Sumuriñ. Rañveigu Hwsfreyin þokti Sumar-Fanng lijtil hia sier. Nu talar hun eiñ Dag vid Þorbiorn, og spyr hvørt Feenu sie halldid? Eñ hañ qvad Feed ganga uñ Daga med Añi. Hvørt gegnir þad nockru segir hun, ad Madur sie sa med Þorgerdi, er Fee voru bañi þañ Haga, er þad hefur hast þesse Sumur? Eru þier þa mislagdar Hendur i Knie Þorbiorn, er þu hefur hlaupid i Høfud þeim Moñum, er Saklausir hafa med øllu verid, eñ þu lætur þeñañ Pilltung ganga fram i slijkum O-sooma, ad baña Fee vorn Jørd Þorgerdar, sin þad vill hafa. Hvør er sa Madur segir Þorbiorn? Hañ heitir Bardi segir Rañveig: Maña miñstur og Vesallegastur, liggur hañ uti hvøria Nott, og Vardar svo Fee voru ad komast yfir Ana. Eptir þad tekur Þorbiorn Hest siñ, og rijdur yfir Ana, og kemur þar sem Bardi var vid Skala siñ, þa mællti Þorbiorn: Er þad satt, ad þu bañir Fee voru Haga þessa, og ber þad, svo ad þad þorir ecki ad bijta i Raand Añi? Høfum vier ad svo giørdu, eingar Nitiar Fearins, Bardi segir: Ecki er þad lvgid, ad eg læt alldre Fee þitt koma i vora Land Eign, eñ þad er ei satt, ad eg berie Fee þitt, edur Bardi sialfs þijns Land: Ætla eg ydur nu hafa Mun miña Sumar-Føng, eñ hin firri Sumuriñ: Hasi þier nu og betur ad komist, Þorbiorn mællti: Lijklegra þiki mier, ad þu hafir Oheimilara eñ eg, er þu matt kallast Pilltungs og Utilegn-Madur, ef illar verda Heimtur a Haust: Nu vil eg ad þu vid skiliest þetta Verk, ella mun þier ei hlijda: Bardi segir: So hefi eg optast Fiar-Geymslu hast, ad eg hef halldid Vist miñi, og svo mun eñ vera. Þorbiorn høggur þa Barda Bana-Høgg, og dregur hañ svo iñ i Skalañ. Rijdur sijdañ heim, og segir hvad i hafi giødrst. Rañveigu

þookti

þookti þa vel uñ Raadid, og let þegar reka Feed i Land Þorgerdar: Geingur Feed heim i Twnid, brijtur nidur Sætid, og giørir margt Jllt, kemur hun þa ut, og sier Nautiñ standa uñ allañ Gardiñ, þooktist hun þa vita, ad Jllu mundi gegna, og sendir Meñ til ad reka Feed brott, fiña þeir þa Barda veigiñ i Skaalanum, sögdu þeir nu Þorgerdi þesse Tijdindi: Eñ heñi þookti þau ill vera.

## III. Cap.

Þorgerdur geingur nu iñ i Ellda-Skaalañ, og sier þar Ref Son siñ, þa mællti hun: aavallt frijs mier Hugur vid, er eg skal Frænda-Skoñ þijna lijta fyri Augum mier, og hvørsu mikill Ogiæfu-Madur eg var, er eg Ol þiñ Ovita, og væri þar betur Doottir, mætta eg þa gefa hana þeim Mañi, er oss væri nockud Traust ad: Eñ þo Land-Eign vor sie beitt upp, og Taða nidur-brotiñ, edur Meñ drepnir, þa liggur Lidda þijn heima, og lætur sem vier eigum ecki ad aunast. Refur rijs þa upp, og mællti: Mikid er ad heyra Atølur þijnar Moodir, og eru slijkar hinar Fyrstu: Hañ tekur þa ofañ Hogg-Spioot mikid, er Steiñ Fadir hañs hafdi aatt, hañ hafdi verid Vopna-Madur mikill. Refur geingur nu ur Gardi, og ser aa þa Leid, ad hañ skijtur Spiootinu undir sig, og fer þar aa eptir: Hws-Karlar Þorbiarnar eru ad Verki, siaa aa För Refs, keña Mañiñ, og giøra ad hønum Gis mikid. Refur hleypur allt til Bæar Þorbiarnar, og er hañ kemur fyri Bæar-Dyrnar, sier hañ ecki Maña uti: Hañ heyrdi ad Konur voru i Stofu, og toludu uñ, hvørt Þorbiørn mundi vaknadur, þvi hañ hafdi lagst nidur ad sofna. Refur brijtur þa Halañ af Spioot-Skapti sijnn, geingur sijdan iñ Snwduglega, og eptir Skaala-Goolfinu, eñ er Þorbiørn heyrdi til Mañsins, spurdi hañ hvør þar færi? Refur svarar: Eg fer nu hier; þu hvør qvad Þorbiørn? Madur af ødrum Bæ segir Refur: Nafn muntu þo eiga segir Þorbiørn? Ecki rædir uñ þad segir hañ: Eg heiti Refur, og i þvi sneri hañ i Lokreckiu-Goolfid. Þor-

biørn hafdi kastad af sier Klædum, og mællti: All-miøg forlaſt mier nu, ad eg keñi þig ecki, og kom þu heill og sæll Refur miñ: Eñ hvørt er Eyrindi þitt? Refur mællti: Miøg er þad undir þier komid, hvørt þad skal vera, hvørniñ er þeſs segir Þorbiørn? Refur segir: Eg er komiñ ad beydaſt Boota fyri Vijg Barda Hws Karls mijns, mun eg vera ad lijtil þægnr uñ þad, er þier sie minst fyri ad láta, eñ mier Sæmd vid ad taka, er þad mier Sæmd, ad þu virdir þeſs Ord mijn, þar þu hefur O-rijkañ Mañ drepid, ad bæta hañ nockru. Þorbiørn klædiſt nu skiott, og mællti: Vel er slijks leitad, og má verda, ad nockud til verdi, edur hitt ei sijdur, ad eg bæti hvørki þeñañ nie hiñ añañ, Refur mællti: Hitt er þo sæmilegra, ad þu látir fyri verda nockud. Eñ er Þorbiørn var klæddur, þreifar hañ nidur med Reckiu-Stocknum, og tekur þar upp Knijf og Bellti, Einjárnung og Brijne: Þorbiørn took þa Sverdid i Hønd sier, eñ retti ad Ref Knijfiñ og Brijnid, og mællti: OEygañ Skal Deygum Biooda. J þvi lagde Refur Spiootenu á Þorbiørn midiañ, svo hañ fell bandur á Bak aptur, eñ gat ei brugdid Sverdinu, þvi þad var Fridbendt, enda bar og Bráðañ ad. Refur lank þa aptur Hurdiñe, og snijr sijdañ til Uti-Dyra, og i þvi var lokid upp Stofu-Hurdiñe. Mikill Vidar-Køſtur stood fyri Kall-Dyrum af Reka-Triám: Og þad Ráð took Refur upp, ad hañ hlioop i Vidar-Køſtiñ, þvi hañ visse ad Hws-Karlar Þorbiørns voru á Leidiñe, og þegar munde verda vart vid sig, er hañ sære Heimleidis. Konur høfdu heyrt Maña-Máalid, og forvitnuduſt til: Eñ er þær komu i Skáálañ, sáu þær reña Blood eptir Goolfinu, køllndu þær þa á Hwskarla: Og er þeir komu til, sáu þeir Þorbiørn veigiñ, leita þeir nu Refs, og fiña hañ ei, og eingiñ þooktiſt hañ sied hafa heim gáánga. Uñ Kvølldid var hætt Leitiñe, geck Refur þa wr Kieſtinum og heim; Hañ vekur Moodur sijna, og bad hana wt gáánga, og svo gørdi hun. Eñ er þau komu wt, spurde hun hvørt Þorbiørn hefdi nockru bætt fyri Vijg Barda? Þa qvad Refur.

Mier baud mætañ sirar
Mækheids i Dag breidañ,
Trautt var þad tækt i Sætter,
Tijner, Kniif ok Brijne,
Orms-Mærar hef ek Orum
Undanadurs wr Mundum,
Hiarta-Stig a hneige,
Hañ ok Vijgid kañad.

Seig þu Maña heppnastur, segir hun: Tak nu 2. Hesta hier hia Gardi, og haf hijngad til mijn: Var þar Sodull a Odrum, eñ Añar var bwiñ med Töskur, og voru þar i Griper gooder. Refur took þa og good Klædi, og þookti hañ nu hiñ Vijglegasti Madur. Þorgerdur mælir þa: Sa Madur bijr frañ i Dalnum a Vind-Okrum er Grijmur heitir, hañ skal vera Leidtoge þiñ, eñ eg sendi þig Vestur a Bardastrønd til Gesis Broodur mijns, og vil eg ad þu siert þar, til þess sættst er a Vijg þetta. Refur fer nu Leid sijna, og lietter ei fyrr eñ hañ kemur i Haga, feck Refur þar goodar Vidtøkur: Og er þeir Frændur takast Ordum, spyr Gestur ef hañ segdi nockud Tijdinda? Eñ Refur segist ei segia. Veitstu þo nockur, segir Gestur? Refur qvad þad ei orvænt vera: Og segir nu þvilijkt er hañ hafdi uñ ad vera. Gestur qvedst hañ ad Vijsu hallda skylldi, og spurde ef hañ være nockur Iþroottu-Madur? Refur qvad þad fiærri fara. Gestur mællti: Eg sie a þier ad þu ert hiñ mesti Iþroottu-Madr ad nockrum Hlut, og mun eg braatt sia hvad þad er. Dvelst Refur þar uñ Hrijd.

## IV. Cap.

Jtt Siñ kemur Gestur ad Maali vid Ref og mællti: Nu veit eg Iþroott þijna, þu ert Þiood-Smidur ef þu villt, og hef eg athugad, er þu hefur upptekid Reimunar-Kefle, og hvørki

Telgdt þad vindt nie ſkackt, og ecki Oſliett, og hefur þad ſimlegaſt verid, er þu hefur vidleytaſt, vera maa þad ſegir Refur: Þvi eg hefi allrei ſmijdad, Geſtur ſegir: Eg vil nu reyna þad, og vil eg ad þu giørir mier SelaBaat, Refur mællti: Faa mier þa Efni til, og Smijduñar-Tool, þvi þad er margra Maña Hættur, ad þeir keña þvi uñ, ef ei verdur vel, ad latlega ſie til feingid, og vil eg ad eingiñ Madur forvitniſt uñ Smijdarnar, þvi þad er þa mællt, ef vel verdur, ad þar muni nockur til hafa komid, er meir muni kiendt hafa. Geſtur lætur nu bwa Hroof eitt mikid, og draga þaangad Vidu mikla. Knør eiñ hafdi brotid a Fiørum Geſts, og hafdi hañ keypt Skip-Viduna: Þeſſa alla Vidu, let Geſtur færa til Hrofs Refs, og Saum allañ: Geſtur atti Jaarn Oſmijdad, og letſt Refur þad ſkylldu til ſijn taka, qvadſt ſiaalfur vilia Saum ſlaa. Geſtur let færa Smijda-Tool a alla Vegu til Hroſſins, let Geſtur þaangad Aſl og Kol, þa mællti Geſtur: Nu hef ea ſvo alla Hluti laatid bera til Hrofs þijns, ad ecki mun meira þurfa, þo þar væri ſmijdadur Haf-fær Byrdingur, ſaa er a mætti fara til añara Landa, Refur qvad hañ ei meiga meira ad giøra, hvørn Veg ſem til-tækiſt. Nu tekur Refur til Smijdar, hañ rijs upp ſnema, og kemur ſijd heim, og fer þeſſu ſvo fram Þria Maanudi. Þad var eiñ Morgun, ad Geſtur ſendi Trwnadar-Mañ ſiñ til Roofſins, og bad hañ vita, hvad lidi uñ Sela-Baatiñ, qvad þeſs Von, ad hañ mundi giør, þo hañ kyñi all-lijtid ad: Sa ſoor ſem ſendur var, og kom þar ſvo Refur vard ei var vid, og hyggur ad Smijdinu vandlega, fer ſijdan heim aptur, og ſegir Geſti, ad ei mundi opt ſien hafa verid ſlijkur Sela-Baatur, þviad komid mun ecki hafa hijngad til Islands ſtærra Skip. Geſtur bad hañ kirrt vera laata, og ecki til-leggia: Og lidu nu ſvo fram Tveir Maanuder.

Þad bar til eiñ Morgun er Geſtur var a Fætur komiñ, ad hañ ſier ad Refur liggur i Hvijlu ſiñe. Geſtur took þa a honum og mællti: Leingi ſefur þu nu Frænde, Edur er nu giør Sela-Baaturiñ? Kalla maa ad boriñ ſie Borde,

ſegir

segir Refur, og ei maa eg nu adgeøra meira, fyrr eñ þu
ſier. Vid ſkulum þa gaanga til i Dag, ſegir Geſtur, og
ſiaa Smijde þetta. Geſtur geingur nu til Hrysſins vid
faa Meñ, þvi hañ villde ei ad Alþijda viſſe, ef Oſmijdlegt
være: Og er hañ kom þaangad, ſtood þar eiñ Byrdingur
vel Haf-færande. Geſtur hyggur Vandlega ad þeſſu
Smijde, og þyker mikils uñverdt Hagleik þeñañ, er Ref-
ur hafdi ei aadur Skip geørdt, og þackar hañ honum nu
Smijdena; Vil eg þvi launa þier, ſegir hañ, ad eg vil
þetta Skip þier gefa. Refur qvadſt þad giarnañ þyggia
villde. Spyrſt þetta nu vijda, ad Refur Steinsſon haſt
geørdt Byrding Haf-færanda, og þooktu þad vera faahe-
yrd Tijdindi, þvi hañ var kalladur Mañvits lijtill.

Saa Atburdur hafdi ordid, ad med Fødur hañs hafdi
verid aa Viſt Norræñ Madur, og Son hañs, voru jafn-
gamler Auſtmañs-Son og Refur: Auſtmañs-Son hafdi
þar ad Leik, Skip þad ſem geørdt hafdi verid i Norveige,
ſem lijkaſt Haf-færum Byrdinge. Eñ aadur Auſtmañs-
Son fære aa brott, gaf hañ Ref Skip þetta, og þad hafdi
Refur haft til Skemtunar ſier i Ellda-Skaalanum ad ſmij-
da þar epter. Lijdur nu aa Veturiñ, og takaſt upp Leikar.

## V. Cap.

Madur er nefndur Gellir, hañ var
Farmadur mikill, og var añañ Vetur i Norve-
gi, eñ Añañ hier: Haavada-Madur mikill, og
hellt miøg til Gledi. Mooder hañs bioo ſkamt
þadañ, þar ſem het i Hlijd, hun het Sigrijdur, og var
audug miøg: Boondi heñar andadiſt fyrre, og þvi var
Gellir kalladur Sigrijdar Son. Gellir geck miøg ad
Leikum, og var hañ kaaſtur af heim ſem ad voru. Þad
var eiñ Dag, ad Gellir foor til Leiks vid nockra Meñ i Ha-
ga: Gellir ſpurde ef Refur villde fara med hønum? Eñ
Refur qvad ſier ei hendt ad gaanga til Leika, og qvadſt ei
fara munde. Gellir ſpurde ef hañ villde leyſaſt af, og glij-
ma vid hañ? Eñ Refur qvadſt þad ei munde geøra. Gell-
ir hleypur

ir hleypur þa af Baki, rædur a Ref og mællti: Heyr Endime; Þú segist ecki glijma, skalltu nu glijma Naudigur, ef eg vil, þo þu vilier ei. Hañ leitast þa vid a margañ Veg ad fella Ref, og fær ei felldañ hañ: Refur fordast medañ Gellir sæker sem mest. Eñ er Gellir linar Sookniñe, tekur Refur under Brooklinda hañs añari Hendi, eñ Añare milli Herdaña, og skijtur honum a Klakañ skamt fra sier, svo ad nidur-koma a Gellir Olbogaruer, og sprijngur hvortveggi, eñ Eñi hañs blaanar: Spratt Gellir þa skioott upp, tekur Spioot sitt, reidir upp Spioots-Halañ og lyster til Refs, kemur þad a Herdar honum, hrijtur upp vid og kemur i Hofudid, og vard honum ei meint vid þad. Gellir hleypur a brott og Forunautar hañs, og hælast miog uñ: Kallast Gellir lostid hafa Ref Hogg 2. mikil, og reidir þetta vijda, segir hañ Ref þess ei hefna mune: Eñ Refur let sem hañ visse ecki. Gestur hafdi ecki heima verid, er þetta vard Tijdinda. Eptir Jool bræder Refur Skip sitt, og fær til allañ Reida.

Þess er getid ad Gellir atti Heimañfor, og la Leid hañs hia Noosinu: Madur eiñ foor med honum, og lijtur Gellir a Skipid, er iñe var. Eñ er Refur heyrer ad Gellir mun komiñ vera, hleypur hañ undañ Skipenu med Smijdar-Oxe sijna ad Gellir, og mællti: Nu vil eg gialda þier Eitt Hogg fyri Tvo; Hoggid kom a Sijduna, og hlioop Oxiñ a Hol, fell Gellir þa nidur daudur, eñ Forunautur hañs reid a brott. Refur geck heim epter þad, og fundust þeir Gestur. Hañ mællti þa: Giptusamlegur ertu nu Frændi, Edur hvad er Tijdinda? Refur qvad Vijsu.

> Rodiñ var Randar Gidia,
> Raad knwdist þad adañ,
> Fir Sveiger hioo ek frægañ
> Floods i Gellis Bloode.
> Nu tel ek hefndt: Eñ Hrafne

Heitur

Heitur fœngabist Sveiti,
Getid verdur slijks fyri Snotrum
Segaium Hoggs ok Tveggia.

Mœlltu Maña heppnastur segir Gestur, og þad munda eg kiorid hafa, þa er eg heyrdi þad vijdast borid, ad Gellir hefdi lostid þig Tvo Hofud-Hogg, ad slijkt hefdir þu adhafst, edur hvad er nu Rœda þiña? Refur svarar: Eg œtla ad hallda Skipi minu til Grœnlands, Gestur mœlti: Nu qvadstu þad upp er eg villda, þviad þier muu ei vel frijdt i Norvegr, þegar spyrst Vijg þetta: Vil eg nu afla þier Haiseta til Skipsins, og fœ þier Fear-Hlut sem þu villt hafa: Eñ vid Moodur þijn munum sijdañ umskiptast sem ockur lijkar. Refur bijr nu Skip sitt, og veliast til Bœnda-Synir vaskir ad filgia honum, leysir Gestur hañ vel af Hondum, og ad Skilnadi mœlti Gestur vid Ref: Ef þier verdur ei Utkomu audid, þa vil eg þu lœtir skrifa Frœsogu uñ Ferd þijna, þviad hun mun ad nockru merkileg þikia, og þad hygg eg, ad þu siert añar mestur Spekingur i vorri Ætt, mun og nockud Gott af þier verda: Mœli eg nu svo fyri, ad sœ hiñ sami, sem Soolina hefur skapad, esli þig til goodra Hluta: Refur þackar honum vel sijn Til-log, sijdañ skilia þeir.

## VI. Cap.

Eptir þetta lœta þeir Refur i Haf, og ferst þeim vel, allt þar til er þeir sœ Sijn af Grœnlandi, sijdañ velkti þa lœngt, þar til þeir komast undir Landid, og hallda þeir þa Nordr med Landinu, uns þeir koma œ Fiord eiñ Nordarlega i Obigdum, þar sem Joklar gœnga til Sudurs ad Sioo ut, og med þvi þeir voru Haf-villtir, þa voru þeir Land-fusir, og logdust þar uñ Ackeri. Refur reri til Lands, og foor uppœ hid hœrsta Fiall ad siœst uñ, hañ sœ ad Fiordur skarst lœngt iñ i Landid, þar sem þeir voru ad komnir, og Hofdar Tveir geingu œ vijgst i Fiordiñ: Foor hañ þa apt-

ur til Skipsins, og uñ Morguniñ, bad hañ þa flitia iñ Skipid, þangad er Fiordiñ þriti, og svo giørdu þeir: Eñ er þeir koniu ad Høfdanum, saau þeir, ad þar hoofst upp Fiordur mikill og laangur, eñ er þeir komu i Fiardar-Botn iñ, þa var þar good Høfn, og Skoogie varid allt i kriingum i Hliidum, og grænar Breckur. Jøklar gyrdtu þar allt uñ kriing baadumeigiñ, þar var Fiøldi Diira. Reka-Vidur laa þar og uñ allar Fiørur, eñ Veydiskapur noogur, ecki maatti þa til Bigda hallda, giørdu þeir sier þar Skaala mikiñ, og biuggust vel uñ, og voru svo þar uñ Veturiñ. Refur smijdadi þar Ferin mikla, og hielldu þeir heñi þadañ uñ Vorid, eñ biuggu þar uñ Skipid. Siidañ sigldu þeir i Bigding, og komu i eiñ Vijkur-Barm, stannt þar upp fraa stood eiñ Bær, þar bioo saa Madur er Biørñ het, hañ var Kyongadur, og aatti Doottir eina er Helga het, hun var væn Kona, og hookti saa Kostur bestur i þeirri Bigd. Refur selur ei Varning siñ, og tookst aa Hendur Smijd. Biørn hitti Ref og spyr, ef hañ vill kaupast laata ad Hwsa Bæ siñ, og giøra hañ sem Biggeleg, assan? þvi jaatar Refur, og siidañ kaupast þeir þvi vid: Tekur Refur nu ad Hwsa Bæiñ, og giørir þar Skrautlegañ Bæ, saa Bær heitir i Hliid. Ødrumeigiñ Refs þess er þar geck fram, stood Bær saa er Vijk heitir, þar bioo saa Madur er Þorgils het, og kalladur Vijkur-Skalli, hañ var Grænlundadur og Kirusamur, Slægvitur og mikill Udeilldar-Madur: Þookti þvi øllum illt vid hañ ad eiga. Hañ var hnijgiñ aa Efrg-Alldur og Kyongadur, Þeingill het Son hañs hiñ Ellsti, Añar Ormur, Þridie Þorsteiñ, og Fioordi Guñbiørn. Oluf hiet Doottir hañs, hun var gipt þeim Mañi er Guñar het: Þeingill hafdi bedid Helgu, og villdi hun ecki eiga hañ. Refur er nu med Byrni, og Hwsar Bæ hañs, og þa bidur hañ Helgu, eñ Biørn took þvi seint: Ad Raadi med hønum var saa Madur er Þorutoodur het, hañ var Fooftri Helgu, og fijsti miøg ad þesse Raad tækiust, svo ad þad var, ad Ref var heitid Konuñi, og ækvediñ Brullaups-Stefna. Siidañ takast þesse

Naad, med þeim Skilmaala, ad Refur skal taka vid Bwi i Hlijd og Helga, eñ Biorn vill verda Bwlaus Madur, og ꝍ Vist med þeim. Uñ Vorid tekur Refur vid Bwi, og rakar bræatt Fee samañ, hañ smijdadi til Stoor-Fiær, Helga var og Skørungur mikill: Eñ er þau høfdu skaña Stund til samans verid, foor Biorn ad deya. Þvi nærst vard þeim Barna audid, Ref og Helgu, og ꝍttu þau hañ Son er Steiñ het, Tveim Vetrum sijdar, ꝍttu þau Añañ er Biorn het, og voru þeir baadir hinir Efnilegustu Meñ: Refur bioo Atta Vetur ꝍ Grænlandi ad sama Bool-Stad, ꝍ þeim Vetri hafdi hañ Skip i Smijdum, mikla Ferin, eñ Roosid var ut vid Nes, þad er fram geck milli Vijkur og Hlijdar. Refur geck sneña til Smijda, eñ seint fræ, hañ læsti þar i Hroosinu Smijda-Oxi sijna uñ Nætur, eñ geck slippur heim. Þad var eiñ Aptan, er hañ geck heim, so bwiñ sem hañ var vanur, og þa hañ hefur geingid skamt, gat Refur ad lijta fram ꝍ Nesinu, hvar Hvijta-Biorn eiñ skundar siñi Ferd, er hañ sæ Mañiñ; Refur hikisi nu Ovarlega farid hafa: Nijr Snær var ꝍ Iordu, og audsien Spor hvørs Mañs sem rekia skylldi; Sæ Refur ei sijn Efni ꝍ ad gaanga i moot Byrnenum Vopnlaus; Snijr hañ nu aptur til Hroossins, og sæker Oxina, læsir sijdañ aptur Hroosinu, og fer svo þæangad sem Biorniñ hafdi verid, og var hañ þa daudur: Høfdu þeir Brædur Syner Þorgils sigrad Biorniñ, er þeir komu fræ Roodri, og geck Refur þa heim.

## VII. Cap.

Nu er þar til ad taka, er þeir Þorgils-Syner koma heim, ad Fader þeirra spurde hvad þeir hefdu Fiskad? Þeir letust ecki Fiskad hafa: Eñ veidt høfum vier Hvijta-Biorn eiñ. Þorgils mællti: Mikid er uñ Upphelldi yckart er þier veitid oss, og munu fæer svo fyri viña. Þeingill mællti: Bwid var vid ad vier mundum lijted fæ af Veidiskap þessum, ef ei hefdi Refur hiñ Ræge sijndt siñ Dreingskap, og allrei hygg eg ad

Daud-

Dœdlausära Hofud hafi kómid œ Grœnland eñ hañ ber, þviad Mañs-Spor lœgu fra Hroopinu: Hafdi hañ og aptur horfid til Hroossins, og var Hland drifid i Sporunum. Þeingill mællti þa morgum Abiettis-Ordum vid Ref, eñ Þorgils Fader hañs þagde. Þa spurdi Þeingill: Veitstu ecki Fader hvor ad Refur hiñ Ræge er? Þorgils mællti: Uñ slijkt er illt ad tala, og œvallt mætti Grænland randa Kiñ bera, er þad heyrde Refs getid, þviad eg sa þa hañ var hijngad nijkomiñ, ad slijkt munde Grœnlandi verda hin mesta Skøm, þvi hef eg fœtt vid hañ œtt; Og er eg var œ Islandi, var hañ ei i Ædе sem adrer Meñ, helldur var hañ Kona Rijundu-hvoria Noott, og þursti þa Karlmañs vid: Var hañ þvi kalladur Refur hiñ Ræge, og geingu ætijd Søgur fra hañs Fœdœmum Umyndilegar: Nu villda eg þvi, ad hier ættud ecki vid hañ. Skilia þeir so sitt Tal, og er nu farid eptir Biarnar Slœtrinu. Eñ hvar sem þeir Þorgils-Syner koma, þa bera þeir þetta Illmæle: Og kveikia þad i øllu, ad Refur hafi fyri Ræge Saker verid gœr af Islande, og verid brott keyptur med nockru Fee: Þeir færdu þetta Hroop œ Værtu. Og svo fer þetta i Fiølmæle, ad Refur verdur þessa œheyrsla, og ei lætur hañ sem hañ vite: Eñ Skip þad sem hañ hefur i Smijdum, bijr hañ ad øllu sem betst. Hañ lætur slœtra miøg uñ Haustid, og Fee sitt sumt selur hañ fyri Varning. Refur hefur Haustbod mikid, og bydur til sijn Vinum sijnum, eñ i Hlioodi selldi hañ Land sitt vid Lausafee: Hañ skilur þad og til, ad hañ skal þa œ Misserum Landid laust lœta, er hañ gœrer hinum Ord uñ. Hañ hefur med sier margt Mañа, ei færri eñ 12. þvi hañ var Stoorandigur vordiñ: Og þetta var ad Eimmœnude.

## VIII. Cap.

Þad var Eittsiñ ad Þormoodur kom ad Mœle vid Ref, og mællti: So vondañ Ordroom hefur nær øll Alþijda uñ þig, ad Undrum gegnir, og eru ad þvi Upphafs-

Meñ

Men þeir Þorgils-Syner: En þa er eg fuſſa ad Raad tæk-
iſt med yckur Helgu, hugdnſtum vier hana gipta Ongandis
Dreing, og ſvo hygg eg þig vera, en ofmiøg þykir mier þu
ſaña vondra Maña Ord, ef þu lætur þau nũ fyrrt ſitia:
Nu bid eg þig ad þu laater þau keña a ſiaalfum ſier, fyri ſijn
Illmæle. Refur mællti: Adur ſkyllde Madur hafa hur-
ad Raad fyri ſier, eñ hañ ratade i Stoorrædi, edur eggiadi
adra til. Nu ſkilia þeir ſitt Tal, og ſetſt Refur til Smijd-
ar, geører hañ ſier þa eitt Faadæma-mikid Spioot, og
maatti bædi med þvi i ſeñ høggva og leggia: Hañ ſkeptir
þad laungu Skapti, og vefur allt Iaarne; Þvi næſt hvet-
ur hañ þad, ſvo þad ſtood a Kampi.

Þeſſu næſt a lidnum Dege, geingur Refur heim Eiñ-
ſamañ, hañ hefur Spiootid Eitt-Vopna, geingur til Vijk-
ur, og kom þar ſijd Dags. Þorgils var ad Sodningu i
Elld-Hwſi, og ſnijr Refur þaangad, eñ Þorgils-Synir vo-
ru Noonir: Þorgils ſpyr hvør þar væri? Eñ Refur ſegir
til ſijn, þa mællti Þorgils: Miøg leggur nu Reyk i Augu
mier, ad eg þecki þig ei, og kom þu heill og ſæll Refur miñ,
Refur ſegir: Þad vil eg þiggia. Hvad er nu Tijdinda ſegir
Þorgils? Refur ſegir: Eg er komiñ ad bidiaſt Boota fyri
þau Illmæli er hier hafid veitt mier, Þorgils mællti: Ecki
høfum vier illa til þijn talad, edur hvørt Maal keñir þu oſs?
Refur ſegir þa fram Ordiñ, Þorgils mællti: Eigi dyl eg
þig þeſs, ad margt Ræddum vier i Gamni, eñ þo mun þetta
ei logid, þvi eg ætla her hvørt Ord ſatt i vera: Refur
høggur þa til hañs med Spiootinu, og kliſur hañ i Herdar
nidur. Sijdañ kippir hañ brott Spiootinu, geingur þa
ofañ til Strandar, og ſetſt i Nauſt þeirra Brædra Þorgils-
Syna. Nijd-Myrkur giordi a mikid: Þvi næſt heyrir
hañ Ara-Glam, og er þeir Brædur komu ad Landi, hleyp-
ur Þeingill fyri Bord, geingur upp, og vill taka Hluña i
Nauſtinu; eñ er hañ kom þar, hioo Refur Høfudid af
honum. Þorſteiñ hlioop þa utañ-Bords, og veit eigi til
þeſſa, þviad ſvo var Myrkt, ad eigi ſaa til Nauſtſins. Þor-
ſteiñ tekur Arar, og ber upp, eñ er hañ kom ad Nauſt-Dyr-

 unum

nnum, leggur Refur Spiootinu gegnum hañ, Þorsteiñ kallar i þvi, og mællti: Fordid yckur Sveinar, Þeingill Brodir yckar er drepiñ, eñ eg lagdur i giegnum. Ormur greip þa Arar ur ødru Skipi, og hratt ut med Skipinu: Neru þeir þa brott, og þangad a Nesid, er Hroof Ness stood, logdu þeir þar ad Landi, og ætlndu Refur mundi ei þangad koma, ad leyta þeirra: Eñ er þeir høfdu brijnt Skipinu, kom Refur þar, og drap þa bada. Eptir þad kom Refur heim, og hiet a Meñ sijna, ad til Skips skylldi flitia bædi Vistir og Fee. Refur lætur nu verda hladna Ferinna, og stendst þad a Endum, ad þegar lioos Dagur er um Morguniñ, er a Skip komiñ allur Fear. Hluti sa er Refur villdi med sier hafa. Velur hañ þa Geafir þeim Møñum, sem ad eru med hønum, og bad þa til Reidu vera sier ad filgia, nær sem hañ leti vitia þeirra, og þvi jaata þeir giarnañ. Refur sendir þa Ord þeim Møñum, ad þeir tæki Landid er keypt høfdu. Geingur Refur þa a Ferjuna, Kona hañs og Synir: Steiñ var þa Niju Vetra, eñ Biørn Atta, Þormoodur het eñ Pridie, og var sa Prie Vetra; Þormoodur Foostri Helgu, skylldi og med fara. Kom þa Vindur af Landi, og undu þeir Refur Segl upp, letu svo ganga fra Landi uñ Daginñ til Hafs, og eru þan nu fyrst ur Søguñi.

## IX. Cap.

Nu er nu til ad taka, ad Heima-Meñ sirma yfir Þorgilsi, er hañ var veigiñ, og uñ Kvølldid er farid til Strandar, funduſt þeir þar vegnir, Þeingill og Þorsteiñ, eñ hina Tvo fundu þeir vegna uñ Morguniñ. Þesse Tijdindi spurduſt miog vijda, og Harma sauir Þorgils nie Syni hañs, eñ mikid þikir Verkid ordid hafa eins Mañs a einu Kvølldi: Þikir Møñum Ref Nøsklega hefndt hafa þessa Illmælis. Guñar Maagur Þorgils spurdi þesse Tijdindi, og lætur hañ setia Vørdu uñ hvørt Añes, uñ Bigdir badar, ef Refur kiñi nockud ad adbera uñ Haustid, eñ Eigur mætti ei upptaka,

er allar voru selldar. Gunar var fyri Mönum i Vestri Bigd, hvørgi spurdist til Refs. Um Vorid sendir Gunar Men i Vestri Obigdir ad leita Refs, og finst han hvørgi, og einginn Madur spyr til hans. Gunar leggur þa a þad Hug, ad Refur muni tapast hafa, er han hafdi a Skip geingid med Toolf (*) Monum, og þo ollum Okunigum. Nu lijda svo Fiorir Vetur, og spyrst hvørgi til Refs, og legst nu nidur þesse Uppgroptur um Ref: Pikiast Men nu vita, ad han muni tijnst hafa, edur rekid Skip hans til Obigda: Munum vier hier fyrst fra hverfa, en medan svo hefur geingid Uppfædsla Refs, hafa ordid mørg Høfdingia Skipti i Norveige: Var nu kominn til Kongs Haralldur Sigurdar-Son. Med Hird Kongs var sa Madur er Baardur het: han var Kongi Handgeinginn, og var a Sumrum i Kaup-Ferdum til ymsra Landa, Islands edur Vestur-Landa: Og bijr han nu Skip sitt þetta Sumar, er vier segium fra, til Islands. Kongur lætur kalla Baard til syn, og spyr hvørt han ætlar ad hallda Skipi sijnu? Til Islands segir Baardr; og vil eg þu farir ödruvijs segir Kongur: Skalltu nu fara til Grænlands, og flytia Voru, Tonn og Sverd, Baardur segir: Ad Kongur skuli Rada. Eptir þad siglir Baardur i Haf, og tookst honum hid greidasta, kom han til Grænlands, og foor til Vistar med Gunari um Veturinn, og er han hafdi verid um Hrijd, þa talar Baardur til vid Gunar, og spyr hvad satt væri i þvi, er han heyrdi sagt, ad einn Islendskur Madur hefdi veigid Finn Fedga a einu Kvolldi, og hefur svo þess Illmælis, er þeir høfdu kveikt um han? Gunar let hæst til þessa nockud, Baardur spurdi, hvad af þessum Manni mundi ordid? Pad higgium vier segir Gunar: Ad han muni tijnst hafa i Hafinu, þvi han var svo hræddur, ad han let i Haf med Toolf (**) Men, vid Vetur siaalfann. Baardur spyr, hvad til hafi ordid med honum? Gunar segir nu sem han veit. Baardur mællti: All-miog undrar mig, ef sa Madur er sockinn, og hefur þetta verid hans Giæfa, er han komst ur Hondum ydar,



(*) Sex. (**) Sex.

ydar, og þikir mier hun Vonum bråadara hafa skilist vid han̄, edur er leitad i Obigdir? Gun̄ar qvad leitad Allstad ar, þar sem Von være, ad Men̄ mættu vera. Baardur mæ-lti: Hvørsu mætti han̄ fara aa Haf mooti Vetri vid faa Men̄? Ætla eg þier betra þiki slijkt ad segia, fyrst ei verd-ur hefndt Þorgils nie Sona hn̄s: Vil eg nu i Vor suem̄a, ad þu laatir bwa Skip, og førum vier i Obigdir, ætla eg þad vijst, ef eg fin̄ han̄ eigi, ad san̄lega sie han̄ daudur, Gun̄-ar qvad þad skylldi vera. Lijdur nu af Veturin̄, og þegar Jsa leysti, bioo Gun̄ar Ferd sijna; þeir høfdu Feriu mikla, og hallda nu i Obigdir, og leita i hvørn Leyni-Vog, og fin̄a ecki þad, ad þeim þiki sem Man̄a-Vistir hafi verid. Baard-ur var Man̄a skignastur, þeir koma Aptan-Dags aa ein̄ Fiørd mikin̄, og kræfti ymsa Vegu in̄ i Landed, og þar kom ad breidkte Fiørdin̄: Þeir løgdu Skipe sijnu um̄ Noottina i Vijk eina. Baardur rær aa Baate til Lands; Han̄ geck uppaa Høfda þan̄ er þar var vid Fiardar-Myn̄id, og litast um̄, þa var lioos Noott; Vindgol nockud lieck aa utan̄ epter Fyrdenum. Han̄ saa hvar Þaang-Flota rak utan̄epter Fyrdenum, og ad Botninum, þa hvarf han̄ all-ur. Þetta undrar Baard miøg, og geck han̄ allt aa fram-an̄verdan̄ Høfdan̄; Han̄ saa hvar an̄ar Fiørdur hoofst upp, mikill og laangur, og þar saa han̄ Dal mikin̄ gaanga upp ad Fiøllum fagran̄: Han̄ geingur til Skipsins, og leggst nid-ur. Um̄ Morgunin̄ spyr Baardur hvørt þeir hafi kan̄ad allan̄ Fiørdin̄? Gun̄ar qvad þad vera. Baardur qvadst fara villdi, þar til han̄ þryte med øllu: Og svo gøra þeir. Þeir koma nu þar sem Høfdarner skaarust aa Vijxl: Þar skarst Sund aa millum; Þad var all-mioott, en̄ diwpt mi-øg, og laukst upp Fiørdurin̄ i Ødru Sin̄e, og var saa Fiør-dur miøg laangur. Þeir koma þa i eina Vijk sijdla um̄ Kvølldid: Ecki nentu Men̄ þa ad kan̄a Landid, og løgdust nidur aller nema Baardur: Han̄ skaut Baate til Lands, og geck einsamall med Fiørun̄e, og kom þar sem Spoona-Hrwga mikil var: Han̄ tekur af Spoonunum og hefur med sier, foor sijdan̄ aptur til Skips þeirra. En̄ um̄

Morg-

Morguniñ siner Baardur Guñare Spænena, og mællti: Allrei a Æfi miñe saa eg Spoonu jafn-haglega hoggna: Edur var Refur nockud hagur? Guñar segir: Hañ var hiñ mesti Piood-Smidur. Baardur segir: Pad munda eg ætla, ad svo mundum vier eptir Ref eiga ad lijfa, sem hañ være Lijfs. Nu gaanga þeir fraa Skipi nockrer Meñ: Þeir geta ad lijta hvar Birke stood nær' aa framañverdum Siaar-Backanum; Þeir geingu þaangad til, og uñhverfis, hyggia ad þvi vandlega, og þykiast ecki sied hafa jafn-fagurt Smijdi. Pad var mikid og Rambygdt, Obræt, med Fioorum Hornum: Hvørge siaa þeir Rifur nie Fellingar aa Birkinu, var þad ad siaa sem ein Fiøl. Eñ er þeir hugdu þar ad, kemur Madur frañ aa Birkid, saa var mikill Bexti; Hañ heilsar Guñare, og took hañ Qvediu hañs: Keña þeir ad þad var Refur. Hañ spyr hvørt þeir ætlndu ad fara? Guñar segir: Ecki leingra frañ aa Veg. Refur spyr ad Tijdindum? Baardi quadst hønum eingiñ segia munde. Refur sagdist þa ei fregna skylldu, meir eñ fallid þækti. Guñar bad þa draga Bid ad Birkinu: Eñ er umhverfis var komiñ Biduriñ, slaa þeir i Elld, og kindist skiott; Og þvi nærst siaa þeir ad Elldriñ sloknar: Þeir draga þa Bid ad Birkinu ad niju, og sloknar Elldriñ sem Fyrr. Þeir leita nu uñhverfis Birkid, og fiña hvørgi Vatn: Þeir baaru þa Elldiñ uppe ad Birkinu, og kom þar ei sijdur Vatn wt af Fellingum eñ nidre. Refur geck frañ aa Birkid og mællti: Seint sækist Birkid, segir hañ. Baardur mællti: Vel maattu þvi hælast uñ Fiølkijnge þijna, ad vier munum hier fraa hverfa ad Siñe; Eñ eg heiti þier þvi, ef þu þorer ad bijda hier añars Vors, ad vid Guñar skulum yfir þijnum Høfud-Sverdum standa. Refur mællti: Ei þier nie Grænlendingum verdur þess audid ad standa yfir mier daudum, þott eg sie hier adra jafnmarga Vetur, nema þier nivotid ydur añara betri Maña vid. Eptir þad fara þeir Baardur og Guñar til Skips med sijnum Mønum, og hallda til Byg-

da: Koma þeir uñ Haustid i Vestre Bygd, og er Baard-
ur med Guñare Añañ Vetur.

## X. Cap.

UM Sumarid bioo Baardur Skip
sitt til Norvegs, og gefur Guñar hønum Geafir:
Guñar sendi Haralldi Konge 3. Gripe: Þad
var Hvijta-Biørn Fulltijda, og aagiæta vel vau-
iñ; Saa Añar Gripur var Tañ-Tabl, og geørdt med mik-
lum Hagleik; Þridie var Rostungs Haus med øllum Tøñ-
um sijnum, hañ var allur grafiñ, og vijda rendt i Gulle:
Tøñur voru fastar i Hausnum, var þad allt hin mesta Ger-
semi. Baardur lætur nu i Haf, og fer Vestur til Nor-
vegs, kom hañ i þær Hafner er hañ munde kioosa: Hañ
færde Haralldi Kongi Grænlendskañ Varning aagiætañ.
Baardur geck fyri Kong eiñ Dag, og mællti: Hier er eitt
Tabl Herra, er ydur sendi hiñ gøfugaste Madur Guñar aa
Grænlande, og vill ei añad fyri hafa eñ Vinfeingi ydart,
og Viturleg Raad: Var eg med hønum 2. Vetur, og
vard hañ mier goodur Dreingur, vill hañ giarnañ vera
Vinur ydar, þad var bæde Huot-Tabl og Skaak-Tabl.
Kongur leit aa, var hijr, og bad hañ hafa Þøck fyrer, og
mællti: Senda skulum vier vijst Vinaattu vora aa mooti.
Eige leid laangt aadur eñ Baardur let leida iñ i Hollina
Hvijta-Biørn fyri Kong. Hyrdiñe fanst mikid uñ Dijr-
id. Þa mællti Baardur: Herra, segir hañ, þetta Dijr
sende ydur Guñar aa Grænlandi. Kongur mællti: Mi-
kid er uñ Geafir þessa Mañs vid mig; Edur hvad vill hañ
fyri slijkt hafa? Baardur mællti: Audvitad er þad Herra,
Vinfeinge ydart og Viturleg Raad. Þvi mun þad ecki
maklegt, segir Kongur? Og er aa-lijdur Veturiñ, var
þad eiñ Dag ad Baardur bad Kong ad gaanga i Maalstofu
sijna, og svo geørdi hañ. Eñ er þeir komu þar, bar Baar-
dur Hausiñ fyri Kong med øllum sijnum Blooma, og mæl-
ti: Hiñ gøfugasti Madur Guñar aa Grænlande sender
ydur þessar Gersemar. Kongur hyggur ad Hausnum

vand-

vandlega, og letst mikid umfinnast Sendingina, og bad hann vardveita.) Pa mællti Kongur: Seig mier nu Baardur hvad bijr under Sendingum þessum, og veit eg nu ad meira bijr under enn Vinaattu-Maal einsamann? Baard: mællti: Sem eg segi ydur Herra; Hann vill Vinseingi ydart, og viturleg Raad ad vinna einn Ref, þann er þeim Grænlendingum hefur unnid mikinn Skada. Kongur spurdi hvada Refur þad være? Baardur segir: Hann er Madur, og er Islendskur, og hann drap 5. Fedga a einu Kvolldi: Hefur hann sijdann siglt i Obygder vid 6. Menn, og geordt þar Virki wr Stoortriaam: Enn er vier fundum hann, bearum vier Elld ad Virkenu, og hlioop allstadar Vatn wt og slocknadi Ellduriñ; Eigi hlioop sijdur Vatn wr Virkenu Uppe enn Nidre, og þar a milli, enn eigi fundum vier Vatnid. Kongur mællti: Þetta mun Refur vera sem Kaupskiped geordi a Islande, og hafdi allrei adur Kaupskip sied, og a þvi foor hann til Grænlands; Enn er hann hafdi bwid þar nockur Ar, var honum bored Illmæle miked, og hefude hann þess røsklega, svo ad hann einn vo þa 5. Fedga a einu Kvolldi. Baardur segir: Umm Einn munum vid rada bader. Kongur spyr hvørsu þar være Lands-Læge hattad? Enn Baardur segir honum Innelega epter þvi sem hann visse: Og þar med segir Baardur: Svo sagdi Refur ad Skilnadi vorum, ad einginn munde hann þadann geta burt flæmdann. Vera maa þad, segir Kongur: Kann vera ad odruvijs hafi hann umtalad; Enn þad ræd eg þier, ad þu farir ei þanngad aptur, þvi ei kemstu brott þadann, ef þu ser optar. Baardur segir: Eg hefi þvi svo heitid Gunnare, ad þad maa eg ei riwfa. Nu skilia þeir Talid, og lijdur af Veturinn; Enn umm Vorid bijr Baardur Skip sitt, og er þad var bwid, geck hann a Kongs Fund og mællti: Herra, segir hann; Hafi þier huxad nockud umm Naudsyn Gunnars? Huxad hef eg Naudsyn þijna, segir Kongur, ad þu farer ei til Grænlands, þvi Oskylldt er þier ad gremiast þeim Manni, er þu att ecki Illt ad launa, og varer mig ad þier reyni illa af, ef þu ser. Baardur mællti: Ad odru munu þier Sann-

spaaer Herra. Kongur mællti: Hitt ætla eg ef þesse rijsst, ad eg mune ad faau Saan̄spaar; Eñ ef þu villt fyrt vijst fa-ra, þa mun eg nockur Raad leggia til med ydur, ef yckur Gun̄ari þyker mikid under. Ei ræde eg um̄ þad, segir Baardur. Þess get'eg þa, segir Kongur, ad i þeim litla Dal er þar geingur upp ad Jøklinum, munne Vatn vera, og mun Refur hafa veitt Vatned, og felldan̄ Stock vid Stock, þar til ad Vatnid kemur ad Virkinu, og ad nedstu Hornunum ætla eg georva 2. Stocka, og mun ꝛr einum ren̄a i hina baada, og fylla svo hvørtveggia Hlut Virkesins: Eñ Virkid allt mun geordt med holum Stockum, og mun hvør Stockurin̄ lꝛta eptir ødrum, og mun svo fylla Virk-id Uppe og Nidre af Vatnenu, aa þa Leid hygg eg þar um̄ bwid; Eñ þar sem ydur þookti ei Moot vera aa Virkinu edur Vidnum, eñ Vatn fell þo ꝛt allstadar um̄ Virkid, þar hygg eg han̄ borad hafa laangar Borur, svo miovar, ad ei meigi i gegnum koma, nema þvi Tre er þinst verdur Telgt, og ætla eg han̄ þan Tre allstadar hafa sett i Virkis-Stockana: Eñ i þeim Blegdum ætla eg vera Skauf, og mun han̄ faa þeim veitt, þa er han̄ vill ad Vatnid ren̄i ꝛr Virkenu. Alla þessa Blegda mun han̄ sett hafa Af-sijda, og munu eins Stoor-Tre verid hafa i Blegdum og Stock-um Nu er þad mitt Raad Baardur, ad þid Gun̄ar farid Nordur i Vor aa 2ur Skipum, Toolf aa hvørin, og skulu adrer 12. grafa Skurd fyrir ofan̄ Virkid, Jafnlaangan̄ Stundar, nær svo diwpan̄, ad taki Man̄e under Hendur, munu þier þa fin̄a Um̄bwd Lækiarins: Og ef svo er, þa stem̄i þier Lækin̄, ad eige beri Vatnid i Virkid; Eñ adrer 12. skulu bera Vid ad Virkenu, og sijdan̄ bækti mier Von, ad þier mættud bren̄a upp Virkid fyri Vatns Saker. Nu hef eg þau Raad til-læged, er eg het þier og Gun̄are, svo ad an̄adhvørt mun vera, ad Refur mun rijma Virkid, eñ flya Grænland, edur mun Gun̄ar faa Handtekid han̄; Og U-sijnt mundi mier þykia hvørnen̄ faa Madur munde aa brott komast, er svo være vidkomin̄, nema han̄ hafi mikin̄ Viturleik sier i Briootsti; Eñ ecki villda eg þu færer siaalfur

Baardur,

Boardur, hviad eg veit þu sæker ei gott til Refs. Baardur mællti ad ei mætti odruvijs vera, og þackar Konge sijnar Til-løgur: Eñ sijdañ lætur hañ wr Landsestum.

## XI. Cap.

Nu er þar til ad taka, er Refur situr i Obigdum, ad Synir hañs giørdust hinir Gilldustu Meñ: Og þetta Vor sendir Refur þa i Bygdir, i moots vid Meñ þa, er honum høfdu Lidi heitid, og fyrr er getid. Þeir Brædur fooru leinilega, og feck Guñar einga Nioosn af Ferd þeirra: Eñ er þeir Meñ feingu Ordsending Refs, urdu þeir vel vid, og komu þegar til Moots vid hañ. Refur let þa frañ setia Skip þad, er hañ hafdi haft af Islandi, hafdi þad halldid Hrosi sijnu og Broodi, og svo var þad þiett sem Bitta. Refur let þa ferma Skipid af Grænlendskum Varningi, Svørd, Toñ, og Skiña-Vøru: Eñ er Skipid var bwid, hallda þeir þvi Nordur i hañ Fiørd, er þar var nærstur, og løgdu þar Skipinu i eiñ Leyni-Vog. Þar var oo Helga Kona hañs, Þormoodur Foostri-heñar, og Þormoodur Sonur heñar, og þeir Toolf (*) Meñ, er ur Bigd komu, segir Refur þa Fedga eñ nu biggia skylldu Virkid uñ Stund.

Þad er ad segia af Ferdum Baardar, ad honum foorst vel og took Grænland, þar sem kioosa mundi. Guñar took Feigins Hendi vid honum, og setia þeir þegar Meñ til ad sioo fyri Varningi Baardar, eñ þeir fooru þegar i Obigdir med jafn marga Meñ sem Kongur hafdi oo kvedid, þeim er þar nu hardla kuñugt, og rata þeir skiott oo hañ Fiørd, er Virki Refs stood i. Guñar lendir Skipi sijnu i utañ verdañ Fiørdiñ, þvi þad var þungt undir Arum, og hladid af Vist þeirra, og hookti þeim lettara ad gaanga iñ i Fiørdiñ, eñ þeir Baardur reru iñ allt ad Virkinu, og var þar eingum Hlut breitt, svo mætti sioo, nema þad, ad grafiñ var Skurdur eiñ jafn sijtt Virkinu, þeim meigiñ er ad Sioo horfdi: Skurdiriñ took oo framañverdañ Sioofar-Backañ, og var þar ad-diwpt miøg, eñ ecke ert Utgriñi, þesse

(*) Sex.

Skurdur var ecki diwpari eñ Mañi i Brook-Linda. J þvi kom Madur fraῆ a Virkid, og þeñañ Mañ-keña þeir, og var þad Refur: Hñ heilsar þeim, og spyr Tijdinda? Baard ur qvadst hønum eingiñ Tijdindi segia øñur eñ þau, ad þu stendur þar feigum Footum a Virkinu, og eru þad lijtil Tijdindi. Baardur ser nu þaangad er Kongur hafdi fyri sagt, og lætur Skurd grafa: þvi næst siña þeir Stocka, og eru Ræfrum vafdir, þeir høggva nu upp Stockana, og hleipur þar ur Vatn mikid, eñ Virkid took braatt ad þorna. Refur geck þa fraῆ a Virkid, og spurdi, hvør þesse Raad hefdi til-lagt med þeim? Baardur qvad hañ þad eingu varda. Refur mællti: Veit eg segir hañ, ad eingiñ ydar mundi þetta Raad fundid hafa, nema þier nitud ydar betri Maña vid. Baardur svarar: Hvør sem oss kendi þesse, þa skulum vier nu yfir þier drottna i Dag, og þijnum Fear-Hlut' þar med heingia þig, þar ed þu meigir lijta þeñañ þiñ Bwstad, edur þu skallt breña. Þa qvad Refur Vijsu.

> Þikist framur ok þrekiñ,
>
> Þvi er Lijkindi ad rijki
>
> Reyndir i roskum Høndum,
>
> Ok Raad mitt hafi baadir,
>
> Firr get ek hins eñ Hiørva
>
> Hlioombeydir mik Veydir,
>
> Hugur miñ hordu Lagi,
>
> Hrijng bætir at mæti,

Refur snijr þa iñ aptur i Virkid, eñ þeir auka nu Elldana, og er Eysa mikil, og Vota-Reykur Omaatalegur, og i þvi heyra þeir Brak mikid i Virkinu: Eñ er miñst vardi, fellur saa Hluti Virkisins, er fraῆ horfdi ad Sioonum, var þar svo gegnt til-ætlad, ad Virkid fell i Skurdiñ, a framañverdañ Siaafar-Backañ: Þad vard svo sliett sem ein Fiøl, eñ i þvi er Virkid fell, rañ þar fraῆ eptir Skip a Hioolum, og þegar fraῆ a Siooiñ, draga þeir Refur nu

þegar

þegar Segl upp, þviad Vind-Gol nockud lick a Nordañ eptir Firdinum, eñ undir þeim Hluta Virkisins er fiell, urdu Fioorir Meñ Baardar, og høfdu þeir þegar Bana. Baardur heitir nu a sijna Meñ, og hlaupa þeir a Skip Atta, draga þegar Segl upp, og roa undir slijkt er þeir meiga. Draga þeir nu braatt eptir þeim Ref, eñ Guñar kañar Virkid, og var þad eitt þar iñi, er eingiñ hirdti ad hafa. Sneri hañ þa ut med Firdinum, og hañs Meñ til Skipsins: Sier Refur þa, ad Baardur muni skiott eptir draga. Þa mællti Refur: Nu skulum vier fyrst hleipa nidur Seglunum, og varir mig, ad hitt Skipid skrijdi skiott fram hia, svo þeir faai þad ei siødvad, eñ þeir vita þess einga Von, ad vier munum bijda: Eñ er Skip þeirra reñur fram hia a Bord vid oss, þa skalltu Steiñ segir Refur, høggva Høfud-Bendur þeirra, eñ þu Biørn skallt hælpa i Arum, svo þeim sijnist sem vær roum undañ i Skierpingi, eñ þu laat sem Skip vort muni sem miñst skrijda. Refur hioo nu Hvæl undañ Skipi sijnu, og þvi næst took hañ Spioot mikid, og hvatti i Akafa. Nu er ad segia af Baardi, ad þeir sigla og roa sem mest meiga þeir, og Sakir þess, ad þa vardi ei, ad Refur mundi bijda, reñur Skip þeirra fram hia Skipi Refs, og i þvi skijtur Refur Spiootinu til Baardar, svo ad þad flijgur i gegnum hañ, og nisti hañ ut vid Bordid, eñ Steiñ høggur allar Høfud-Bendur þeirra, og foor þa Seglid utbirdis med øllum Reidanum, svo vid þvi var bwid, ad hvølfa mundi Skipinu. Droou þeir Refur þa upp Segl sitt, og urdu Braadfara, allt þar til þeir komu ut ur Firdinum. Skipveriar Baardar gaatu borgid Reida sijnum, og løgdu þeir þa ad Landi, undir Nes eitt. Eñ er Guñar og hañs Meñ saau, ad Refur sigldi ut eptir Firdinum, þooktist hañ vita, ad saa eiñ mundi Fundur þeirra Baardar ordid hafa, ad hañ mundi ecki Ord eptir senda. Bad hañ þa sijna Meñ flijta sier til Skipsins, og komast fyri Fiardar-Miñid, og svo giørdu þeir: Took nu ad lijda Dagriñ, eñ er Refur og Synir hañs komu ut ur Sundinu, og i sundurlauk Firdinum

um i Añad Siñ, gætu þeir ad lijta, hvar Guñar veri fra Landi og hañs Meñ sem mest mættu þeir: Took þa mieg ad dimma af Noott, eñ Tunglsljoos var lijtid. Vier skulum sækia Rooduriñ sem akafast segir Refur: Eñ þu Biern skallt læta sijga Segl vort, æ smaamsamañ, og sijdañ fella, þeir giøra nu svo. Guñar mællti: Klækilega sækist ydur nu Rooduriñ: Vier vorum ædañ svo nærri þeim, ad vjer hugdum, ad vier mundum skioott taka þa, eñ nu firrast þeir oss, so ad lijtil Pwsa þikir Skip þeirra ad sia, og mun þar Vindur meire, og er lijkast þa beri þvi undañ: Munum vier nu hallda til Lands, og rekast ei a Haf um Nætur eptir Ref, svo geørdu þeir. Uñ Morguniñ koma Meñ Baardar til Guñars, og søgdu sijnar Farir ei sliettar, høfdu þeir þar Lijk Baardar. Guñar snijr nu aptur þa til Bigda, og unir illa siñi Ferd, var þad og eitt Ordtak allra Mañа, ad sair mundu verr reknir af einum Mañi, Hafsetar þeir, er verid høfdu med Baardi, geørdu skiott Varnings Skipti, sigla þeir nu til Noregs uñ Haustid, og er þess ei vid getid, ad Guñar sendi Haralldi Kongi neinar Gersemar, søgdu þeir Kongi Laat Baardar, og Vidskipti þeirra Refs: Eñ Køngur qvad þad ei fiærri farid hafa Gietu siñi. Eñ er Refur og Synir hañs komu til Skipsins, urdu þar hvørier øbrum fegnir: Bingguist þeir sijdañ til Hafs, og høfdu Utivist lañga og harda, tookn Norveg uñ Haustid, og komu þar fyrst vid Land, er heitir i Ædey. Lands-Meñ spurdu hvør Skipinu stijrdi? Eñ hañ nefndist Narfi, og letsi vera Islendskur Madur. Refur spurdi hvar Kongur væri i Landinu? Eñ Lands-Meñ segia honum, ad hañ væri i Prandheimi: Eñ Ædey er hallfa Tilft Sudur fra Prandheimi. Refur siglir nu þadañ iñ Land meigiñ, og leggur Skipi sijnu i eiñ Leyni-Vog, lætur þar eptir Føruneyti sitt, eñ leigir sier Sexæring eiñ, og Leidsøgu-Mañ: Synir hañs fooru med hønum og Kona hañs, eñ Meñ hañs skylldu giæta Skipsins. Ei er getid uñ Ferd Narfa, firr eñ hañ kemur til Kaup-Bæar i Nidaroosi, og leigdi sier þar eina Skiemu, þar dvølduſt þau nockra

Daga,

Daga, og baud Narfi þeim mikla Vareygd aa sier hafa, so alldre geingi þeir svo fraa Skiemuñi, ad Helga væri þar ein eptir. Narfi let giora sier blaaañ Kufl, og jafnañ hafdi hañ Svard-Reip uñ sig; Skegg hafdi hañ og laatid binda sier hvijtt, og liesi vera gamall Kaupmadur, og geck jafnañ svo bwiñ uñ Torg: Spioot hafdi hañ i Heudi, med laungu Skapti, og Jaarn-vafid Skaptid. Kongur var þar i Bænum, og mikid Fiolmeñi. Eiñ Hird-Madur Kongs het Grani, og var kalladur Skaalp-Grani, frijdur Sioonum, og barst mikid aa ad Klædum og Vopnum. Grani var Vijsiñ, og Kveñsamur, geordi hañ i þvi morgum Mañi mikla Skap-Raun, eñ honum vard þad þvi þolad, ad hañ hafdi Kongs-Traust.

## XII. Cap.

So bar til Eiñ Dag, ad Kongur hafdi Pijng Fiolment i Bænum, og var Monnum Alment til blaasid. Narfi geck til Pijngs, og Synir hans, Steiñ og Pormoodur, eñ Biorn var eptir heima hiaa Moodur siñi, og ei þvi sijdur forvitnadi hañ ad vita hvad talad var aa Pijnginu, og fer hañ þaangad: Eñ er Narfi sier Biorn, snijr hañ ad honum, og spyr ad, hvar eptir sie hiaa Helgu? Hañ segir ad eingi var: Narfi snijr þa aptur til Skiemuñar. Litlu sijdar eñ Biorn var aa brott geingiñ, kom Madur i Skiemuna, saa var i blaam Klædum, og let mikid yfir sier: Helga heilsar aa þeñañ Mañ, og spyr hañ ad Nafni? Eñ hañ qvadst Grani heita, og vera Hird-Madur Haralldz Kongs, og er eg þvi hier komiñ segir hañ, ad eg vil mier Konu kaupa: Hun bad hañ gaanga til þess i Añañ Stad: Grani qvad þad Osæmilegt vera, ad gamall Madur ætti unga Konu so frijda og fagra, hun qvadst fyri honum siaalfraad vera mundu, Grani qvadst Orætur vera skylldu, og took til Helgu, eñ hun spratt upp og verst honum, slær þa i Glijmu med þeim: Og i þvi kemur Narfi til Gluggans og sier iñ, eñ er Grani sier Skuggañ bera fyri Gluggañ, skijst hañ ur Hondum

Helgu,

Helgu, og leitar til Dyrañа. Refur villdi þa komast fyri Dyrnar, eñ Grani kemst ut firri, og hefur þegar a Rаs, eñ Helga hlioop til Dirañа, og þrijfur til Narfa, og mællti: Laattu hañ fara, þvi hañ hefur eingri þiñ Eign spillt. Narfi sleit Helgu af sier, hlioop eptir Grana, og eggiar hañ ad bijda: Eñ hñ hleipur ei ad sijdur, allt þar til er hañ kemur ad Skijdgards-Hlidi einu, sier Grani þa, ad skamt var i millum þeirra, og hañ muni señ tekiñ, snyst þa i mooti Narfa, og mællti: Higg þu ad segir hañ, hvad þier er giørandi, þvi ef svo er, þu drepur mig, verdur þad Bani þiñ, eñ svo leingi sem þu hier ert i Bænum, skal eg þier alldre Mein giøra: Badst hañ nu undañ sem best hañ kuñi, þa mællti Narfi: Þad er sagt segir hañ, ad alls Kostar sie þier illa gefid, berst þu a meir eñ adrir Meñ, þikist mikill fyri þier, og giørir mørgum Skøm, eñ nu veitstu ei hvørsu þu skallt laata, edur þier breyta: Svo ertu hræddur, bwstu svo vid ad ei mune þier Vægd sijnd, og ei mune nu tiaa ad Fridmælast; Lagdi Narfi þa til hañs med Spiootenu. Grane hafdi og Spioot i Hendi, laust af sier Lægid, og foor þad svo nockrum Siñum: Eñ þo lauk svo med þeim, ad Narfi lagdi i gegnum hañ Spiootenu, og droo hañ svo upp under Skijdgardiñ, medañ hañ var i Fiørbrotunum, og hylur þar Hræ hañs. Kemur Narfa nu i Hug, ad ei mune Raad ad myrda Mañiñ, og best mune fallid ad segja Kongi þad sialfum. Nu geingur Narfi fyrst til Skemuñar, bidur Helgu og Leidsøgu-Mañ siñ taka Faung þeirra, og hafa til Skips, eñ hañ geingur þaangad sem Kongur var ad þijnga, og var þar all-mikil Þraung og Mañ-Fiøldi: Þreynger hañ sier nu fram a milli Maña, þar til hañ kemur fyri Kong. Og i þvi Bili sem Kongur er ad tala um Naudsyniar, þær tilfellu i Landinu, tekur Narfi til Orda og mællti.

Haralldr Kongur, segir hñ: Vid Sverd-Hwss Grane Hyrd-Madur þiñ urdum Saupsaatter i Dag, er hañ villde Fiallskerda Konu mijna, eñ eg

Stoor-

Stoorkerlldade hañ i gegnum Straabeygers Augad. Pa Laanghwsade hañ Herra, og þa Laanghwsade eg, Herra: Pa Hreidurballade eg hañ, Herra, eñ hañ Marghrossade aa moot. Pa Fagur-roggvade eg hañ, Herra, eñ hañ Skip-Skeggiade aa moot. Pa Lijnghnappadi eg hañ, Herra, under einum Skijd-Garde hier skamt i brott, og Bodvirkta yfer ad Lyktum.

Sijdañ snijr Narfi aa brott, og til Skips sijns, og hvatar miøg siñe Ferd: Letu þeir ganga um Roottina sudur med Landi, allt þar til þeir komu til Skips; Og sigla þeir þa Narfi og hañs Meñ þegar til Hafs.

## XIII. Cap.

Nu er ad segia fraa Haralldi Kongi, ad hañ var staddur aa Þijngi, sem fyrr er sagdt: Eñ medañ Narfi slutte fram Eyrinde sitt, þa let Kongur ei falla sijna Rædu, og eingiñ Madur saa ad hañ giæfi Gaum ad þvi hvad Narfi sagdi. Eñ er hañ hafdi lyktad sijn Eyrinde, let Kongur blaasa til Hlioods, og mællti sijdañ: Hvør var sa Okuñe Madur er stood fyrer oss um Hrijd i blaaum Kufle, og Svardrelpi mikid um sig, og Spioot i Hendi? Edur hvadañ er hañ? Meñ søgdu þeir vissu þad ecki, og søgdu hañ verid hafa þar i Bænum nockra Daga, og leigt þar Skemmu eina; Nefndu hañ Narfa nefnst hafa. Kongur mællti: Hvad þookti ydur hañ segia? Þeir qvaadust þad allrei vita, ad þad være añad eñ Vitleysa og Hegoomi. Vera maa þad, segir Kongur: Eñ ecki vard mier Madur sa lijtill fyrer Augum; Edur hvar er Skaalp-Grane Hyrd-Madur vor? Kallid hañ fyri mig; Þeir gioora nu svo, og fundu hañ hvørge. Pa mællti Kongur: Verra Esni mun hier i vera eñ vier hyggium, þviad Madur þesse took svo til Orda: Vid SVerd-Hwss SRaug Urdum SAupsætter J Dag,

Er

Er Hañ Villde FJallſkerda KOnn Mijna. Þeſs get eg, ſegir Kongur, ad þad haſi hañ ꝍtt vid Hyrd-Mañ miñ Skꝍlphws-Grana, hvïad SKꝍlpuriñ er Hws Sverdſins, mun hañ hafa farid uñ Herbergi ad ſꝍ ſier Konu, og mꝍ verda ſyri hønum hafi ordid Kona Narfa; Pad er Dryckur a Islande er Miſa heitir, er þad allt Eitt, Miſa, SAup, og Dryckur: Og munu þeir hafa ordid misſꝍtter. Hañ ſegir hañ hafi viliad FJallſkerda Konu ſijna: Par heſur hañ viliad hvijla med heñi, þvi þad er kallad, ad Konur ſien Giliadar:, Eñ Gil ern Fiall-Skord. Pa qvadſt hañ hafa STOON-Keralldad Hañ J Gegnum STRAbeygis AnGad, Pad er riett Atkvꝍde; Sꝍr er kallaſt Stoorkerolld; Pa vite þier ad STrꝍbeyger er Vindur, eñ Vindauga er a Hwſinu, og heſur ſied hañ iñ uñ Gluggañ a Herbergiñu, er þau hafa ſamañ ꝍtt. Pa LAughwſadi Eg Hañ, ſagdi hañ: Nañ heitir Laung-Hws, og heſur þa hvortveggiu rññid, mun hañ þa hafa hlaupid med Skemn-Veggnum hardt, er hañ heſur ſied ad Funde þeirra mundé ſamañ bera. Pa HReidurballadi Eg Hañ, qvad hañ: Pa mun hañ hafa éggiad hañ ad biida, hvïad HReidur-Bollur er Egg; Eñ Hañ MArghroſſadi a moot; Stood kallaſt mꝍrg Hroſs, og mun hañ þa hafa Stadar numid. Pa qvadſt hañ hafa FAgur-Roggvad Hañ: Skyckiur eru þꝍr a Islande er Fellder heita, og er ymiſt kallad a Felldinum, Roggur edur Lagdur: Nu mun hañ hafa ſvo til Maals tekid, ad kalla Lagdañ, og mun hañ hafa lagt i gegnum hañ, er hañ qvadſt FAgur-roggva Hañ; Eñ hañ SKipſkeggiade a Moot, ſagdi hañ: Bord heitir a Skipi; Pa mun hañ barift hafa uñ, er hañ var i Fiorbroturnum. Pa LJJNghnappadi Eg Hañ Under Skijd-Gardi Einum, ſagdi hañ, Skamt J Brott: Byrdi heitir Lijng-Hnappur; Og heſur hañ þa borid hañ under Skijd-Gard eiñ. Pa qvadſt hañ VOdvirkta Yfir Hũ: Pad er Maalshꝍttur a Islande, er Kongur lwka Veſ ſiñ, og muñ hañ þa hafa hulid yfer hañ.

Nu vil eg, ſegir Kongur, ad þier leitid ad þeſſum Moñ-

um, Bædi ad hinum Veigna, og svo Vegandanum: Geordu Meñ nu svo sem Kongur baud, og fañst Grane dauður, eñ Narfi fañst hvergi uñ Morguniñ; Let Kongur blaasa til Hws-Piings, og segir svo: Pau Tijdindi urdu hier i Giær, (ad þvi er betur ad slijk ern skialldañ skieu) ad Grane Hyrd-Madur vor er veigiñ; Eñ eg veit ei þess Islendskś Mañs Von, er slijkt þyrde ad geora under Handar-Jadare vorum, og mun eg nu tilgeta hvør þesse Madur er; Her mun vera komiñ Maduriñ Refur, er Guñare og Grænlendingum hefur geordt mikiñ Skada, og ill Bijte.

Eptir þad nefndi Kongur Meñ til, og baud ad þeir skylldu leyta ad þessum Mañi, bædi aa Sioo og Landi, eñ þeir fara eptir þvi sem Kongur georir Raad fyri.

Pad er nu af Ref ad segia, ad þeir letta ei Ferd siñi firr, eñ þeir koma til Danmerkur, sookti Refur þegar aa Fund Sveins Kongs, og segir honum allañ Vœxt aa þar-Komu þeirra, og bad hañ Vidtöku, eñ Kongur segir, ad honum þækti svo vera i hañs Fraasögn, sem Naudir hefdi tilrekid vijdást uñ Hardrædi hañs, og lijst mier svo aa þig og Sonu þijna, sem gott Brautargeingi nuni i ydur: Nu af þvi þu hefur vorn Fund sookt, hefur þu og Varning hañ flutt i vort Land, sem oss er nu uñ Hrijd ei audsien, Søkum Ovina vorra, sem er Svørdur til Reida aa Skip vor, þa munum vier vid ydur taka, mun eg faa ydur Eignir og Bw þar sem oss lijkar: Eñ Synir þijnir Steiñ og Biørn skulu vera med oss, munu þar Sæmdir þeirra vidliggia, hvørt Mañ-Kaup oss þikir i þeim, þegar vier reynum þa: Eñ Pormoodur Sonur þiñ skal vera hiaa þier. Refur qvadst þad giarnañ vilia, ad Kongur sæi eiñ fyri, eñ þo munum vier fyrst verda ad siaa-fyri Peningum vorum, og bwa þa Brædur til ydar; Kongur baud svo vera skylldu, og fooru þeir Refur til Skips sijns. Kom þad þa upp, ad þeir hofdu Osnr-Feaar, i Svørd, Toñum, Skiña-Vøru, og mørg um þeim Hlutum, er Faasienir voru i Danmørk, af Grænlendskum Varningi. Hvijta-Byrni hofdu þeir og Fiñ, þar med Fimtijge Faalka graaa, og Fimtaan hvijta.

## XIV. Cap.

Ar er nu til ad taka, ad Skip þad er Bœrdur hafdi stijrt, kom þetta Hauſt af Grœnlandi, og ſpyr Kongur nu Vijg Bœrdar, og alla þa Adburdi, er þar høfdu ordid: Lætur Kongur nu blœſa til Moots eiñ Dag, og a þvi Mooti taldi Harálldur Kongur Mønum Vijg Bœrdar, og þañ Atburd er vard uñ Vijg Grana: Og veit eg nu vijſt ſegir Kongur, ad ſa hiñ ſami Narfi, hefur verid Refur Steinsſon af Islandi, mun eg nu leingia Nafn hañs, og kalla hañ Krooka-Ref. Nu þo hañ ſie mikill fyri ſier, þa verdum vier þo ad giæta Tignar vorrar, ad leyfa ei ødrum ad drepa ydur Hird vora, og af þvi giørum vier þeñañ Mañ hier i Dag Utlægañ fyri Endilaungum Norveg, og ſvo vidt ſem vort Rijki ſtendur.“ Eptir þad nefnir Kongur til Erek Broodur Grana, og med hønum Sextijgi Maña, ad fara Sudur til Danmerkur, og ſitia uñ Lijf Refs. Bijr Erekur nu Ferd ſijna, og þeir Meñ ſem med hønum ſkylldu filgiaſt, og lettu þeir ei ſiñi Ferd, firr eñ þeir komu til Danmerkur, og lœu vid Jootland i goodri Høfn. Eñ er þeir høfdu þar leigid nockra Daga, kom af Landinu ofañ Karll gamall, geck vid Tvo Stafi i vondri Heklu, og hvijtt Skegg fyri Hœrum; Þeir ſøgnudu hønum vel, og ſpurdu Karll ad Nafni? eñ hañ nefndiſt Sigtriggur, þeir ſpurdu hvar Ætt hañs væri? Eñ hañ qvadſt vera Norrœrn, af hinum firri Ættunum, eñ verid nu i Danmørk uñ Stund, og vordid þar ſaatækur: þeir qvœdu hañ mundu vera goodañ Karll, og kuña þvi margt ad ſegia: Hañ ſpyr ad hvørin þeir villdu ſpyria? Þeir qvœduſt forvitnaſt vilia til þeſs Mañs er Refur heti, og mundi þar hafa komid uñ Sumarid vid nockra Meñ a Skipi. Sigtriggur mællti: Mun micr þad til nockurs verda, ad ſegia ydur þad ſem þier viljed vita? Þeir qvœdu hønum mundi ei Mat-Skortur vera uñ nockra Daga. Sigtriggur mællti: Ei mun eg þetta til Matar eins giøra, ad ſegia ydur til Refs, þviad eg veit

af

af Umrædum Manna, ad þier munud sitia um Lijf hans. Nu mun eg giøra ydur Kost a þessu, ad filgia ydur þar til þier finnid Ref og Sonu hans, og þa Toolf Menn sem med hønum hafa filgst i Sumar, en eg skal eignast Eyrir af hvør ium ydrum, og einn Kost-Grip af Skipi ydru, enda skulud þier og skylldir ad flitia mig til Noregs, ef eg vil a ydrum Kosti a Skipe ydru, og skulud þier laata mig rada fyri Ferdum, þar til er vier finnum Ref: Og þessu kaupa þeir saman. Þa mællti Sigtryggur: Nu skulum vier taka Tiolld af Skipe voru þegar i Stad, og roa fram um Nesid; Og svo geørdu þeir: Løgdu sijdan ad Lande, munum vier nu gaunga hier upp, segir hann, og ydrer Menn 2. med mier, og vita hvørs vier verdum vijser. Þeir geørdu nu svo, og var þar Skoogur mikill nær: Enn er þeir komu skamt i Skooginn, hlupu þar ad þeim Menn med Vopnum, voru þetta Syner Refs, og þeir 12. þeirra Fylgiarar: Voru þa hiner Norrænu Menn bæder Handtekner. Sigtryggur kastar nu nidur Tøtrunum, og svo Skegginu: Geingu þeir þa annan Veg til Siaafar-Fiørn, flutu þar 2. Laangskip, og 200. Manna, og hafde Svein Kongur sendt þetta Lid Ref, þegar hann visse ad Rivosnar-Menn voru til hans geørvir. Vopnudust þeir þa Refur og hans Menn, og veittu þeim Ereki Atroodur, og hans Fylgiurum: Og er þeir funduft, urdu þar skioot Umskipti, ad aller Menn voru drepner af Eriki nema 10. Og voru þeir Handtekner. Þa mællti Refur: Nu er svo komid Erikur, ad hier erkomin Sigtryggur Felage þinn og Kaupunautur, er þu fanst i Giærkvølld, og hefi eg nu endt þad er eg het þier, ad nu mættu hier sia Ref og Sonu hans: Nu af þvi ad eg hef drepid Broodur þinn, þa vil eg gefa þier Lijf, ef þu villt sveria þad, ad sitia alldre um Lijf mitt nie Sona minna: Skalltu nu segia Haralldi Kongi allt hid Sanna um vorn Fund: Seig hønum og, ad nu hafi eg launad hønum nockru fyrer Fiørrad þan, er hann lagdi til med Mønnum þeim er satu um Lijf mitt. Enn Haralldi Kongi mun ecki andid verda ad laata drepa mig, skal hønum og sia einn U-þarfare i Dan-

mørk eñ eg, er nñna mœa. Soor Erikur nu Eida þessa: Feck Refur þa Erike Toolfœring eiñ, og þar med þœa Hlu- te, er hañ þurfte ad hafa Naudsynia vegna: Eñ Refur took til sijn Lœangskip, þad er þeir høfdu þœngad haft, og fœrdi þad Sveini Kongi; Losadi Kongur miøg Tiltœki Refs, qvad þau bœdi Hardmañleg og Dreingileg: Og skalltu nu þetta Nafn hafa upp-hedañ i voru Rijke, ad hei- ta Sigtryggur, hvíad hitt er hier fœanesndt; Eñ ad Nafu- Festi vilium vier gefa þier Gullhrijng, hañ er stend: Mørk, þar med skalltu þyggia af oss 15. Bw Vestur œa Vendle, þau er þu tijs, af þvi eg skil ad þu muuer vera, Stoorvit- ur Madur. Sigtryggur þackadi Konge med føgrum Ordum Høfdinglegar Geafir, og alla þa Sœmd, er hañ veitti hønum: Og foor Refur nu til Bwa siña, er Kong- ur hafdi gefid hønum, og Helga Kona hañs, og Þormood- ur Son þeirra, geørdist Sigtryggur þar hid mesta Stoor- Meñi; Og er hañ hafdi setid þar nockra Vetur, bioo hañ Ferd siina wt i Rooma-Borg, og sookti heim hiñ Heilaga Petur Postula, og i þeirri Ferd feck Sigtryggur Soott þa, er hañ leiddi til Bana, og er hañ Jardadur i Mwnka Klaustre wt i Frack-Lande. Eñ þeir Steiñ og Biørn voru med Sveine Kongi leingi, og virdte hañ þœa mikils, svo hañ feck þeim gøfug Kvonfaung i Danmørk, og stadfestust þeir þar bœder: Pooktu þeir vera œgiœter Meñ. Af Steine Refssyne var komiñ Absalon, er var Erche-Biskup um Daga Valldemars Kongs Knwtssonar. Eñ Þormoodur Son Refs foor til Islands, eptir Fall Harallds Kongs, took hañ vid Lande ad Kveña- Brecku, og kvœndist wt œ Islandi: Er þar margt gøfugra Maña frœa hønum komid. Og lwkum vier svo Krooka-Refs Søgu, og Sona hañs.

* * * * * *

Sagañ

# SAGANN

# Af Haurde,

## Og Haňs Fylgiurum:

## Þeim Hoolmverium.

## I. Cap.

ADOGum HAralldz Hiňs Haarfagra, (*) Bygdist mest Island, Þviad Meň þoldu ej Anand haňs og Ofrijke: Einkaňlega þeir, sem voru stoorrar Ættar og mikillrar Lundar, eň ættu gooda Kosti, og villdu þvi helldur flya Eigner sijnar og Odul, eň þola Agang og Ojafnad, ej helldur Kongi eň ødrum Møňum: Eiň af þeim var Biorn Gull-Beri, haň foor wr Orkna-Dal til Islands, og nam Reykiadal eň Sydra, fra Grijms-Aa til Flookadals-Aar, og bioo a Gullberastødum. (**) Haňs Syner voru þeir Svartur, Geyrmundur og Þioostolfur: Og koma þeir ei vid þessa Søgu. Son haňs hiň Elldsti het Grijmkell, haň var bædi mikill og sterkur. Biørn Gullberi gørdist mikill fyri sier, og Audugur ad Fee: Grijmkell Biarnar-Son bad Raňveigar Þorbiarnardoottur wr Arnarholti,



(*) Aňo 858. Upphaf Rijki Haralldz K. i Norvegi.
(**) Aňo 868. Einvalld Hara lldz K ongs.

og fecf hañ heñar; Voru þau ei leingur saman eñ 3. Vetur, og vard hun Sott-dand. Peirra, Dootter het Purijdur, og Olst upp med þeim Mañi er Sigurdur Mwli het, hañ bioo under Felli; Hun var væn Kona, og høg a Hendur: Rockud Hardlynd, eñ þo Vinsæl.

## II. Cap.

Grijmkell bioo fyrst Sudur a Fiollum, skamt fra Olvis Vatni, þar er nu kallast a Grijmkelsstødum: Og eru nu Sauda-Hws, Grijmkell hafdi Godord; Audugur var hañ og Høfdingi stoor, og kalladur ecki uñ allt Jafnadar-Madur. Hañ færdi Bw sitt eptir Konu sijna dauda til Aulvis-Vatns, þviad hønum þooktu þar Land-Kostir betri: Bioo hañ þar sijdañ medañ hañ lifdi: Kalladur var hañ Grijmkell Godi. Høgni het Madur, og bioo i Haga-Vijk skamt fra Olvis-Vatni Porbiørg het Kona hañs, Doottur þeirra het Goþrijdur, væn Kona og Vinsæl: Høgni var Ættsmaar og þo vel ad sier, eñ Porbiørg Kona hañs sijnu Ætt-stærri, þo kom vel aa samt med þeim.: Høgni var vel Fearreigandi. Valbrandur het Madur, er bioo a Breida boolstad, i hinum Nirdra Reykia-Dal, hañ var Son Valþioofs ens Gamla. Torfi het Sonur Valbrands, þeir Fedgar høfdu Goþord. Torfi var Vitur Madur og Vijd frægur: Par Ox upp sa Madur med þeim Fedgum er Sigurdur het, og var Grijmhilldarson, hañ var skilldur Torfa, og var kalladur Sigurdur Torfa-Fooftri, hañ var eñ Efnilegasti Madur, og vel ad sier giør uñ flestar Iþroott ir: Añad Barn aatti Valbrandur er Signij het, hana aatti Porgrimur Son Fiñs ur Midfelli hins audga, Halldorssonar Høgnasonar, hañ var Andadur er þesse Saga geordist. Grijmur hiet Son þeirra, Efnilegur Madur, og Ox upp med Moodur sijni: Signij bioo aa Signiarstødum skamt fra Breidabolstad, hun var Skørungur mikill, stioorord, Skapstoor og Braadudig i øllu. Par Ox upp sa Madur med heñi er Grijmur het, og var kalladur

adur Grijmur Litli, hañ var Foostri Signijar, og mikils-hattar Madur, skiootlætur og skyungur: Kollur Kiall-aksson bioo þa a Lündi i Sydra Reykia-Dal, hañ var Høfdingi mikill.

## III. Cap.

Madur het Þorvalldur, er bioo at Vatnshorni i Skoradal, mikill Madur og sterk-ur, Kona hañs het Þorgrijma, kollud Smid-Kona, Fiølkuñug miøg. Jndridi het Son þeir-ra Madur Efnilegur. Þorgrijma lifdi þeirra Hioona leingur, eñ þa hun var Eckia vordiñ, bioo hun i Hvañi i Skoradal, og giørdist audug Kona. Þad er saagt eitt Siñ sem optar, ad Grijmkell Goþi reid til Þijngs, (*) og ein-hvørn Dag geck hañ fraa Bwd siñi med Flock Maña mik-iñ, og til Bwdar Valbrands og þar iñ, Valbrandur fagn-adi hønum vel, hviad Grijmkell var hønum forn-kuñugur, bad hañ setiast nidur, og tooku þeir Tal med sier. Grijm-kell mællti: Þad er mier geørla sagt Valbrandur, ad þu eigir hier Doottir þa Signij heitir, Skørungur mikill: Vil eg bidia heñar, ef þu villt gipta mier hana, Valbrand-ur svarar: Kuñugt er oss, ad þu hefur Ætt gooda, og Aud Fear, og ert sialfur Garpur eñ mesti, og vil eg þessu vel svara: Lijkur svo þeirra Mæli, ad Valbrandur festi Grijmkeli Goþa Signiju Doottur sijna, eñ Bod skylldi vera ad Tvij-Mæнudi Sudur ad Ølvis-Vatni. Torfi Valbrandsson var ecki a Þijngi, og er Valbrandur kom heim af Þijngi, sagdi hañ Torfa Syni sijnum Tijdindiñ. Torfi svarar: All-lijtils þikir ydur verdar mijnar Til-løg-ur, er mig skylldi ecki spyria ad slijku, enda þikir mier ecki Raad þetta jafn-virduglegt, er þu hefur sied fyri Doottur þiñi, sem þier þikir, mun Signiju þetta ecki mikid til Jnd-is, er Madur iñ er bædi gamall og hardrædur. Torfi qvad þa Vijsu.



(*) Año 927. Sett Alþijng, Ein Løg a Landi ollu.

Gipt hefur Porna Pooptu
Peon nam slijkt at fregna,
Gamall Bensijdur beydir,
Grimfatla Grijmkalli,
Auds nam Jndi og Blijdu,
Einfølld Morgunsteina,
Get ek at giøra mun lijtid
Gamal-Meñid þad heñi.

Spurdi Signij nu Geaf-Ord sitt, og let sier fœtt uñ-fiñast: Og er þau hittast Torfi og Signij, lætur sier ecki uñ Rœda-Hag þeirra fiñast, eñ Ast mikil er þo ecki ockar œ milli, er mier ecki uñ, ad þu Rœdist ur Heradi, hun svarar: Eg sie hier gott Rœd til Broodir, bregd þu ecki Rœda-Hag þessum, eñ eg mun Handsala þier Fee mitt allt œ þañ Hœtt, ad þu skallt giallda Heimañfylgiu mijna, slijka sem Fadir miñ hefur œkvedid, og mun þad vissulega Tuttugu Hundr. Munur: Vil eg þad gefa þier til Vinguuar, utañ Gripi mijna Tvo, þa er eg hefi mestar Mætur œ: Er Añar Men mitt hid gooda, eñ Añar Hestur miñ Svart-Faxi. Torfi let sier þetta vel lijka, og mællti þa vel til heñar.

## IV. Cap.

Nu hwast Meñ til Brwdkaups Ferdar, Kollur fra Lundi var bodiñ, eiñ Virdinga mestur, hañ bœdu þeir Fedgar ad siœ fyri Bods-Moñum, þviad Valbrandur var svo gamall, ad hañ nenti ecki ad fara, eñ Torfi villdi ecki. Kollur bijst til Ferdar med Brwdiñi, og voru samañ Prjœ-tijge Maña. Pau gistu ad Pverfelli i Reykia-Dal, Grijmar eñ Litli Foostri Signijar skylldi geima Hrossa ad Gistingu, og uñ Morguniñ er hañ leitadi, fañ hañ ecki Svart-Faxa Hest heñar, leitadi eptir honum yfir Hœls, Nordur i Flooka-Dal, og geck eptir Døgg-Sloodiñi, og fañ hañ

dauðañ

daudañ i Dalnum þar i Jard-Falli, hañ took af Fiotur, ec fitiadur var ad Footum hañs, og segir Signiju, ad Hestur heñar eñ goodi var daudur, og hvørniñ til hafdi borid, heñi þookti þetta Furda mikil, og qvad ei gott æ vita, vil eg segir hun, aptur snwa og ecki fara: Kollur qvad þad Ogeørandi, og ei duga ad bregda Ferd siñi fyri þessa Sok, og svo vard ad vera sem Kollur villdi, og fara þan øll samañ, og koma til Olvis-Vatns, og hafdi Grijmkell þar fyri margt Bods-Mañа. Var þar Veitsla mikil, og foor vel fram: Ad heñi lidiñi, foor Kollur heim og adrer Bods-Meñ, eñ Signij var-þar eptir, og Foostri heñar Grijmur eñ Litli. Grijmkell hafdi gefid Koll goodar Geafir, og taladi Vinættusamlega vid hañ, eñ þookti þeir Fedgar hafa sijnt Ovirding sijnu Mæali, er þeir sæatu ei Brwdkaupid. Hañ spurdi og Vijsu Torfa, eñ gat ei adgiørt: Geørdist þar nu sæatt med þeim Grijmkeli, þvi hañ var strijdlindur eñ Signij sæalæt, og vard sæatt uñ med þeim, þvi þau mæattu ei Vini samañ eiga: Nema Grijmur Litli, hañ gat svo geørt, ad bæadum lijkadi.

V. Cap.

UM Vorid kom Grijmur Litli ad Mæali, ad hañ villdi æ brott, og sagdi þad Signiju, þiki mier vant yckar æ milli ad gæanga, eudæ er svo best ad skilia segir hañ, ad hvørutveggium getist vel ad. Signij mæallti: Tala þu þetta fyrst vid Grijmkel, og haf hañs Ræad, þvi þa muntu sæa betri Kosti, Virdist mier honum vera vel til þijn. Grijmur geørir svo; Hañ talar vid Boonda, og segist æ brott vilia. Grijmkell svarar: Pad er mitt Ræad, ad þu siert heima, skalltu hafa betri Kosti, þvi miøg þarftu vid Signijar, eñ miøg þurfum vid þijn vid, til Umbboota Skapsiña ockar: Og svo vard hañ heima þau Misseri. Eñ ad Vori þar eptir, taladi Grijmur vid Boonda, ad hañ villde vijst brottu, eñ Grijmkell mællti æ mooti: Pa bid þu Godrijdar Høgnadootter til Handa mier, segir Grijmur, ef þu villt eg sie

Hiaa þier. Grijmkell svarar: Dijr geøriſt þu nu, þviad hier er Maña-Munnr mikill, þu ert Fee-lijtill, eñ Høgni Aud-Madur. Grijmur mællti: Vel mættu þo þeſſu ræda. Grijmkell svarar: Prooſa vaa eg þetta. Foor hañ i Haga-Vijk, og var hønum þar vel fagnad. Hañ bidur nu Goþrijdar, og hælde Grijmi frekt. Høgni ſagdi þær Mædgur þar meſtu uñ ræda: Grijmkell qvad þau ei þurfa mikid Fee fram ad leggia, ſkal hier og ecki rijkra vidleggia, eñ þu ſkallt ſiaalfur ræda Doottur þiñe ſyri mier: Eñ vel ſegir mier Hugur uñ Grijm. Vard þad ad Lyktum, ad Grijmur ſær Goþrijdar: Var Bod þeirra ad Ølvis-Vatne, voru Samfarir þeirra goodar, og voru þau þar uñ Veturiñ. Uñ Vorid vekur hañ til vid Boonda, ad hañ vill brott fara. Grijmkell svarar: Pad ætla eg nu Raad, ad gøra hier þetta Hallkvæmt, og laata þig ræda, þvi þu munt verda Priſa-Madur. Grijmur keypti þa Land Sudur fraa Kluſtum, og kallade Grijmſtadi, og bioo þar ſijdañ. Grijmkell feck Grijmi øll Bws-Efni: Eñ Høgni galldt fyri Landid. Grijmur rakade braat Fee ſamañ: Voru Tvø Høfud aa hvervetna þvi er hañ aatti, og vard hañ hafdur i betſtu Boonda Tølu.

Pad er ſagdt ad Signiju Valbrandsdoottur dreymde Draum eiñ, hun þookti ſiaa eitt Tre mikid i Reckin þeirra Grijmkells fagurt miøg, og mikid riett, ſvo ad øll Hwſiñ heima þar aa Bænum tooku Rætur Treſins: Eñ ei þookti heñi Bloom ſvo mikid aa vera, ſem hun villde. Hun ſagde Draumiñ Pordijſi Fooſtru ſiñe: Eñ hun ried ſvo, ad þau Grijmkell mundu Barn eiga, og munde þad verda mikid og Virduglegt; Qvadſt hun hyggia þad Sveiñ vera, og mun morgum þykia mikils uñ hañ verdt: Eñ ei kiæmi mier þad Uvart, þo Hagur hañs yrde ei ſem med meſtum Blooma, og ei er viſſt hañ hafi mikid Aſtrijki af Frændum ſijnum.

* *   * *   * *
*   *   *

VI. Cap.

## VI. Cap.

Itlu siidar fæddi Signij Svein, var hønum Nafn gefid, og kalladur Haurdur, hañ var sueña mikill Madur Vexti, og væñ ad Aliti, eñ ei Daglega Bræðgiør i Fyrstu, þvi hañ geck ei Einsamall, þa hañ var Prie Vetur ad Alldri: Þetta þookti Møñum Kinlegt, og ei Bræðgeørfilegt, sem hañ var þo Frægeørdalegur i øllu ødru. Griimkell var Blodt Mad ur mikill: Og var þad eiñ Dag, ad Hof-Helgi var halldiñ ad Ølvis-Vatni, og Signij sat a Stooli siinum a midiu Stofu-Goolfi, biooft hun þa uñ, og lea Men heñar, hid gooda i Knieam heñi. Sveñiñ stood upp vid Stock, og geck þa æfram hid Fyrsta Siñ ad Knieam Moodur siñar, og rasadi, svo ad Menid gooda hraut a Goolfid, og brast sundur i Priæ Hluti: Signij Reiddist mieg, og mællti: Ill var þijn Fyrsta Gaanga, og munu hier margar eptir fara, og verst en Siidasta. Þa qvad hun Vijsu.

Braut sundur fyri Sætu
Signes Hlioopa Men gooþa,
Jta trw ek eingiñ bæti
Auþar hlijþi þat siþañ:
Gangur ei gooþur eñs u.iga
Gulls lijstist hiñ fyrstj,
Hvor mon hedañ af vera,
Hañ vestur eñ effti.

Griimkell kom ad i þessu, Reiddist mieg Ordum heñar, greip upp Sveiniñ þeigiandi, Og qvad Vijsu.

Auds hefur Atta Beyþir,
Ogooþa fier Mooþur,
Hañ nam fyrst at fiña,
Fliood nii geingiñ Jooda,
Bræþi Ord þau er beyþir,

Breñu-

Breñu-Lioos mur keña,
Atqvædi lifa Lijda,
Leingur eñ nockur Dreingia.

Eñ svo var Grijmkell Reidur ordiñ, ad hañ fiñur Grijm og Goþrijdi, og bidur þau hañ uppfræda: Þau taka vid Hørdi feigiñ, og qvædu gooda Sending. Son attu þau er Geyr het, Eins Ars gamlañ, hañ var snemma Broadgior, og vel ad Iþroottum, skorti þo allt vid Hørd, uxu þeir upp bædir samt, og vard skivott ästudlegt med þeim: Signij undi nu verr eptir eñ ædur, og var nu sijnu færra med þeim Grijmkeli eñ firr: Eñ dreymdi Signiju Draum, ad hun saa Tre eitt mikid i Reckiu þeirra Grijmkels, þad var mest i Rootum, og Lima margt, geørdi oa þvi Bloom mikid: Þeñañ Draum riedi Foostra heñar, til Barn-Getnadar þeirra i milli, og mundi vera Doottir, og lifa eptir Ættstoor: Eñ þar þier þookti Tred Blooma mikid, mun merkia Sida-Skipti, þvi heñar Afkvæmi mun taka Trw þa er bodud verdur, og mun su betri.

## VII. Cap.

Eptir Þijng um Sumarid, bad Signij Grijmkel, ad hañ leyfdi heñi Nordur til Frænda siña, hañ qvadst mundu þad leyfa heñi, eñ þo skylldi hun ei leingur brott vera, eñ hoalfañ Moanud. Tveir Hws-Karlar fooru med heñi, og Þordijs Foostra heñar. Ridu þau svo Nordur i Reikia-Dal, og took Torfve vel vid Systur siñi, og bad ad hun væri þar um Veturiñ, qvad ella Astleysi vid sig: Hun qvad sier Hoalfañ Moanud lofad brott ad vera, eñ ei leingur. Torfi qv ad ecki ad þvi fara, let hun þa ad Bæn og Eggian hñs, voru þau ad Heimbodum uñ Veturiñ nidur i Bæ, vard þa Þordijs Foostra heñar Broad-dand, og var Iørdud i Þordijsar-Hollti, þad er skamt fra Bæ: Mikid þookti Signiju þetta, og foor þo heim til Breydaboolstadar. Litlu sijdar took hun Soott, er hun skylldi lettari af verda, og horfdi

miog

misg hunglega um Soottarfar henar Torfi taladi til vid hana, og qvad sier illa hafa sagt Hug um Soottarfar henar og Geaf-Ord i Fyrstu, og misg Hugsiædt til Grijmkels alla Stund verid hafa. Hun qvad ei Olijklegt til mikils dra-ge; Fæddi hun þa Meybarn mikid og Joodlegt. (*) Ei villde Torfi lata Barnid Vatne ausa, fyrr eñ hañ visse hvørn Enda feingi henar Soott; Andadist hun þa þar a Sængiñi, geørdi Torfi sig þa svo reidañ, ad hañ villde Barnid wtbera læta; Bad hañ Sigurd Foostra siñ taka vid Barninu, fara med þad til Reykiadals-Aar, og tortij-na þvi þar. Sigurdur qvad þad illt Verk vera, eñ nenti þo ecki ad synia Torfa, foor hañ þa a Stad med Barnid, og siindist þad vænlegt, leist hønum þvi ecki ad snara Bar-ninu wt a Aana, og geck med þad til Signijarstada, lag-di þad svo nidur i Gards-Hlide, og þookti lijklegt ad brætt munde fiñast. Grijmur Boondi Signijar-Son stood un-der Hwss-Gasli, og sa þetta, geingur til og tekur Barnid upp, lætur hañ þa Helgu Konu sijna bregdast Siwka, og segia hun hafi Mey þessa fædda: Hañ let hana Vatni ausa og nefna Þorbiorgu. Siidañ fiñast þeir Sigurdur og Grijmur, og qvad Sigurdur Torfa mundu Reidi leggia a sig, þegar er hañ visse Barninn Lijf gefid. Hier kañ eg Rood til (segir Grijmur) ad launa hier Happ þetta, sem þier til-fell, ad forda Barni þessu Dauda, og skal eg koma þier Utañ, og svo geørdi hañ; Foor Sigurdur þa Utañ a Eyrum med Styrk Grijms. Torfi kom til Signijarsta-da, og spyr þvi Helga læge, er hañ visse ei Von a Heilsu-Brest henar? Kiendi hañ þa Barnid hia heñi, og mællti: Allmikil Dyrd er i slijku, ad þid dyrfist upp ad fæda Barn þetta, er eg let wt bera. Helga svarar: All-naid er Grij-mi Barn þetta, og er hønum Vorkun a. Hañ spyr nu hvar Grijmur væri? Eñ er hañ sañ hañ, let hañ hid ver-sta um þessa hañs Dyrfsku, og spyr hvad hañ visse til Sig-urdar? Segir hañ fra sier Ills verdañ fyri þad, er hañ hafdi rofid sijna Skipan, eñ qvad þo Grijmkel Fodur Ba-rnsins.

(*) Mikil-Udlegt.

rußins verdañ. ſlijkrar Svijvirdingar. Grijmur qvadſt Sigurd i Veſtfiordur til Skips ſendt hafa. Reiddiſt Torfi þa eñ fraimar, eñ nenti þo ei ad deyda Meynna, þviad þad var þa Mord halldid ad bera wt Børn, þa þau voru Vatni auſiñ. Hefur hañ nu Meynna med ſier, og ſelur hana til Fooſtur's Ambaatt eiñi, eñ eingiñ fekk hañ heñi Klædi, og ei villdi hañ helldur miinka Verk Ambaattareñar.

## VIII. Cap.

Sigmundur het Madur, er geck yfir a Hwsgaung, Kona hañs og Sonur er Helgi het: Optaſt voru þau i Geſta-Hwſi þar þau komu, nema Sigmundur var iñe til Skemtunar. Pettа ſama Hauſt komu þau til Breidabooſſtadar. Pa mællti Torfi til þeirra: Ecki ſkulu þid i Geſta-Hwſi vera, og mun eg geora Sæmd til yckar, vil eg nu þyggia ad yckur Barnfooſtur, og ſkulu þid færa Meyu þeſſa til Olvis-Vatns. Peſſu jaatar Sigmundur, tekur nu Porbiørgu, bindur hana a Bak ſier, og fer brott ſijdañ. Petta hooktiſt Torfi allt geora til Svijvirdingar vid Grijmkel, eñ hookti þeſſe Madur vel falliñ til ad bera Meynna a Rekning; Villde hañ og ecki hætta hier betra Mañi til eñ Sigmundi, þvi hønum hookti einſkis ørvænt af Grijmkeli, ef ſa Madur hefdi hønum Barnid fært, er hønum hækti Hefud i. Sigmunde verdur nu gott til Giſtinga Stada, þvi aller hooktuſt ſkyllder vel vid Meynna ad geora, og þa ſem med hana fooru: Villde Sigmundur þvi fara allañ leingſta Veg. Hañ foor wt uñ Audakijl og Melahverfi, og allt hid Ytra uñ Nes øll, og utañ uñ Grindarvijk og Olves: Eñ ad Aptne eins Dags komu þau Sigmundur til Olvis Vatns, og var Sigmundur þa votur miøg og froſiñ; Hañ ſettiſt Utarlega, eñ Grijmkell ſat i Rwme ſijnu, og hafdi Sverd uñ Kne ſier; Hañ ſpyr hvør komiñ væri? Eñ hiñ ſvarar: Sigmundur Barnfooſtre þiñ Boondi ſæll, og Porbiørg Doottur þijn; Hun er allra Barna vænſt og betſt. Grijmkell mællti: Heyrid hvad Gaungumeñid ſeg-

ir, ad

ti, ad þu munder vera Barnfoostre miñ, allra Stafkarla armastur, og er ei einskonar Fiandskapur Torfa vid mig: Deyddi Moodurina, eñ rak brott Barnid aa Hwsgarug: Alla visse Grijmkell Raadagiord Torfa, og þvi villde hañ ekki ad Mæriñ være þar epter, og bad Grijmkell hañ brott dragast sem skiootast, nema hañ villde bardur vera, og bij-da hiñs Verra. Þau urdu nu brott fara med Meyuna: Fooru nu uñ Grijms-Nes, og løgdu Vanrækt aa Barn-id, þooktust ei vita þau mundu þvi nockurn Tijma af sier koma: Eñ vard Gistinga illt, og þooktust nu illa yfer Flu-gu gynid hafa, er þau tooku vid Meyuñe af Torfa. Þau komu til Grijmstada eiñ Dag til Dagverdar, og segiast ha-fa ungt Barn med sier: Grijmr qvadst siaa vilia þad Ung-Barn, er Meñ giøra nu mest Ord aa. Sigmundur qvad mikid fyrer ad leysa upp Barnid, og sagdi þad munde ecki gott ad hugga eptir þad; Var nu Barnid upp-leyst, og sijndt Grijmi. Hañ mælti: Sañlega er þetta Barn Signijar, heñar hefur þad Augun: Og munde Signij þad hafa ætlad mier, ad eg mundi ei aa Rekning rekast laa-ta; Eñ mikla Skøm vill Torfi giøra øllum Frændum Barns þessa, og jafnvel sialfum sier. Nu mun eg taka af þier Omaga þeñañ, og vard Sigmundur þvi all-feigiñ: Þar voru þau þañ Dag, eñ fooru sijdañ ofañ Botns-Heidi. Þess gaatu marger, ad Grijmur mundi sig i Hættu hafa vid Grijmkel Goþa, Saker Ofurkapps.

## IX. Cap.

UM Fardaga-Skeid uñ Vorid, reid Grijmkell Goþe Heimañ wt i Ølvis uñ Hialla: Eñ utañ uñ Arnar-Bæle, og uppepter Flooa i Oddgeyrs-Hoola, þadañ i Grijms-Nes, og gisti i Laugardal, og svo heim. Hañ stefndi øllum Bændum aa siñ Fund til Mosfells, þeim sem hañ hafdi hitt aa Tvegg-ia Naatta Fresti, þvi Grijmkell hafdi Goþord yfir þessum Sveitum øllum: Til Mosfells komu 60. Þijng-Mañа. Grijmkell segir þeim Naudsynia-Maal sitt vid Torfa, og segist

segiſt ætla ad fara Steſnu-Før til hans. Øllum þookti þad Vorkun: Þeir ridu um Giæbacka, ſvo til Klupta, og um Ok: So um nedri Leid, og ſvo æ Breidabooſtad. Torſi var ei heima, han var uppæ Hviitæv-Siidu. Grijmkell ſteſndi Torſa um Fiørræd vid Þorbiørgu, og Heiman-Fylgiu Signijar, og ſteſndi Mæalum til Alþijngis, reid heim ſijdan, og var un ſætt fiølrædara en um Mæl Grijmkels og Torſa: En er Grijmur Litle ſpyr þetta, ſer han heiman, tvt i Reykiar-Vijk æ Fund Þorkels Mæana Løgſøgu-Mans. Þeim vard talad um Mæl þeirra Grijmkels og Torſa: Spyrr Grijmur hvørnen han ætlar þau lykta? Han qvadſt ætla þorſa Ovænlega, þar Kappgiarner ætti Hlut i um. Giarnan villda eg, qvad Grijmur, ad þu ætter Hlut i ad ſætta med þeim, þviad þu ert vitur Madur og goodgiarn. Þorkell mællti: Vel ſer þier, og ſkal eg helldur Hlut i eiga ad þeir ſættiſt. Grijmur mællti: Eg ſkal geſa þier Fee til, og hellti i Kne honum 100. Sylfurs, og þackadi honum Heit ſijn. Þorkell qvad honum vel ſara: En ſkil þu, eg vænti þier Sættum en Heiti ei. Grijmur ſegir: Þad er meira verdt þu vænter, en þad fleſter Men heita til Fulls.

Grijmur ſer æ brott eptir þetta, lijdur nu fram til Þijngs, koma þa hvørutveggiu miøg Fiølmenir: Grijmur var en æ Þijngi, han foor ad hitta Þorkel Mæana, og bad han leyta um Sættir: Kvad han mundi ſæ þar mikin Sooma af, ef hn giæti ſætt þa Høfdingiana: Þorkell geørdi nu ſvo, ſan ſyrſt Grijmkel Goda, og vakti til vid han Mælin, han mællti: Þad er ſkiott ad ſegia, ad øll Skipti vor jafnſaman, og Frændſkap med vid Torſa, mun eg einſkis Geørd æ haſa, nema ſiælfs mijns, nema þad ſie ſkilid undir nidri, ad han gialldi ei minna en Toolf Hundr. Þriggia Alna Aura: Þorkell baud ad giøra um med þeim, en ſiæ megi þier hvad vidliggur, en vijs er Oſridur ef þier ſættiſt ecki, en vier munum þeim veita, er meir geørir ad vorum Ordum, og vor Ord vilia nockurs virda, og er þad meira verdt, en þad hier ſtendur i millꝫ. Grijmkell mællti þa: Þvi jæta eg, ad

ad Þorkell giøri um̃ Maalid, þvi hañ er kuñigur allri Rett-
ſyni. Nu ſier Torfi, ad þetta eitt hæfir, og ſegiſt þeſſu jaa-
ta. Þorkell mællti: Pad er mijn Uum̃mæli og Giørd, ad
Torfi greidi Grijmkeli Sex Hundr. Þriggia Alna Aura,
og leigi Sex Vetur, og gialldi þa Toolf Hundr. og letſi þa
haſa giørt ſem hønum ſijndiſt Rettiligaſt. Grijmkell ſvar-
ar: Lijka mun eg laata mier þeſſa Giørd, med þvi eg heſi
ſiaalſur Undirlagid, eñ mijkud þiki mier all-miøg Maaliñ.
Skal þetta Fec eiga Hørdur Son miñ, og haſa þad i Mood
ur-Arf ſiñ: Torſi qvadſt ei mundi giallda Hørdi Fee þetta,
nema hañ yrdi ei verr Fedrungur. Grijmkell qvadſt þetta
ei vijſt vita mega, hvørſu þad mundi verda, eñ qvad Hørdi
einga Boot i þvi, þo Al-mælid ſañadiſt þad: Ad Moodur-
Brædrum Jrdu Meñ Lijkaſtir; þviad þu ert ei Einhamur,
og bætti mier hønum verr eñ ei, ad haſa þad af þier, þa va-
rd Oop mikid. Jlla lijkadi hvørutveggium Geørdiñ; var
þo halldiñ, ætti ad kalla: Lidu af þau Miſſeri og ønur til:
Pa bad Grijmkell ſier Konu, Sigrijdar Þorbiarnardoott-
ur af Skaalmar-Neſi, var þvi Maali vel ſvarad, þvi Mad-
uriñ þootti Gøfugur og Ætt-ſtoor, þo hañ væri nockud
hnignandi, var hun hønum geſiñ, og var Bod þeirra ad
Ølvis-Vatni, urdu Samfarir þeirra goodar, og ſat Grijm
kell nu um̃ kyrt.

## X. Cap.

Illugi het Madur er bioo ad Hool-
mi æ Akra-Neſi, hañ var Son Hroolfs hins gam-
la Geytlendſka, Ulfſſonar, Grijmsſonar ens Haa-
leyſka. Broodir Jlluga var Sølvi, Fadir Þord
ar, Fødur Magnuſar Preſts i Reykhollti. Syſtur Jll-
uga var Halldøra, er ætti Giſſur Hvijti, Moodir Vilborg
ar, Moodir Jooruñar, Moodir Gobrunar, Moodir Ein-
ars, Fødur Magnuſar Biſkups. Jllugi var mikill Mad-
ur og ſterkur, og haſdi Aud Fiaar: Hañ fer til Ølvis-
Vatns, Boonords-Før, til Þurijdar Doottur Grijmkels
Goþa, er hañ ætti vid Fyrſtu Konu ſiñi. Grijmkell took

F þeſſu

þessu vel, þvi hønum var Illugi kūnugur: Fooru þar Festar fram, ei var Hørdur ad þessu Kaupi. Ad Tvij-Mallundi skylldi Brwdkaup heima ad Ølvis-Vatni. Ad þeirri Stefuu bisost Illugi heimañ vid Priatijge Mañna til Brwdkaups: Med hønum var Þorsteiñ Urna-Broodir ur Saurbæ, mikill Booudi, Þormoodur fra Brecku af Hvalfiardar-Strønd: Þeir fooru yfir Fiørd til Kialar-Neſs, og fyri Nordañ Mosſell, og ſvo upp hia Vilborgar-Kielldu, þadañ til Jooruklepsar, ſvo til Haga-Vijkur, ſvo til Ølvis-Vatns, og komu þar ſneña Dags; Illugi mællti: Hvar er Hørdur? Eg ſie hañ ecki, edur er hønum ecki bodid? Grijmkell qvad hønum vera ſialfbodid, eñ ecki hef eg neſut hañ ſierlega til þeſs, Illugi qvad: Pad ſoomir ecki, og rijdur a Grijmſtadi, þar voru aptur Hurdir, þeir drapu a Dyr, Geyr geck til Hurdar, og ſpurdi hvør uti væri? Illugi ſegir til ſijn, og ſpurdi ad Hørdi? Geyr qvad hañ iñi vera, Illugi bad hañ ut koma, þvi eg vil ſiña hañ: Geck Geyr iñ, og kom ut aptur, ſagdi Hørd ſiwkañ, Illugi geck til hañs og mællti: Med hvøriu Mooti er Sovtt þijn Hørdur? Hañ qvad ecki mikla vera, Illugi mællti: Giarnañ villda eg þu færir til Bods mijns med mier, og legdir Vinattu til mijn, Hørdur qvad hañ hafa maatt þetta firr mæla, ef hønum þækti all-mikid undir, vil eg hvørgi fara, þvi liſtt hafi þier mig ad þeſſum Malum kvadt. Illugi fær ecki af Hørdi utañ ſtoor Ord, og rijdur a brett vid ſvo-bwid. Litlu ſijdar mællti Geyr til Hardar: Pad er meiri Soomi vid førum til Bodſins, Hørdur qvad ſier ecki uñ, eñ let þo ſvo vera. Rijda þeir nu eptir þeim, og ſem þeir ſiñaſt, vard Illugi katur, og let ecki a ſier ſiña Stoor-Jrdi Hardar: Þeir ridu nu til Bodſins, og var þeim vel tekid. Hørdur ſat vid Hønd Illuga, Veitſlañ foor vel fram og ſkøruglega: Ridu þeir allir ſeñ fra Bodinu, allt til Vilborgar-Kielldu, þar ſkilldu Gøtur, þa mællti Illugi: Nu munu vid ſkiliaſt Hørdur, og villda eg Vingott væri med ockur: Og er hier Skiølldur er eg vil gefa þier, Hørdur mællti: Ærin a Grijmur Kooſtri miñ Flagſpilldur, og

vil-

vil eg ecki þiggia, Illugi mællti: Þigg þu þa Hrijng þēnañ,þoott þu vilier ei Skiølldiñ, Hørdur took vid Hrijngnum, var þad goodur Gripur, eñ ei veit eg segir hañ, þvi mier bijdur svo Hugur uñ, ad þu munir ei vel halldra Mææg semd vid mig, eñ þo muñ þad sijdar reynast. Sijdañ skilldu þeir, og vard fææt uñ Kvediur, eñ skilldust þo sættir ad Siñi. Eñ er Hørdur kom heim, mællti hañ vid Þorbiørgu: Þier vil eg gefa Hrijng þēnañ, er Illugi gaf mier, þvi eg añ þier allra Mañā mest, eñ mun þu Geyf þessa eptir mig daudañ, þvi eg veit þier verdur audid ad lifa mig. Þorbiørg mællti: Og qvad þetta.

Verdir þu Þeim skulu Mañi
Svo ek vite georla, Mijn ad soñu,
Vopnum veigiñ, Biturleg Raad
Edur i Valfalliñ, Ad Bana verda.

Var þa Hørdur 12. Vetra, er hier var komid Søgunñe, og var hañ jafn uñ Afl hinum sterkustu Møñum i Sveitum: Leid nu svo fram, þar til Hørdur var 15 Vetra, eñ Geyr var þa 16. Var Hørdur þa Høfdi hærri eñ aller Meñ adrer: Og svo var hañ Skygn, ad ei mætti hønum Sioonhverfing gæra i Augum, sææ hañ allt epter þvi sem var; Hærdur var hañ Mañā betst, Ramur ad Afle, Mañā betst Syndur, og uñ alla Hluti vel ad Iþroottum bwiñ: Hvijtur ææ Hørund, Bleikur ææ Hææt, Breydleitur og Pickleitur, Lidur ææ Nesi, Snareygdur, og nockud Opiñeygdur, Herdabreidur, Mid-mioor, þickur under Hønd, Utlima smææt, og ad ølla vel vaxiñ. Geyr var nockud Ostierkari, eñ þo nææstega eingiñ hañs Jafningi: Var hañ og mikill Iþroottamadur, þo ei til Jafnus vid Hørd.

## XI. Cap.

Hetta sama Sumar kom Skip af Hafi ææ Eyrar, þad ætti sææ Madur er Brynjulfur het, Þorbiarnarson, Griootgardsson, Vijkverskur Madur. Priææiju Mañā voru ææ þvi

Skipi, og komu þeir Ut fyri Þijng: Brynjulfur reid til Þijngs, og var i Bwd Grijmkels Goþa. Opt qvad hañ sier Forvitne aa ad siaa Hørd: Var nu og svo til, ad þeir Hørdur og Geyr komu aa Þijngid, þviad þeir skildu alldre, og var Furdu Asiwdlegt med þeim Foostbrædrum: Skildi þaa hvørki aa uñ Ord nie Verk. Eñ er þeir Brynjulfur og Hørdur fiñast, fell vel aa med þeim. Þa mællti Brynjulfur: Ecki sijnist mier Of-søgum af þier sagdt, og virdist mier þier velhendt Utañ ad fara; Vil eg gefa þier þar til hæalft Skipid vid mig. Hørdur mællti: Mikid tekstu aa Hendur vid Okuñañ Mañ, þo vil eg þessum þijnum Maalum vel svara, og heita þo ei fyrr ad fara, eñ eg veit Fararefni mijn, þvi eñ eru lijtil ad svobwnu. Geyr mællti: Vel er slijkt bodid Foostbrooder, vil eg þessa fijsandi vera. Hørdur mællti: Ei neñi eg ad bidia Grijmkel Til-lagna. Geyr bad hañ ei gøra þad, þvi hañ añ þier mikid, villda eg þu værer Einfalldur i þessum Raadum, og tæker Bod Brynjulfs med Þøckum. Nu koma þeir heim af Þijngi, sagdi Hørdur Systur siñi: Hun qvad Brynjulf goodañ Dreing vera munde. Geyr fijsti eñ Utañferdar; Villda eg, segir hañ, þu tæker Helga Sigmundarson þier til Þioonustu Mañs. Eñ Þorbiørg qvad sier Ugiæfusamlegt lijtast allt Lid Sigmundar, mun mier alldre wr Briossti gaanga Harmur saa eg hefi af þvi feingid, þa þau baaru mig aa Rekning. All-lijtt er mier uñ Helga segir Hørdur, þvi oss hefur mest Svijvirding af hønum leidt. Helgi sækir eptir miøg, eñ Geyr stydur Maal hañs: Riedist þad af, ad Helgi skylldi med þeim fara, og segir Hørdur þeim munde þetta sijdar mis-raadid. Eptir þetta bidur Hørdur Grijmkel Fødur siñ Feaar, og mællti til 60. Hundrud, og være i 30. Hundrud Moorend. Grijmkell mællti: Miøg kemur frañ i slijku Offe þiñ og Agyrnd; Hañ geck fraa þeigiandi. Sigrijdur Kona Grijmkels qvad þetta fyri Lof, þviad þessu nærri mun vera sem hañ hefur ætlad sier til Kaupa: Þeir geordu svo, færdu Vøruna alla til Sigurdar-Mwla under Fell, fooru sijdañ

ſijdañ Utañ med Brynjulfi þegar uñ Sumarid, og komu vid Biørgvin heilu Skipe.

## XII. Cap.

Haralldur Kongr Grǽfelldur ried þa fyri Norveige. Leitudu þeir ſier þar Skieñu-Viſtar, og feingu þad med Uñgǽnge Brynjulfs, þvi hañ geørdi vid þǽ ed beſta. Þad var eiñ Dag ad Brynjulfur var rideñ ǽ Land upp, ad Geyr geck Eiñſamañ, og hafdi Felld yfir ſier: Geyr ſier hvar Flockur Mañа foor, og var eiñ i blǽrri Kǽpu. Þeir ſpyria Geyr ad Nafne? Hañ ſegir ſem var: Eñ ſǽ qvadſt Arnþor heita ſem fyri þeim er, og vera Fee-Hyrder Guñhilldar Konga Moodur. Þeir føludu ad Geyr Felldiñ, eñ hñ villde ei ſelia. Þa greip eiñ af hønum Felldiñ; Geyr ſtood eptir, og heldt ǽ Sverdi. Þeir gabbudu hañ ſaſt, og ſøgdu ad Mørlandi hefdi ei faſt halldid Felldi: Reiddiſt hañ þa Gabbi þeirra, og Miſſer Felldſins, þriſtur i hañ, og hnickiaſt þar uñ nockra Stund. Arnþor ſeiliſt þa til Felldſins, og ǽtlar ad hnickia af hønum, eñ Geyr brǽ Sverdi, og hiou ǽ Hønd hønum fyri framañ Alboga, ſvo af tookt, nǽdi hañ ſvo Felldinum og foor heim ſijdañ, þvi þeim vard bilt vid hañ: Þeir tooku til Arnþors, þvi hañ mǽddi Bloodrǽs. Hørdur ſpyr, þa Geyr kom heim, þvi Blood vǽri ǽ Sverdi hañs? Geyr ſegir ſem farid hafde: Þad lǽ til ſem þu geørdir, ſagdi Hørdur, og mun ei duga Adgeørdalauſt. Nu mǽddi Arnþor ſvo Bloodrǽs, ad hañ fell daudur nidur i Høndum þeim, ſem hiǽ hønum voru. Sender nu Hørdur eptir Islendingum: Þar var Tindur Hallkelsſon; Brooder Illuga Svarta. Þeir bregda vid ſkiott, og koma ǽ moots vid Hørd: Verda nu ſamañ 23. Þa var blǽſid i Bǽnum og ſendt epter Kongi, og ſagdt ad drepiñ vǽri eiñ Kongs Mañа; Kemur Kongur ſkiootlega, og bidur fram ad ſelia Geyr, þvi hañ hefur drepid Vin miñ, eñ Fee-Hyrder Moodur miñar. Hørdur ſvarar: Þad ſoomer oſs ei ad ſelia fram Vin vorn under;

Vopn ydar: Vilium vier biooda ydur Siœlfdœmi fyri Mañiñ, eñ uñed Geyr Lijfs-Grida. J þvi kom Brynjulfur heim er þeir toludu þetta, og mœllti: Herra, geørid svo vel og takid Fee fyri Mañiñ, og virdid til Heidur ydar, eñ Vinœttu mijna, þvi margur Madur muñ Lijfi tijna, œdur eñ Geyr sie drepiñ. Kongur mœllti: Pad muñ eg geøra fyri þijn Ord Brynjulfur, ad sœttast vid Geyr, og taka Fee-Bœtur fyri mijna Hønd, eñ ecki fyri Moodur mijna. Brynjulfur þackade hønum, og galdt Fed fyri Geyr, og gaf þo Kongi goodar Geafir, þvi hañ var Vellaudugur; og hiñ betsti Dreingur. Eñ er Kongur var brott fariñ, mœllti Brynjulfur: Ecki treystunst eg ad hallda ydur hier fyri Guñhilldi, vil eg senda ydur Austur i Vijkena, œ Fund Þorbiarnar Fødur mijns til Tranßis og Hallds. Hørdur mœllti: Þiñe Forsiœ vil eg hlijda, þvi þu ert goodur Dreingur. Fooru þeir þœngad, og took Þorbiørn vel vid þeim, Saker Ordsendingar Sonar sijns, vorn þeir þar vel halldner, og þooktu agœtir Meñ. Eñ ecki þookti flestum Møñum Helgi Sigmundsson bœta mundu uñ Skaplund Hardar. Ondverdañ Vetur kom Brynjulfur þœngad, sœtu þeir svo med goodañ Vinskap. Uñ Vorid mœllti Þorbiørn vid þœ, ad hañ villde senda þœ Austur til Gautlands, œ Fund Harallds Jarls Vinar mijns (segir hañ) med skijrum Jardteiknum, þvi eg veit Guñhilldur kemur hier skiott, get eg þa ecki halldid ydur fyri heñi. Hørdur qvad þœ Fegda rœda skylldu, og bwa svo Skip sitt.

## XIII. Cap.

Hœr Vorar, skilia þeir Foost-Brœdur vid þa Fedga med Vinsemd, og helldu Austur til Gautlands, œ Fund Harallds Jarls, tekur hañ vel vid þeim, þegar hañ sœ sañar Jardteiknir Þorbiarnar Vinar sijns. Jarl œtti Son er Hrooar het, var hañ i Hernadi. Doottir Jarls het Helga, Kveña vœnst, tekur Jarl Hørd hid nœrsta sier i Rwm Hrooars Sonar sijns.

sins. Ad Hausti kom Hroovar heim, og var honum vel fagnad, bokar Hordur fyri honum, og geordist skiootl Vingan med þeim Hordi og Hroovar: Leid nu svo fram til Joola, og er Men voru i Sæti komnir Joola-Kvolld, þa stood Hroovar upp og mællti: Hier stiig eg a Stock, og streingi eg þad Heit, ad eg skal hafa brotid Haug Soota Vijkings fyri ødur Jool, Jarlin mællti: Mikil Heitstreinging, og muntu ei verda þier Einhlijtur ad enda, þviad Sooti var mikid Troll i Lijfinu, en hallfu meira sijdan han var daudur. Hordur stood þa upp, og mællti: Mun ei Sanlegt, ad filgia þijnum Sidum: Streingi eg þad Heit, ad fara med þier i Soota-Haug, og ei firr brott þadan en þu, Geyr streingdi þad Heit, ad filgia þanngad Hordi, edur hvort han villdi þanngad fara edur Annarstadar, og ecki firr vid han skilia, en Hordur villdi. Helgi streingdi þad Heit, ad filgia þeim hvort þeir færi, og meta eingan meir, Hordur svarar: Vijsast ockur verdi ei laangt a milli, og hyxa þu um þad, ad ei standi af þier beggia ockar Lijflaat, og þo fleyra: Svo villda eg væri segir Helgi: Jarli var vel til Hardar, og qvadst hellst vænta þar Frama Hroovari Syni sijnum til Framqvæmdar, sem Hordur væri.

## XIV. Cap.

ENN sem Vor kom, bioost Hroovar vid Toolfta Man til Soota-Haugs, þeir ridu um Skoog þickvan, og einum Stad, sa Hordur lijtin Af-Stijg, han rijdur þenan Laun-Stig, þar til han kemur i eitt Rioodur, þar sier han standa skrautlegt Hws, og Man fyri Dirum i blaarøndri Heklu, han heilsar Hordi med Nafni, Hordur took vel Kvedin hans, og spurdi han ad Heiti? þvi eg þecki þig ei segir hn, þo þu laatir kunuglega vid mig: Biorn heiti eg segir han, og kenda eg þig, þa eg sa þig, og hef eg ecki sied þig firr, en Vin var eg Frænda þina, og þess skalltu niota af mier, veit eg þid ætlid til Soota-Haugs, han ad briota, og mun ydur þad ei greidt veita, ef þier erud einir i Attaumunum: En ef svo

ser, sem eg get til, þa vitia þu miin, viñist ydur ecki Haugiñ ad brivota. Skilia þeir nu, ser Hørdur moots vid Hrooar, koma til Haugsins sneiña Dags, taka til ad briota, og komast ad Kvølldi nidur ad Vidum: Eñ um Morguniñ eptir var Hauguriñ heill. Svo foor og Añañ Dag, þa reid Hørdur moots vid Biørn, og segir honum hvar komid var. Biørn qvad: Nu foor sem mig vardi, þvi ei var mier Okuñugt, hvørt Troll Sooti var: Nu er hier Eitt Sverd, er eg vil faa þier, og stijng þu þvi i Haugs-Brotid. Hørdur kemur nu aptur til Haugsins, Hrooar segist þa fraa vilia gaanga, og faast ei vid Fianda þeñañ leingur, og þess fijsiu fleyri. Hørdur svarar: Ei mun tiaa ad efna ecki Heitstreinging sijna, skulum vier Pridia Dag til reyna, og svo geørdu þeir. Brutu þa Haugiñ ad Vidum, eñ sem firr. Hørdur stijngur nu Sverdinu Biarnar-Naut i Haugs-Brotid, sofa þeir af um Noottina, og er þeir komu til um Morguniñ, hafdi ecki uñistkipast. Hiñ Fiorda Dag brutu þeir Laang-Vidu alla, eñ Fiñta Dag luku þelr fraa Hurdu. Hørdur bad Meñ varast Bust og O-Daun þañ ut-legdi, eñ hañ sialfur stood ad Hurdar-Baki aa medañ Odauniñ var sem mestur, urdu þa Tveir Meñ Braad-daud ir af Fijlu þeirri sem ut-lagdi, þeir høfdu eigi hast Raad Hardar, þa mællti Hørdur: Hvør vill nu gaanga i Haugiñ? Eñ saa þikir mier eiga þad ad geøra, sem Heitstreingdi ad viña Soota, þa þagdi Hrooar: Eñ er Hørdur saa ad eingiñ þordi i Haugiñ, keirdi hañ nidur Tvo Festar-Hæla, og mællti: Nu mun eg i Haugiñ gaanga segir hañ, ef eg skal eiga þa Priaa Gripi þadañ er eg kijs mier, Hrooar qvadsi þvi jaata, og sampicktu þad allir: Pad vil eg Geyr segir Hørdur, ad þu halldir Festiñi, þvi þier trwe eg Maña betst. Sijdañ foor Hørdur i Haugiñ, eñ Geyr heldt Festiñi. Ecki fañ Hørdur Femætt i Hauginum, og segir hañ nu vid Geyr, ad hañ vill ad hañ færi i Haugiñ med, og hafi med sier Elld og Vax, þvi hvørutveggia hafi mikla Nætturu, og svo geørir hañ. Geyma þeir nu Hrooar og Helgi Festina, eñ Geyr foor i Hauginñ. Hørdur fañ þa Hurd-

um

um sijdir, og brutu þeir hana upp, þa vard Landskiælfti mikill, og flockudu Liooſin, varp þar ut Odaun miklum, og vard þar i Hauginum Skrimningur mikill: Þar ſaau þeir Skip mikid og Fee i. Sooti ſat i ødrum Stafni, og var Ogurlegur ad ſiaa. Geyr ſtood i Dyrunum, en Hørdur geck til, og villdi taka Fed. Þa qvad Sooti þetta.

Þvi ſijſti þig
Hørdur at brioota
Hws Mollddwa,
Þott Hrooar bædi,
Hef ek allrei
Hriſtir Hloodorma
Angur geordt
Um Æfi mijna.

Þa qvad Hørdur.

Þat geørda ek
Þegn at ſiña,
Og fornan Draug
At firra Audi,
Þviat af aullum nu
Alræmt er vordit,
At hvørgi moni
I Heimi fundin
Verri Maþur Vopnum ſtijra.

Þa ſpratt Sooti upp, og rañ aa Hørd, vard þar hardur Adgaangur: Hørdur vard Aflvana, took Sooti ſvo faſt aa, ad Holld Hørdar hlioop ſaman i Hnickla. Hørdur bad Geyr tendra Vax-Kertid, og braa Soota ſvo vid þad, ad hañ Omætti upp, og fell ſijdan nidur. Hørdur gat þa naad Gull-Hrijng af Hendi Soota, þad var ſvo goodur Gripur, ad Meñ ſegia, þad eingiñ betri Hrijngur, og ecki jafn goodur hafi komid til Islands: Eñ er hañ miſti Hrijngiñ. Qvad hañ.

Hørdur rænti mig
Hrijngnum gooþa,
Hælſu ſijdur
Villd ek hñs um miſſa
Eñ giørvallrar
Grana-Birdar,
Hañ ſkal þier verda
At Høfud-Bana,
Og ellum þeim er eiga.

Hørdur qvad.

Þo hitt ek viſſa, At halldaſt mundi,

Aull Um̃-mæli, Skaud afgømul
Endi Gooþverka, Leingur nioota
Pa skilldi eigi Lægisbrijma.

Vijst skalltu þad vita segir Sooti: Ad sa Hrijngur skal þier ad Bana verda, og øllum þeim sem eiga, utañ Kona eigi. Hørdur bad Geyr bera ad honum Lioosid, og siaa hvad Vingiarnlegur hañ væri: Og i þvi steyptist Sooti i Jørd nidur, og villdi ei bijda Lioossins, skildi svo med þeim. Peir Hørdur tooku Kistur allar, og baarn til Festar, og Fee allt er þeir fundu. Hørdur took Sverd og Hiaalm er Sooti hafdi aatt, og voru hin mestu Gersemi. Peir kippa Festiñi, og urdu þeir þess varir, ad Meñ voru brott af Haugnum. Hørdur las sig upp eptir Festiñi, og komst svo ur Haugnum, eñ Geyr batt Fee i, og droo Hørdur svo upp. Eñ þad er ad segia fraa Hroovari og Helga, þegar Jardskiaalftiñ vard, æddust Meñ allir, þeir ed uti voru, nema þeir, og urdu ad hallda þeim, eñ er þeir fundust, vard þar mikill Fagnadar-Fundur, þooktust þeir Hørd og Geyr ur Heliu heimt hafa: Spurdi Hroovar Hørd ad Tijdindum:
Eñ hañ qvad Vijsu.

Atta ek ei vid lettañ
Audar hlijn nie blaudañ,
Pañ var vondt at viña,
Vom i Heidiñdoomi,
Veyt ek þa Lioos nam lijta,
Lioot vard Asiaan Soota,
Villdi Geimir Galldra
Greypur i Jørdu steypast.

Peir fooru nu brott med Faung sijn: Hvørgi fundu þeir Biørn, og þeincktu þeir Oþiñ verid hafa. Mikid Ageæti þookti Møñum Hørdur hafa uñid i Haug-Gangañi, hañ taladi þa vid Hroovar: Nu þikiunst eg eiga þa Priaa Gripi sem eg kijs, Hroovar qvad þad satt, þa mun eg

segir

segir Hordur kioosa Hriing, Hialm og Sverd: Siidan skiptu þeir øllu ødru Fee; og urdu ásaattir: Ecki villdi Jarl hafa af Feenu þa þeir budu hønum, qvad Hørd maklegastan mest af ad hafa. Sitia þeir nu i Sooma miklum þan Missire.

## XV. Cap.

Hoo Vori mællti Hørdur, ad han vill fara vdi til Islands, en Jarl og Hroovar qvaddust giarnan villdu, ad hann færi ei aa brott, þvi þar hefdi ei slijkur Madur komid; Hordur mællti: Geora skal eg ydur Kost aa þvi, giptid mier Helgu Jarls Dootur, Jarl qvadst þvi vel svara mundu: Tooknst þau Raad med Sambicki Helgu og Hroovars. Hørdur uñi mikid Helgu Konu siñi, og hafdi þa Fee mikid. Þeir løgdust i Hernad um Sumarid, allir Foostbrædur, Hørdur, Hroovar, Geyr og Helgi; og høfdu Fiogur Skip, stiirdi siñ hvørin þeirra; vard þeim bædi gott til Feaar og Frægdar: Og foorn vel i siinum Hernadi.

## XVI. Cap.

Nu er þar til ad taka, sem firr var fraa horfid, ad Sigurdur Torfa-Foostri, foor utan aa Eyrum, kom vid Norveg, og var þar um Veturiñ: En um Sumarid eptir, kom hañ sier i Skip med Kaupmoñum, og foor Sudur til Danmerkur, þar ried þa fyri Haralldur Kongur Gormsson. Kemur Sigurdur sier til Kongs, og i Kiærleika vid hañ, þviad hañ reyndist hiñ Røskvasti Madur. Ox hønum bædi Fee og Metnadur, þar hañ kemur sier i Lid med Wijkingum, og reyndist eñ mesti Garpur: Og foor svo fram nockur Sumur, þar til Sigurdur var Høfdingi fyri Wijkinga Lide, og stiirde sialfur 5. Skipum. Þad var eitt Sumar, ad hañ sigldi fyri Balagards-Siidu: Og er hañ kom ad Sundum þeim er Svijna-Sund nefnast, var Kvølld komid. Þeir voru þar um Noottena: Eñ um Morguniñ verda þeir ei

ir ei fyrr varer vid, eñ þar reru ad þeim Vijkingar a 6. Skipum: Þeir spurdu hvør Skipum ætti ad rada? Madur stood i Liptingu a einu Skipi, bæde mikill og svartur, sa qvedst Biørn Blaasijda heita, af Ætt Ulfs hins Ham-rama, og spurde hvør fyri væri? Sigurdur sagde til sijn: Hvørt vilie þid (segir Biørn) ganga a Land Lausgyrdter, eñ fa oss Skip og Fee? Edur vilie þid beriast? Sigurdur svarar: Helldur munum vier veria Fee vort og Frelsi, og falla med Sæmd, þo Lids-Munur sie. Sijdañ bwast hvørtveggiu, og slæst þar i hina hørdustu Sookn, og snarpasta Bardaga, geingur Sigurdur vel fram: Eñ þar kemur, ad hrodiñ voru øll Skip Sigurdar, eñ 3. af hinum. Stendur Sigurdur þa eiñ uppe, og vardist leinge, voru þa borner ad hønum Skillder og Haudtekiñ: Vard hañ þo 7. Maña Bane adur: Var þa komid ad Kvølldi Dags. Var hañ nu a Høndum bundeñ eñ Footum fiøtradur, og feingner til 6. Meñ ad geima hañs um Noottena, eñ hañ skyllde høggva ad Morgne: Vijkingar laau nu a Lande. Sigurdur spurde hvørier skemta skylldu? Vardmeñ qvadu hønum Ovant nu Skemtun, þar hañ skyllde a Morgun deya. Ecki hrædist eg Dauda miñ, segir Sigurdur, og mun eg kveda ydur Kvæde, ef þier viljed: Þeir qvadust þad þyggia mundu. Kvedur hñ nu þangad til þeir sofna aller: Hañ vellti sier nu þangad sem Oxe ein laa, getur hañ þa skorid Streingiñ; Þvi nærst gat hañ spyrnt af sier Fiøtrum, med þvi Mooti, ad af hønum geingu bæde Hælbeiniñ: Sijdañ drepur hañ Vardmeñ, eñ kastar sier til Sunds, leggst til Lands, geingur yfir þvert Nesid, þvi hañ treystist ecki ad glettast vid Vijkingana: Þar sier hañ liggia 4. Skip, eñ Bwder a Lande, geingur hañ diarflega ad Tiølldum, og var þa Morgnad; Hañ spyr hvør þar væri Forrads-Madur? Þeir søgdu ad sa heti Hørdur sem fyri þeim var, og Hrovar: Eñ spurdu i mooti hvør hañ være? Hañ segir hid Saña, geck fyri Hørd og spurdi aimælltra Tijdinda: Kañast hñ skiott vid Sigurd, og bydur hønum til sijn. Sigurdur qvedst

þad

bad byggia munde, og sagdi honum fraa Svadils-Ferdum siinum, og bad Hørd rietta Hlut siñ vid Vijkinga: Honum bookti bad ecki vænlegt, qvadst bo gøra mundu sem hañ bæde. Bregda beir ba vid skiott, rydia Fei af Skipum; eñ bera aa Griootˊ, rova siidañ frañ fyri Nesid: Eñ er Vijkingar verda vidvarer, bregda beir skiott vid, og bykiast sakna Vinar i Stad, bar Sigurdur var brott. Slær bar i Bardaga med beim: Gaanga beir Foostbrædur vel frañ, Sigurdur Amælislaust. Eñ er aleid Dagiñ, rædur Hørdur til Uppgaungu aa Skip bad sem Biørn Blaasiida var fyri, Geyr begar eptir honum: Geck med siinu Bordi hvør; og draapu hvort Mañs Barn er aa var, fyri framañ Siglu. Biørn hleypur ba i mooti Hørdi, var hañ ba komiñ aptur-yfir Siglu-Bitañ, og høggur Biørn til Hardar med Tvieggiudum Mæker: Hørdur kemur ecki fyri sig Skilldenum, stockur bvi øfugur frañ-yfir Siglu-Bitañ, eñ Mækeriñ kemur i Bitañ svo hardt, ad fal baada Eggteinana: Eñ er Hørdur sier ad hañ lijur eptir Hogginu, høggur hañ bædi hardt og snart uñ bverar Herdarnar, og sundur Mañiñ fyri nedañ Briingspaliñar med Sverdinu Soota-Naut, let Biørn Blaasiida svo Lijf sitt. Eñ Geyr hefur nu drepid hvort Mañs Barn a Skipinu: Eñ Hrooar og Helgi hrodid eitt Skip, eñ Sigurdur Añad; Eñ Vijkingar flydu aa bvi Fiøorda: Tooku beir nu Herfaang mikid, og binda Saar Maña siña. Sigurdur greri svo, ad honum stood fyrer eingu, fylgde hañ Hørdi alla Æfi siidañ, og bookti eñ raskvaste Madur. Sigldu beir til Gautlands uñ Haustiid, og saatu bar i goodu Yferlæte.

## XVII. Cap.

Geyr fijstist nu til Islands-Ferdar, og bad Hørd gefa sier Farar-Leyfi: Hørdur bad hañ fara, eñ hallda bo Vinaattu vid sig, Helgi og Sigurdur voru eptir med Hørdi, eñ Geyr foor aa brott, og gaf beim seint Biri, komu i Vijking Austur, og

hofdu

høfdu Tiølld a Landi. Þetta frettir Gunhilldur Kongá-Moodir, og sendir Men sijna ad drepa Geyr: Þeir koma um Noott, og beria þeim Tialld-Kwlur, og fella a þa Tiolldin: Geyr komst ein a brott med Vopnum sijnum, og vard adur Riju-Mana Bani. Foor han þa til þess han san Brynjolf Þorbiarnarson, en þeir Fedgar komu honum i Skip, og feingu honum Fee nockud. Panveg þikir Mønum sem Gunhilldur hafi badad han med Fiolkyngi sinni til Norvegs, og lijkadi heni nu ed versta, er Geyr komst undan. Letu þeir sijdan i Haf, og komu ut a Eyrum um Sumarid: Var þa Andadur Grijmur Fadir Geyrs, og svo Høgni Moodur-Fadir hans i Haga-Vijk, en þær Goþrijdur og Þorbiørg, vardveittu Bw a Grijmstødum: Foor Geyr nu þangad, og var þar um Veturin, en um Vorid keypti han Land ad Nedrabotni, og færdi þangad Bw sitt, vard þad skiott nærsta Gagnsamt, og fooru þær þangad Goþrijdur og Þorbiørg

## XVIII. Cap.

Indridi Þorvalldsson og Þorgrijma Smid-Kona, giørdu Bw i nedanverdum Skoradal, þar sem nu heitir a Indridastødum, en Þorgrijma Moodir hans bioo þa i Hvami, var Þorvalldur Fadir hans þa daudur. Sumar þad sem Geyr bioo fyrst i Botni, kom ut sa Madur er Ormur het, a Vijkarsskeidi vid Ølvis-Aa, þeir brutu Skipid, en tijndu ølly Fee, þeir voru Fimtaan saman, og feingu eingar Vistir: Hafdi Ormur verid fyri Tveimur Vetrum ad Hvijtaa, og þeigid Vist med Indrida. Reid Indridi nu med Þria Men moot Ormi, og qvedst ei vita vilia, ad han væri Raadlaus, baud honum heim med sier, og øllum Skipverium hans: Þetta þadi Ormur, og þackadi honum Bod id. Ridu þeir nu allir Sunan hiaa Backarhollti, og svo um Grafning, og svo um Villdsfelld, svo hiaa Ulfliotsvatni, þadan til Ølvis-Vatns, og komu þar i Rockri. Grijmkell heilsar þeim, en baud þeim ecki, bidur Indridi

þa

þa Þorbiargar Doottur Grijmkels. Er þier Boondi seg-
ir það kunigur Upprunimin, og svo Fear-Hagur, villda
eg vita skiott, Svar þijn hier um. Grijmkell mællti:
Ecki munu vid skiotta þessu svo skiott fram, og ecki mun
þetta Raadast svo brædt: Vard þa ei af Bodum hans vid
þa, og reid Indridi i Haga-Wijk um Kvolldid. Enn er þeir
voru riduir, mællti Hwsfreyia Sigridur vid Grijmkel:
All-kynlega leyst þier a þetta, ad gypta ei Indrida Doott-
ur þijna, Grijmkell mællti: Giorum sem þu villt, þa var
sendt eptir þeim til Haga-Wijkur, og ridu þeir aptur med
Sendi-Mønnum: Var þa tekid vel vid þeim, toludu þeir
nu um Maalid, og vard það rædid, ad Indridi skylldi eiga
Þorbiørgu, og skal hann hafa med henni 60. Hundrud, og
skylldi þegar vera Brwdkaup ad Olvis-Vatne. Indride
skyllde siaalfur abyrgiast hvørsu þeim lijkadi, sem ei voru
vid. Indridi let þar eptir Lid sitt, enn foor med 3ia Mann
til Botns, og sookti Þorbiørgu heim: Hann foor Jooru-
Kleyf, og svo til Grijmsstada, þadan Botns-Heidi.
Geyr var ecki heima. Það mælltu margir Menn ad Ge-
yr munde hafa viliad eiga Þorbiørgu, enn ei mællti hun i
mooti þessum Maalum, nie ad fara med Indrida: Þau
fara þar til þau koma til Olvis-Vatns, er þa bwid til
Brwdkaups. Grijmkell foor til Hofs Þorgerdar Hølda-
Brwdar, og villde mæla fyri Raadahag þeirra Þorbiarg-
ar: Enn er hann kom i Hofid, voru Godinn i Busle miklu;
og Burt-Bwninge af Stollunum. Grijmkell mællti:
Hvøriu sæter þetta, Edur hvørt ætle þier? Hvørt vilie
þier nu Heillum snwa? Þorgerdur mællti: Ei munum
vær til Hardar Heillum snwa, þar sem hann hefur rænt
Soota Broodur voru Gullhrijng sijnum hinum Gooda,
og geørdt hønum marga Skømm adra; Vil eg þo helldur
snwa Heillum til Þorbiargar, er yfir henni Lioos mikid, svo
mig ugger ad það skilie med ockur, enn þu munt eiga skamt
epter U-lifad. Hann foor brott, og vard reidur miøg God-
unnum, took sier Elld, brendi Hofid og øll Godinn, og qvad
þau skylldu ei optar segia sier Harm-Søgur: Og um Kv-
ølldid

elldid er Meñ sætu under Bordum, vard Grijmkell Goþi Brœd-daudur, og jardadur Sudur fra Gardi. Alla Fear-Vardveitslu bar under Illuga og Indrida, þvi Hørdur var ecki hier a Landi. Ecki villdi Indride skipta sier neinu af Fear-Vardveitslu eptir Grijmkel, nema Heimañ-Fylgiu Þorbiargar. Illuge tyok vid Fear-Vardveitslu uñi Haustid: Eñ uñi Vorid var skipt Fee vid Sigrijde, og hafdi hun Land ad Olvis-Vatne, og þyokti good Hwsfreya.

## XIX. Cap.

Nockrum Vetrum sijdar, kom ut Haurdur Grijmkelsson a Eyrum, og Helga Kona hañs, Sigurdur Torfa-Fovstri, Helgi Sigmundarson, og Priatijge Maña, þa var Hørdur Priatijge Vetra ad Alldri: Hañ hafdi þa i einu utañ verid Fimtan Vetur, og ordid Gott bœdi til Fear og Virdingar. Illugi hiñ Raudi kom fra Hoolmi, baud Hørdi til sijn og øllum hañs Møñum, og foor sialfur i mooti þeim, og geordi allt hid Sæmilegasta til þeirra. Hørdur took þvi vel, og þyokti Stoormañlega bodid, foor Hørdur med Illuga, og hafdi hœlfañ Pridia Tug Maña: Var þeim veitt Muñgat allañ Veturiñ, med hiñi mestu Ransu, og lijkadi Hørdi allvel. Illugi baud hønum Fee sitt allt, þad er hañ hafdi vidtekid. Hørdur qvad sier tijdara ad heimta Fee sitt af Torfa Frænda sijnum, og qvadst mundu fara ad fiña hañ. Sijdañ foor hañ med Toolfta Mañ, og kom ad Breidabolstad, hitti Torfa, og heimti Fee sitt: Torfi qvadst ei vita gløgt uñi Fearheimtur þær, þvi eg er ecki skylldugur ad giallda þier Fed, ef þu ert verri Fedurungur, Hørdur qvad eñ al-lijtt reint, eñ kvedst eptir Fenu leyta mundu, reid sijdañ brott, og sagdi Illuga, eñ Illugi bad Hørd vægia, og vænti eg þa fari betur med yckur, þvi Torfi er vitur Madur og Griñudigur: Hørdur qvad þad fiærri fara skylldu: Hefur hañ avallt illa til vor giørt, eñ alldre vel: Vil eg þegar fara og laata Møñum

safna:

sasna: Hordur sasnadi Mønum um Akra-Nes, en Illugi fyri Nordan og Vestan, um Hey-Nes og Garda, til Fells-Axlar, og um Klofastadi, en Hordur fyri Austan Kluku-dals-Aa, þeir ridu upp um Midfell, og svo til Breidabool-stadar. Torfi var uti, og fagnar þeim vel, Illugi leytar um Sættir: Kvad þeim vera Naudsyn aa ad sættast, svo uaanum Mønum, Torfi let meiri Von, Hordur hefdi rett ad tala, mun han verda Mikilmeni segir han, miklu hefur han skiootara vidbrugdid, vil eg una honum Sætta, og hier Land-Kosta: Eg mun faa honum i Hendur hier med Jordini Priaatige Kyra, og Praatige Hioona, mun eg faa allt til Bws þesse Misseri: Vil eg vita hvad Mana han vill vera, han skal aabyrgiast Fee þad allt, er han tekur vid, bædi Land og Kvik-Fee. Illugi qvad þetta vel bodid, og þad þaadi Hordur, og sættust ad þvi. Paangad foor Hordur um Vorid, og galldt Illugi honum Fee sijn aull: Gagnsamt var Bw Hardar, Ol han Gesi og Gaangaudi: Einger urdu til ad leyta aa Hord, enda var han og O-aa-eytin vid adra: Han bioo þar Tvo Vetur.

## XX. Cap.

Audur het Madur er bioo aa Auds-Stødum gagnvart Uppsolum, edur helldur ned-ar, Einræn Madur og Audugur, Kynlijtill, en þo kijsin nockud: Sigmundur het Son hans, han aatti Merhrysse Moosktiovtt ad Lit 2. Honum þookti Hrossen good. Illuge en Raudi hafdi gefid Horde Stood Hross Fiin saman, þegar han foor fraa Hoolmi, Svort ad Lit: Til þeirra vonduft Merar Auds hinar Skioottu, og hlupu brott wr Hogum sijnum. Illa qvad Hordur sier þad lijka, ad Audur gaf of-lijtin Gaum ad Hrossum sijn-um. Faatt vard um Frændsemi þeirra Torfa: Ecki kieptu Men mjog vid Hord, enda aatti han Gott eina vid Men. Pa bioo Torfi ad Uppsolum, han hafdi Godord, og þookti Udæll og illur Vidskiptis.

Anad Sumar foor aa somu Leid, ad Hross Auds fooru

fraa honum og til Hrossa Hardar: Hørdur bad ad færa Hross siin yfir Fiallid, svo ei findu Merar Auds: Pa var svo geordt, og fundu þo Merar Auds Hrossen. Pad bar til uñ Eingi-Verk, ad Sigmundur Audsson kom heim fraa Stoodinu, og hafdi ei getad nææd Hrossum siinum: Pa sendir Hørdur Helga Sigmundsson ad veita honum Lid. Helgi foor med honum illu Skapi, og qvad Aud vallda sliikum Speñum og U-nææduni: Eñ sem hañ kemur til Hrossaña, sier hañ ad Sveinuñ hefur sært Hrossen. Helgi mællti: Pu munt vera illt Mañs-Efni, og skalltu ei mørgum goodum Gripum spilla hedañ af, og vo þa Sveiñuñ. Litlu siidar kom Hørdur ad og mællti: Pu ert illt Mañs-Efni, hefur drepid Ungmeñi eitt, og þo Saklaust, og væri þad maklegt eg dræpi þig, eñ nu mun eg ei þvi neña, þo þad væri betur ad þu lifder ei eptir sliikañ Overknad, og mun þetta vera Upphaf Ugiæfu þiñar; Er þad nu frañkomid sem mier sagdi Hugur uñ, og svo liiklegt ockur draga þetta bædum til Bana, og flelrum ødrum, med þvi fleira sem þa ber vid, og lagid vill verda. Hørdur kastar þa Felldi aa Sveiniñ, og fer heim siidañ. Litlu siidar foor hañ til Audsstada; Og þa Hørdur geck vestañ i Gard, geck Audur nordañ i Gard; Og er þeir mættust, mællti Hørdur: Pad hefur tekist illa, og þo i moti miinum Vilia, er Son þiñ var drepiñ, vil eg nu setia þier Sialfdæmi, og siina þier ad mier þykir þetta all-illa hafa farid, og lwka þegar upp allt Fed: Og munu þad flestir tala, ad þar sie ei Von betri Maalaloka ad svo-vorxnu Maale. Audur svarar: Nu hef eg hitt Torfa Vin miñ, og seldt honum Maalid, og hefur hañ heitid mier ad fylgia þvi til fremstu Laga: Enda mætti eg þad allvel sia, ad þier kiæmud hardt nidur Breidbælingar. Hørdur mællti: Pad hefur þu illa giørdt, ad rægia ockur Torfa samañ, og nu skalltu þess giallda; Braa hañ þa Sverdinn Soota-Naut, og hioo Audur sundur i Tvo Hluti, og Hwskarl hañs. Svo var Hørdur þa reidur, ad hañ brendi Bæiñ og allt Audvirkid, og Tvær Konur er ei villdu wtganga; Eñ er Torfi

spyr

spyr þetta, qvad hañ eingañ fyrr slijks dyrfst hafa, ad geɾa slijk Udæma-Verk vid Vine sijna, eñ Hørd ei gott að Eyrum gd leida: Og er hañ spurde ad Hørdur var ei heima, foor hañ til Breidabolstadar Stefnu-Før, og stefndi Mꜳlunum til Alþijngis, og foor heim sijdañ. Eñ er Hørdur spurdi þetta, sendi hañ Helga Sudur til Eindrida Mꜳgs sijns, bad hañ rijda til Þijngs siña vegna, svara Mꜳlum sijnum, og biooda Sætter, qvadst hañ þad ei geta af sier feingid, vegna Fiandskapar vid Torfa, ad biooda siꜳlfur neinar Sættir. Helgi foor og inti Eindrida Ord Hardar. Eindride svarar: Eg hefi heitid Illuga Rauda ad fara að Kialarnes-Þijng, eñ biooda vil eg Hørdi hijngad til mijn. Helgi svarar: Miñe Naudsyn mun hier að Kialarnes-Þijng, eñ ad svara fyri Mꜳg þiñ Iafnrøskvañ, og muntu vera Skand ein. Þorbiørg mællti: Þetta væri Urlausn nockud, ef Dugande Madur færi med Eyrindum, eñ nu kañske ad eingiñ verdi, hefur og þesse Ugiæfa af þier hlotist. Helgi foor heim, og sagdi Hørdi ei frꜳ Heimbode Eindrida, eñ qvad hañ hønum ei Lid vilia veita. Herdi fañst fꜳtt um, og qvad Vijsu.

> Miñ vard Magur Hraña
> Meir ok svo er hañ fleirum
> Einatt illur at Raunu
> Alls i Mala-Ferlnni:
> Þorgrijmu ried helldur heima
> Hvarflaus vera Arfe,
> Ofs er Stꜳla-Stijrer
> Strijdur, eñ verri sijdañ.

Og er Meñ komu til Þijngs, og droo ad Doomum, spurde Torfi hvørt nockur villde Fee-Bootum uppe hallda fyri Hendur Hardar, mun eg taka Fee-Bætur, (segir hñ) ef nockur vill biooda, eñ ei neñi eg ad kasta Mꜳli þessu undet Fætur mier. Eingiñ komu hier Svør að mooti, og

urdu þeir Hørdur og Helgi sekir bæder: Eñ er Hørdur spurde Sekt sijna, qvad hañ Vijsu.

Geøra ried Geimir stoora
Gullhrijnga æ Alþijnge,
Ossa eñ at Vissn
Ella fæge Utlægañ,
Uñ Hyske Heiþar Poska,
Og hier uña Myskunar,
Oss er eñ eingi æ þessu
Otti Grettis Sootta.

Ecki funduft þeir Torfi þa uñ Siñ.

## XXI. Cap.

Litlu sijdar foor Hørdur i Botn, med allt sitt, til Geyrs Fooſt-Brooðurs sijns, eñ ædur hañ foor, brendi Hørdur øll Hws æ Bæum og svo Hey, qvad Torfa skylldi þar lijtlu Fee næ: Hafdi Hørdur þa Sextæn Vetur og Tuttugu, er hañ fell i Utlegd og foor i Botn, øll Hioon hañs voru med hønum, og Fylgdar-Meñ Geyrs høfdu þar Setu. Þad var eiñ Dag, ad Torfi qvad Vijsu.

Vijst mon Torfi treysta
Tandraudañ til Sauda,
Hædiñ Høldur at rijdi
Heim i Botn at Gotnum,
Hreitur get ek vid nam veyti
Vargi svo Þegnar biargi,
Ef jafnmargir Meidar-Tiorgu
Mættu fiñast hier iñi.

Þeim vard Kostnadarsamt þau Misseri, hvìad miñi urdu Tilsaung eñ birsti: Eñ Geyr gædi nu verr Bw-Sijslu eñ ædur. Hinggust þa upp Kvik-Feen, svo ad uñ Sumarid

marid eptir fæddi Bwid valla Foolkid. Uñ Hausſid eptir, vorn upphøggviñ øll Kvik-Feen Giørſamlega, utañ ſœinar Kijr. Og eiñ Morgun uñ Veturiñ fyri Jool,took Geyr œ Footuin Helga, hañ ſtood upp ſkiott, og fooru þeir yfir Hœls til Vatnshorns i Skoradal, Boondi var ecki heima, hañ var i Brwdkaupi Kolls ad Lundi i Reykiadal: Geyr mællti: Nu mun verda ad afla til Bws hañ Veg ſem verda maa, og ſkalltu giøra añadhvørt, ad hallda Vørd, edur gœnga i Fioos, Helgi kaus ad hallda Vørd, Geyr geck þa iñ i Fiooſid, og leyſti upp Nautiñ, Tveir Meñ voru œ Hey-Stœli og Tefldu, brañ þar fyri þeim Lioos, þa mællti Añar: Hvørt eru Naut laus i Fiooſi? Añar þeirra qvad Konur mundu uñvallda, ſer nu utar undir Dyrnar, og ſem Geyr ſœ þad, vo hañ hañ, og er þeim dvelſt er firri foor, ſer Añar, og hafdi ſlijka Før ſem hiñ. Siidañ leiddu þeir brott Yxni Sio Vetra gamallt, og ſem þeir komu heim til Botns, lijkadi Hørdi illa, og qvadſt œ brott ſkylldu, ef þeir villdu ſtela, og er lijkara til ad ræna, verdi ei ødru vid komid. Geyr bad hañ ecki vid ſig ſkilia fyri þeſſa Søk, ſkalltu og øllu eiñ-rœda ockar œ milli, og ſvo var, ad Hørdur foor ecki brott: Eñ er Kønur komu til Fiooſs i Vatnshorni, þookti þeim Undarlegt, ad Nautiñ voru øll laus, ætludu þær Nauta-Meñ ſofa mundu, og bundu Nautiñ: Eñ er þær komu ad Hlødu-Dyrum, fundu þær þa dauda, voru þa Boonda Ord giørd, og kom hañ heim, var Fiølrædt uñ þetta. Ei villdi Hørdur lœta neyta Yxniſins, firr eñ Madur var ſendur til Vatnshorns, ad ſegia hid Sañа uñ Ferdir Geyrs: Segia þad og nockrir Meñ, ad Hørdur muni hafa bætt Boonda ad Vatnshorni fyri Meñ ſijna og Yxnid.

## XXII. Cap.

Kollgrijmur hiñ Gamli, Son Alfs ur Prœndarheimi, bioo ad Ferſticklu i þañ Tijma, hañ var Landnœms-Madur: Hañs Son var Hallur, Fadir Kollgrijms, Fadir Steins, Fadir

Fadir Kvisis, Fadir Kala. Kollgrijmur sendi Ord Botn-Verium, ad þeir ættu saman Knatt-Leyka og Skøsu-Leyka, a Sandi, þeir jáatudu því, tvokust nu upp Leykar, og helldust fram uñ Jool: Geck þeim Botn-Verium optast verr, þviad Kollgrijmur stillti svo til, ad Strendur urdu sterkari i Leykum: Mikid lögdu Botn-Veriar til Skoos sier, medañ þeir geingu ut, var þa skorin Yxnis-Hwdiñ til Skiæda, bikir summum Møñum sem Kollgrijmur hafi viliad forvitnast uñ Yxnid, og því lagt Leykana. Þooktist hañ þa keña Yxnis-Hwdina a Footum heim, kølludu þeir þa Yxnis-Meñ: Feingu þeir þa eñ Hardleikid, tøludu þeir þa uñ er þeir komu heim, ad þeir þooktust fa Hardleykid, og gvadust upp mundu gefa bratt Leykana. Hørdur mællti hart vid þa: og qvad þa ecki ad eins Al-Klækis-Meñ vera, þar þeir þirdu ecki ad hefna sijn, og eru þier, segir hañ, til Illgiørda eiña bwnir: Þa voru þeir komnir til Hardar, Þordur Køttur, og Þorgeyr Girdilskegge Sekur Madur. Nu lætur Hørdur giøra sier Horn-Skøsur uñ Noottina, voru þa bwnir til Leyks: Hørdur svor, og med hønum þeir allir, þo sumir væri stirdir miøg. Ønundur Þormoodarson fra Brecku, var a mooti Herdi skipad, Vinsæll magur og Afl-rañ: Sa Leykur var all-hardur, eñ adur Kvølld kom, laan Atta Daudir af Strand-Verium, eñ einginn af Botn-Verium. Fooru nu heim hvørtveggiu: Ønundi fylgdu allir þeir er utañ voru af Strønd, eñ er þeir komu skamt iñ fyri Brecku, þa bad Ønundur þa fara fyri, eñ eg vil binda Skoo miñ: þeir villdu ei fra hønum ganga; Hñ settist nidur helldr hardt, og doo i því, og er hañ þar Jardadur, er heitir Ønundar-Hollt: Ecki voru Maal þesse sookt a Hønd Hørdi ne hañs Møñum. Þorsteiñ Gull-Knappur bioo þa a Pirli, Grælindur og Undirførull, Slægur og vel Fear-audugur, eñ Þorvalldur Blaaskeggur bivo a Sandi, gilldur Boondi, og mikill fyri sier.

* * * * * *
* * *

## 23. Cap.

## XXIII. Cap.

Hefur het Madur Þorsteinsson, Sølmundarson, Þoorolfsson Smiør, hañ bioo a Stickis-Velli i Brynin-Dal, hañ var Goþ-ords-Madur rijkur, og Garpur mikill, hañ var kalladur sijdar meir Refur hiñ Gamli, Þorbiørg Katla het Moodir hañs, hun bioo i Hriisum, hun var Fiolkuñug miøg, og mesta Galldra-Kona. Kiartan het Broodir Refs, hañ bioo ad Þorbiarnarstødum, mikill Madur og sterkur, illa Skapi fariñ og Ojafnadarsamur uñ alla Hluti, var hañ Furdu Ovinsæll af Alþijdu. Ormur het Madur Vinsæll miøg og Smidur mikill: Þesser allir Meñ voru i mooti Botn-Verium. Þa spyria þeir Hørdur af Þijngi, ad Meñ ætla ad safnast samañ og drepa þa, eñ Kvik-Fee voru svo høggveñ, ad þeir hlutu ad ræna. Geyr bad þa Virki giøra, og søgdu þeir mundu seint sækiast: Hørdur qvadst ætla, ad þeim muni setiñ Matur, og vil eg fara ut i þañ Hoolm, sem hier liggur fyri Landi a Hval-Firdi, fyri Blaasteggs-Aar-Osi. Hoolmur sa er brattur og vijdur sem Stødul-Gerdi. Þau Atfør høfdu þeir uñ Þijng med allt sitt: Þeir tooku Ferin mikla i Saurbæ, fra Þorsteini Ugsnabrodd til Fulltijngis sier, eñ Sexæring fra Þormoodi a Brecku, eñ Sela-Bæit feræ dañ fra Þorvalldi Blaastegg. Þeir giørdu sier Skaala mikiñ, og horfdi Añar Endi i Land-Nordur, og voru Dyr til Vesturs a midium Skaala: Allt stood Skaaliñ Sudur a Hamariñ, eñ gaanga maatti fyri Nordañ, milli Kliss og Dyra þeirra, sem a Nordañ voru, ad eius var þar ægeingid: Eñ Vestur fra Skaalanum voru Leyni-Grafir. Þau voru Løg þeirra, ad hvorium Mañi skylldi fyri Biarg kasta, ef Þrem Noottum leingur læge: Allir skylldu skylldir vera ad fara hvørt sem Hørdur villdi, edur Geyr, ef þeir væri sialfir i Før. Skipt var Verkum med þeim øllum: Øll voru Hws uppteckiñ i Botni ad Vidum, og flutt wt i Hoolm.

Sꜳ Hoolmur er nu kalladur Geyrhoolmur, took han̄ Nafn af Geyr Grijmssyne. Attatiju Man̄s An̄ars Hundrads voru i Hoolminum þa flestir voru, en̄ allrei færri en̄ ꜳ hinum̄ Atta Tug, þa er fæster voru. Þesser voru nefnder: Hørdur Grijmkelsson, og Helga Jarlsdootter Kona han̄s, Grijmkell Son þeirra og Biørn, han̄ var Tvæ-Vetur; Geyr og Sigurdur Torfa-Foostri Gun̄hilldar-Son, Helgi Sigmundsson, Þordur Køttur og Þorgeyr Gyrdilskeggi, han̄ var ein̄ Tillaga verstur af øllum Hoolm-Verium, og fyrstur allra Illvirkia: Þꜳngad drifu nær aller Ostila-Men̄, sooru Eida þeim Hørde og Geyr, ad vera þeim holler og trwer, og hvør þeirra ødrum. Þorgeyr Gyrdilskeggi og Sigurdur Torfa-Foostri, fluttu utan̄ frꜳ Blꜳskeggs-Aa Vatn vid Toolfta Man̄, og fylltu þar af Sela-Bꜳtin̄: Sijdan̄ helltu þeir i Ker þad er var wt i Hoolminum; Leid nu svo fram̄ um̄ Hrijd.

## XXIV. Cap.

Þorbiørg Katla hælldist opt um̄ þad; ad hun qvad alldre Hoolmveria mundu sier Mein giøra, svo treysti hun framt ꜳ sijna Fiølkijngi: Og er Hoolmveriar spurdu þetta, qvadst Geyr þad reyna vilia, og biooſt heiman̄ eptir Þijng vid Toolfta Man̄. Þordur Køttur foor med hønum, en̄ er þeir komu i Dalin̄, sꜳu þeir ad Fee var rekid Nordur yfir Fell, þad er siendur ꜳ milli Bryniu-Dals og Botns: Let Geyr þa Tvo vardveita Feriuna, sat Þordur Køttur i Hꜳlsi og hellt ꜳ Vørd: En̄ er Þorbiørg Katla kom ut, vard hun vijs af Fiølkijngi sin̄i og Fram̄sijni, ad Skip var komid ur Hoolmi, hun sækir þa Sveipu sijna, og veyfdi upp yfir Høfud sier, giørdi þa Myrkur mikid ad þeim Geyr: Hun sendi þa Ord Ref Syni sijnum, ad han̄ safnadi Møn̄um, urdu þeir saman̄ Fim̄tꜳn, og komu ad Þordi Ketti Ovørum i Myrkrinu, tooku han̄ Høndum og drꜳpu han̄, og er han̄ grafin̄ i mdan̄verdum Kattar-Høfda.

da. Þeir Geyr komust til Siooar, og took þa af Myrkrid: Saau þeir þa giorla, hvar þeir Refur voru, rieduft þeir þa aa og bordust: Allir Meñ voru drepnir, þeir ed Geyr høfdu filgt, eñ Prijr af Ref, komst Geyr eiñ aa Skip ut i Hoolm, og var Saar miøg. Helga var goodur Læknir og grædi hañ ad Heilu: Otti var Moñum i Hoolmi ad þessu, og þegar Saar Geyrs voru grooiñ, stie Hørdur aa Skip vid Toolfta Mañ, og foor þegar iñ til Bryniu-Dals, kvadst uu eñ vilia reyna Kotlu, Tveir giættu Skips, eñ Tijn foorn ad sækia Fee. Katla skook þa eñ Sveipu sijna, og giørir Ord Ref, kvad nu vera Slæg i ad hitta Hoolm-Veria, er saa nu fyri þeim Madnriñ Haarfagri, er mestur Garpur þitist vera. Refur kom vid Siøtta Mañ, og fell Hordi ecki Siin af Gølldrum Kotlu, og fooru þeir Leid sijna, sem þeir høfdu æklad, hiuggu svo Feed aa Skip sitt, ad Refur horfdi aa og hañs Meñ, til þess þeir høfdu fullfermt, fluttu sijdañ ut i Hoolm, og skildi svo med þeim

## XXV. Cap.

ANN er aaleid Sumarid, foor Hørd ur med Tuttugu og Fioora Meñ til Saurbæar, þviad Þorsteiñ Augsna-Broddur hafdi hælst uñ þad, ad Skreppa Foostra hañs Fiølkuñug, mundi svo geta giørdt med siñi Fiølkijnge, ad þonum yrde ei Mein ad Hoolmverium: Og er þeir komu ad Lande, vardveittu 7. Skip, eñ 17. geingu upp, saau þeir þa Gradung mikiñ uppaa Melnum upp fraa Nautunum: Þeir villdu glettast vid hañ, eñ Hordur villdi þad ecki. Tveir Meñ af Lide Hardar brugdu aa sitt Raad, og siefndu i moot Gradunginum, eñ Bole braa vid Hornunum i hvortveggia Siñ, siefndi añar þeirra aa Sijduna eñ añar aa Høfudid: Spiootid floo aptur fyri Brioosi þeim, og doou bader. Hordur mællti: Hafi Meñ Raad mijn, þvi ei er hier allt sem sijnest. Nu koma þeir aa Bæiñ: Skreppa var heima og Dætur Boonda, eñ Þorsteiñ var i Seli i Kwvallar-Dal; Þar heitir nu Svijnadalur. Skreppa lauk upp

Hyrdslum øllum i Hwsum: Hun geørdi Sioonhyerfing-ar; þvi þar sem þær sætu a Palli, sijnduft heim standa Priu Eſki. Meñ Hardar tøludu uñ ad þeir villdu brioo-ta Eſkiñ: Hørdur bañadi þad. Þeir fooru þa Nordur fra Gardi, og villdu vita hvørt þeir finde Fee nockud: Nu sæu þeir hvar Gyllta ein rañ med 2ur Griiſum Nord-ur wr Gardi, og komuſt fyri hana, og þooktuſt þeir sia Mañfiølda mikiñ fara i mooti ſier med Spiootum, og all-vænum Vopnum: Og nu ſtiekur Gylltañ Nordañ-Hluſt-iñar med ſijnum Griiſum. Geyr mællti: Førum til Skipsſ, vid eigum vid Lidsmun. Hørdur qvad ei Raad ad reña ſvo ſkioott, ad øllu Oreyndu. J þvi took Hørd-ur upp Stein mikiñ, og lauſt Gylltuna til Bana; Og er þeir koma þar ad, ſia þeir þar liggur Skreppa daud, eñ Dætur Boonda ſtoodu upp yfir heñi, þar ſem Griiſarner høfdu verid. Nu ſæu þeir ad Skreppa var daud, og þetta var Nauta-Flockur er i mooti þeim foor. Þeir ræ-ku þau til Skips, og hinggu Farm a Ferinna af Kiøti. Geyr took Sigriide Boonda-Doottir nauduga a brott, og færde i Hoolm, eñ Skreppa var Jørdud i Skreppu-Gile. Þorſteiñ Gullknappur ſat i Fridi fyri Hoolmver-ium, þvi þeir høfdu ſættſt a Laun, ad hañ ſkyllde flytia alla Einhleypa Meñ i Hoolm, og ſegia þeim allar Vielar Lands-Maña: Hañ hafdi uñid þeim Eida ad hallda þetta allt, og ſvijkia þa i eingu; Eñ þeir høfdu heitid ad ræna þar ecki.

## XXVI. Cap.

Yrer Jool uñ Veturiñ, fooru þeir Toolf ſamañ i Hvañ til Orms a Reattar-Peli: Ormur var ecki heima, hañ var fariñ ad Eyrind-um ſijnum; Bolli het Præll hañs, er añadiſt avallt Bw, þegar Ormur var ei heima. Peir brutu upp Uti-Bwr, og baaru wt Voru og Mat: Þeir tooku Kiſtu Orms, er Gripir hañs vorn i, og fooru med þetta allt a brott. Bolla þoodti ſier illa tekiſt hafa, þad ei var vakad

yfir Utibwriuu; Hañ qvadst skylldi naa Kistuñi af Hoolm-Verium, edur saa Bana ella, og bad þaa segia Boonda, ad hañ væri med 18. Meñ ad Naustum hina Fioordu Noott þadañ, og lieti hlioodt yfir. Bolli biist nu: Hañ hafdi slitna Skoo, og Voru-Bodar Kusl; Hañ var i Brynin-Dal ena fyrstu Noott, og þo ei ad Bæuum; Hañ kom til Þorsteins Gullknapps, og nefndist Þorbiørn: Sagdist vera sekur Madur, og vilia wt til Hardar, og koma sier i Sveit med þeim. Þorsteiñ flutti hañ i Hoolm; Og er þeir Hørdur og Geyr saau Mañiñ, leitst þeim ei eiñ Veg baadum. Geyr þookti Naad ad taka vid honum, eñ Hørdur qvadst ætla Niooſnar-Mañ. Geyr ried þo, og foor hañ heim aadur Eida: Margt sagdi hañ þeim af Landi, og qvadst vera sisiadur; Hañ lagdist nidur og svaf um Dagiñ. Eñ þeir Geyr komu ei upp Kistuñi, og spurdu Þorbiørn hvørt Naad hañ legdi þar til? Hañ qvad þess ecki vant, eru þar ei i nema Smiidunar-Tool, qvad Ormi þad eitt Tioon þykia i Naane þeirra Hoolmveria, er Toola-Kista hañs var brott: Var eg þa (sagde hañ) ad Mos-Felli, er Naan spurdist, mun eg færa hønum Kistuna, ef þier vilied. Litill Slægur þookti Geyr um Kistuna, þar ecki var añad i heñi eñ Smijda-Tool. Tvær Nætur var Þorbiørn þar, og talade svo um fyri þeim, ad þeir letu lausa Kistuna: Ecki var Hørde um þad ad þeir hefdi nockur Naad ad honum, qvad þau mundu illa gefast. Geyr villde þo raada, og fooru med hana 6. samañ um Noottena til Nausta Orms: Pa kallade Þorbiørn þeir skylldu uppstanda og taka Pioofana: Hlupu þeir þa upp er fyrir voru og sooktu ad þeim, er þeir hofdu borid Kistuna aa Land og upp i Naustid, og sett hana under Hasiñ aa Skipi Orms. Geyr greip þa eiñ Ararstubba, og bardc aa Tvær Hendur: Vardist hañ þa all-hardlega. Eñ er hañ naadi Skipe siinu, hafde hañ laatid 4. Meñ: Took Ormur þa Feriu, og reri eptir Geyr. Hørdur took til Orda heim i Hoolmi: Ecki er Olijklegt ad Geyr þurfe Mañna vid, og ei þykinnst eg vita hvørneñ Þorbiørn saa hefur gefist hønum;

um; Took hañ þa Skip og reri iñ a Fiørdiñ. Eñ er hañ kemur ad Elltingum þeirra Orms og Geyrs, sneri Ormur undañ og ad Lande: Eñ Geyr foor wt i Hoolm med Hørde. Ormur gaf Bolla Frelsi, og øll Bws-Efni, og bioo hañ sijdañ ad Bollastødum, og vard Audigur Madur.

## XXVII. Cap.

Eptir Þijng uñ Sumarid, fooru þeir Haurdur og Geyr vid Tuttugu og Fioora Meñ a Feriu eiñ Aptan, og lendtu i Siaalskvijum fyri Dyrum ad Hoolmi, þeir letu Sex giæta Skips, eñ Atiaan geingu upp fra Akra-Felli. Hørdur sa ad Madur geck ut a Hoolmi, i Skirtu og Lijn-Brook, þetta var uñ Soolar Uppraas, og kendi Hørdur þar Illuga, þvi hañ var allra Maña skiguastur. Nu vard Illugi var vid Ferd þeirra, og sendi þegar Meñ i Garda og Hey-Nes, og svo til Kw-Vallar-Aar, ad safna Møñum, og ei ried hañ firri til vid þa, eñ hañ hafdi Priaatijge Maña: Og er Hørdur sier Mañ-Søfnudiñ, bad hañ Geyr kioosa hvort hañ villdi, drepa Feed, giøra þad til, og ferma Skipid, eda vill hañ veria Illuga, og Møñum hañs, svo ei kiæmust þeir til, Geyr qvadst helldur giøra til Feed: Nu taustu þad segir Hørdur, er nier þookti miklu betra, em eg þessu vanari, mun eg veria þeim vid Toolf Meñ, og skulum vær aavallt vera jafn-margir, eñ þeir þvi færri, sem Feed giøra til: Tekst Atlaga med þeim Hørd og Illuga, og var þad ad Fraagiørdum, hvørsu Rosklega Hørdur vardi Kvijarnar, þviad þeir Illugi sooktu hardt ad. Søfnudust þa Meñ ad Illuga, svo þeir urdu samañ Fiørutijge, eñ Hørdur vardi med Toolf Meñ: Urdu nu Meñ hañs miøg Saarir, þvi ad Lids-Munur var mikill. Sigurdur, Torfa-Foostri dugdi all-hraustlega, sem hañ var aavallt vanur. Helgi Sigmundarson vardist og Karlmañlega. Þorkell Girdilskeggi hlood Feriuna, eñ Geyr var ei Handsceini ad drepa Feed, og giøra til. Niju fellu af Hørdi, adur Feriañ var hladiñ, eñ er þeir stign a Skip, sooktu hinir hardt ad, og

fellu

fellu þa Sex af Hørdi, firr eñ þeir lietu Skip-Bordid hlijfa
sier. Hørdur vard saar af Brijutrølli, og allir voru þeir
nockud Saarir. Illugi lætur þa samna Skipum, eñ Hørd-
ur hafdi meitt øll Stoor-Skip. Landvirdingur stood a
mooti þeim Hørdi, bundu þeir þa Saar sijn, og reru med
hinu Nirdra Landi, uñ Katta-Nes og Karlmañs-Ar-Vijk.
Þeir løgdu fram a eitt Sker, þvi Vedur bægdi þeim, vill-
di Geyr þa vera þar eptir, og eiñ Madur med hønum, eñ
Hørdi þoocti þad Hætta ad vera þar, heldt Hørdur þa Fer-
iuñi iñ a Fiørdiñ, og þar hvijldust þeir, þvi þeir høfdu
miøg hladid. Þeir Illugi sækia þa hardt eptir þeim fram
fyri Nesid, gaf Hørdur þa Nafn Nesinu, og kalladi Kattar-
Nes, þvi hønum þoocti þa margur Køttur fyri þvi fara:
Eñ er þeir Illugi nalguduft, þa mællti Hørdur: Hardt
sækir þu nu ad Illugi Maagur, og þetta baud mier suefña
Hugurin sem nu er framkomid. Illuge svarar: Mikid
hañ hier og tilgeørdt; Geørdiſi þa hørd Adsookn, vardi
Hørdur eiñ ødrumeigeñ Ferium, eñ Sex ødrumeigeñ.
Litlu sijdar komu Hoolmveriar a Premur Skipum, og
hlupu a Feriuna: Þa lætur Illuge undañ sijga, eñ þeir
ellta hañ wtepter Fyrde. Brandur het Madur, So-
nur Þorbiarnar Kolls under Midfelli, hañ kom til Geyrs
i Skerinu, og drap hañ sem hønum fylgde. Geyr vardist
vel, eñ Brandur var vid Siøtta Mañ: Eñ er Hørdur
kom, qvad hañ ei hafa fiærri þvi farid, er hañ gat til. Og
er þeir Brandur saau Hørd koma, flydu þeir undañ: Eñ
þeir Hørdur løgdu epter hønum og drapu hañ, þar sem
nu heita Brands-Flesiar iñ fra Skerinu, þar fyri Austañ
Karlmañs-Aa, og Fim adra, eñ Siøtti komst undañ:
Fluttu þeir nu Hørdur og Geyr allt Faangid i Hoolmiñ.
Þa qvad Hørdur Vijsu.

Floods hafdi fellda adañ
Fimtaan Vidu Maana,
Tootta var Tijr a Sætter
Trauþur Illuge hiñ Raude.

Helldur

Helldur ried Geyr at giallda
Grim̃wdigur þa Rim̃u,
Nu fellu af Veyti Vella
Varg-Fædendur jafn-marger.
Leid nu ſvo af Sumarid.

## XXVIII. Cap.

Nañ Vetur eptir Jool, fooru þeir Hørdur og Geyr, og med þeim 40. Mãna upp Alſtar-Skard, og ſvo i Svijnadal, þadañ og i Skoradal, lꝏu ſvo i Leyne um̃ Dageñ: Eñ um̃ Noottena fooru þeir ofañ til Sauda-Hwſa, og rꝏku þadañ ꝏ brott 80. Gelldinga, er Jndridi ꝏtti upp hiꝏ Vatne: Þa geørdi Snæ-Fall mikid, og Geørninga-Vedur mooti þeim, og mæddust Foruſtu-Sauderner er þeir Hørdur komu under Fiallid: Villdu þeir Geyr þa lꝏta epter Saudena, eñ Hørdur qvad þad Lijtilmañlegt, þoott ad nockur Snæſkiæſa væri edur Muggu-Vedur. Hørdur took þa Foruſtu-Saudena bꝏda, ſiñ i Hendi hvørn, og droo þꝏ undañ: Vard þad ſvo mikid Slood, ad þeir rꝏku añad Fed þar eptir, og heitir þar ſidañ Gelldinga-Drage. Eñ er þeir komu i Svijnadal, var þar Snioor eingiñ; Fooru þeir þa til Skips, og drꝏpu þar Fed ſem Gorvijk heitir, fara ſijdañ i Hoolm, og leid ſvo af Veturiñ.

Um̃ Vordaga fara þeir Hørdur, Geyr, og Sigurdur Torfa-Fooſtri, Helgi Sigmundsſon, og Þorgeyr Gyrdil-Skeggi med 60. vijgra Karla: Þeir fooru Nordur til Eindridaſtada, og leyndust þar i Skoogenum, þar til Naut vöru rekiñ i Haga. Svartur het ſꝏ er þeim ſtijrde, og Sveirn lijtill med hønum: Þeir Hørdur fara þegar til Nautaña, og rꝏku þau fyri Veſtañ Vatnid: Svartur foor og med þeim. Eñ er þeir fooru um̃ Gelldinga-Draga og i Svijnadal, þa drꝏpu þeir Svart, og fooru ſvo ad ſofa þar upp i Dalnum; Eñ ꝏ medañ þeir ſvꝏfu, vijſadi

Sveirn-

Sveinin aptur Nautunum. Hørdur vakti og sa undan Skillde sijnum; Han let Sveinin fara Leidar sinar, og mællti: Far þu Sveiñ, segir hañ, þvi betur er það komid sem Syster mijn hefur eñ þeir Hoolmveriar. Heim kom Sveinin, segir Þorbiorgu Ord Hardar, og qvad Skada mikin ad slijkum Mañi, geørdi hañ vel til mijn, segir hañ: Eñ Meñ hans dræpu Svart. Eingu svarar huñ Sveinenum. Þar heitir nu Kwhallar-Dalur sijdan, er Nautin hølludust fra þeim. Og er Geyr vaknadi, villdi hañ fara eptir Nautunum: Eñ Hordur qvad það ei skylldu. Sijdañ sæu þeir þar uñ Dalin Svijn Bænda, ræku þau ofañ a Sandin, og dræpu þar Svijnin, og heitir þar sijdan Svijna-Sandur: Fooru sijdañ wt aptur i Hoolm.

## XXIX. Cap.

Umrinnu eptir uñ Alþijngis Tijma fooru þeir Hoolmveriar iñ til Dagverdar-Ness: Þeir fooru Sijlldarmaña-Gøtu til Hvams i Skoradal, og tooku Yrn Þorgrijmn Smid-Konu, vid Skoradals-Vatn fyri Suñañ, og ræku sudur-a Hæsliñ: Eitt var Apalgrætt Yxnid, það vidradi miøg, og hlioop aptur i Hendur þeim, og svo hvørt eptir ødru wt a Vatnid, løgdu svo yfir Vatnid þar sem miosst var, og geingu sijdañ heim ad Hvami. Þa mællti Hørdur: Mikid er uñ Kijngi Þorgrijmu, ad Fenadur skal ei meiga sialfur ræda sier. Þorgrijma hafdi sofid, og vaknad Vonum brædara, sa hun þa wt og leit Uxana vota: Þa mællti hun: Hardt hefur ydur nu bodid verid, eñ laust helldu Garparner. Hørdur spurde nu Felaga sijna, hvørt þeir villdu ei breita uñ Hage sijna, þvi mier þyker illt Raad vort og Athafner ad svokomnu, það vier lisum vid það Eitt er vier rænum? Eñ þeir søgdu hañ munde mestu þar uñ ræda. Þa villda eg (segir hañ) ad vier færum til Kaupmaña ad Hvijt-Aa, og geørdum þeim 2. Etiu-Kosti, ad þeir gefi upp Skip vid oss, edur vær munum drepa þa alla: Geyr qvedst þess albwin, eñ þo vil eg vær breñum

ædur

ꝏdur iñe Torfa Valbrandsſon, og Koll ad Lunde, Koll⸗grijm hiñ Gamla, Eindrida og Illuga. Hørdur mællti: Miña mun framkoma uñ Stoorræde ydar, og er hitt lijk⸗ara ad vier verdum aller drepner, Saker þeſs ad Meñ mu⸗nu ei þolaꝰ oꝭ ſvo mikiñ Ojøfnud ſem vier bioodum. Flei⸗ri voru þeir er løttu ad fara til Skips, eñ fijſtin Illvirkia, utañ Sigurdur Torfa⸗Fooſtri. Hørdur mællti: Pad mun verda frañ ad koma ſem ætlad er, og mun þvi ei hægt vid ad geøra; Eñ fiærri er þad mijnu Skapi ad liggia i þeſſum Illvirkium leingur: Fooru þeir nu aptur i Hoolm ena ſømu Leid, og voru heima 3. Vikur. Sijdañ fooru þeir til Lands 80. Qvadſt Hørdur þa vilia iñe breña Illu⸗ga edur Eindrida, þar ſem þeir hafa einatt (ſegir hañ) mi⸗er i mooti verid, eñ allrei med, hvad miklum Naudum ſem eg hefi i⸗ſtaddur verid. Peir fooru uñ Noott i Svijna⸗Dal, og lᴂu þar i Skooginum uñ Dagiñ, eñ adra Noott fooru þeir i Skoradal og leynduſt þar.

## XXX. Cap.

A Noott hina ſømu, er Hørdur foor ur Hoolmi, dreymdi Porbiørgu ꝏ Eindridaſtød⸗um, ad Attatijge Vargar riñi þar ad Bænum, og briñ Elldur ur Muñi þeim, var þar eiñ i Hvijta⸗Biørn, og þookti heñi hañ helldur dapur, þeir dvølduſt nockra Stund ꝏ Bænum, ruñu ſijdañ Veſtañ frꝏ honum ꝏ Hool nockurn, og løgduſt þar nidur. Eindridi ſagdi þetta Hug Hoolm⸗Veria til ſijn, eñ Porbiørg qvadſt ætla, þeir mundu ſiꝏlfir vera, og koma þar brꝏtt. Hun bad Eindrida veita heim Bruñ⸗Læk, og þekia yfir, þvi hun qva⸗dſt vera Verdreym: Svo var nu giørt, lætur Porbiørg þa giøra Reykhꝏſva ſtoora, og let bera Fee uppꝏ Pver⸗Treñ, þvi ſvo hlioop mikid Vatn iñ, ad ſtood i midiuın Veggium: Hun hafdi og ecki Mañſꝏtt fyri. Litlu ſijdar komu þeir Hørdur ad Dirum, foor hañ þa fyri Lidinu, og drap ꝏ Dir, eñ Porbiørg geck til Hurdar, og heilſadi vel Hørdi, baud honum til ſijn, og virtta Lidi hañs, ſagdiſt vil⸗

ia hañ

ia hañ skildi sig vid Hørga-Lid þad, og qvad marga þa mundu verda hønum ad Lidi: Eñ Hørdur bad hana med sier fara, og qvad hun skylldi velkomiñ til sijn, ef hun skildi vid Eindrida, eñ hun qvad þad verr sæma, og liest ei mundu vid hañ skilia. Sijdañ droou þeir Vidar-Kost ad Dyrum, og løgdu Elld i Bæiñ, eñ þeir vørdu med Vatni er iñi voru, og sooktist þeim illa: Petta undradist Geyr, þa mællti Hørdur: Pad get eg, ad Systir mijn hafi Raad til gefid uñ Vatns-Rans þessa. Peir fooru þa ad leyta til, fundu Lækiñ, og veittu af, eñ samt var nøog Vatn i Bænum, svo hafdi mikid iñ hlaupid. Hørdur saa þa ad Madur stood à einum Reykhaafnum, og helldt a Boga, hañ Mañ skaut Hørdur med Gafloki, eptir þad saa þeir Lid fara ad Bænum, er Þorbiørg hafdi eptir sendt. Geyr qvad þa mundi verda undañ ad leyta, ecki latti Hørdur þad, hvørfu þeir sijdañ fraa, eingiñ fellu þar Hws ofañ. Fiølldi Mañs kom til Eindridastada. Heim fooru Hoolm-Veriar, og saatu uñ kirrt nockra Stund.

## XXXI. Cap.

Nockru sijdar høfdu Bændur Samfund aa Leydvelli, vid Lax-Aa hiaa Grüñafirdi, ad eigi færi svo leingur fram, þad Hoolm-Veriunt þilduñ þañ Illvirki, er þeir giørdu øllum Hierads Høfdingium: Voru þa Ord giørd Bændum og Grid-Møñum, ad þeir kiæmu til þessarar Stefnu. Eñ er Eindridi' bioost til Fundarins, spurdi Þorbiørg, hvørt hañ ætladi ad fara? Hañ sagdi heñi þad, þa vil eg med segir hun, þvi þu munt vita, ad eg er þier trw, ei villdi hañ hun færi, qvad heñi ecki Gaman ad vita, hvad þar væri mællt: Hun qvadst þad þikiast vita, sijdañ reid Eindridi til Fundarins. Litlu sijdar liet Þorbiørg Sødla sier Hest, og foor med Añañ Mañ til Stefnuñar, þar var Mañfiølldi mikill og Haareisti, eñ er hun kom, drap Klucka þeirra Hliood, og þøgnudu allir, þa mællti hun: Vita þikist eg Frañferdi ydart og Ætlun, eñ ei skal þvi leyna ydur sem mier bijr i Skapi,

ad eg skal verda þeß Mañs Bani, sem Hørd Broodur miñ vegur. Sijdañ reid hun a Braut. A þessu Þijngi var Torfi Valbrandsson, Kollur fra Lundi, Eindridi, Jllugi, Kollgrijmur, Refur, og Þorsteiñ Aurnabroddur, Ormur ur Hvañi, og margir adrir Herads-Høfdingiar, þa mællti Torfi: Einsætt er Møñum þeim, sem hier eru vidstaddir, ad verda allir þvi Samraada, ad taka þessa Vendismeñ af Lijfi, edur munu þeir giørvir fyrst Alraanir sem nærstir eru, eñ sijdañ allir Herads-Meñ: Er þad siaanda, ad Hørdur muni ei ødrum hlijfa, þar hañ villdi iñi breña Maaga sijna: Suwum braadt ad einhvøriu goodu Raadi, svo þeim komi eingiñ Nioosn, er þetta øllum hid mesta Naudsyniä-Verk. Jllugi liet meira Jllvirki af þeim standa, eñ svo bwid mætti vera, kvad þar samañ komid hid versta Foolk, og muu eg þar eingar Teingdir virda, þesur og svo spurst til þeirra, ad þeir muni slijkañ Hlut ætla oß sem Jnd rida: Kollgrijmur qvad þa mestañ Kulda af keña er nærstir eru, eñ þo ecki laangt ad bijda, aadur allir ætti slijkt fyri Høndum þoott fiærri sæti, og slijkum Ordum mællti hvør ad ødrum, eñ Refur qvadst þad eitt til-leggia, ad Madur væri utgiørdur i Hoolm, sa er þeim sverdi Eyda, ad eigi færi hañ ad Svikum vid þa, og segia ad þad væri Vilie allra Lands-Maña, ad þeir færi brott ur Hoolminum, hvørt sem þeir villdu, og væri þa saattir hvørier vid adra. Torfi var mestur Upphafs-Madur uñ Raadagiørd þessa, og þad med, hañ bidur þa rijda uñ Noottina iñ til Fiardar, svo ei verdi Hoolm-Veriar varir vid, þviad mier segir hañ sijnast sumir Grunsamlegir a Stefnuñi. Þeir ridu þegar þadañ uñ Noottina, og aatu Dagverd uñ Morguniñ eptir, a Nesi þvi iñañverdu, er þeir kølludu Dagverdar-Nes, sijdañ þañ Morgun sama, fooktu þeir Vatn. Þorkell Girdilsteggi og Sigurdur Torfa-Fooftri, Toolf samañ a einu Skipi, og vissu nu Hoolm-Veriar einga Von til nockurs Mañ-Safnadar edur Svika vid sig.

* * * * * *
* * *

32. Cap.

XXXII. Cap.

NNer Lands-Men urdu varir vid Ferd þeirra, þa sendu þeir Kolli Kiallaksson i mooti þeim vid Tuttugu og Fioora Men, og er þeir funduſt, ſlijdi Þorkell Girdilſkeggi þegar vid Siounda Man, en Sigurdur Torfa-Foostri bioost til Varnar vid Fiimta Man, og vard þar all-hørd Atlaga. Sigurdur bardiſt Hranſilega, þviad bædi var han ſterkur og Vopn-fimur: Þar til bòrduſt þeir, ad fallnir voru allir Feelagar Sigurdar, en han var þa ei ordin Saar, ſookti þa Þorvalldur Blaaſkeggr hardt ad hønum, og margir adrir, þa voru fallnir Fim Men af Koll, vardiſt Sigurdur þa en æſar vel, og vegur marga Men, beraſt þa Saar aa han: Þorvalldur Blaaſkeggur ſnaraſt þa ad hønum, og leggur i giegnum han med Spiooti, hafdi Sigurdur veigid med Øri, og kaſtar han þa til Þorvalldar Øxini, ſvo hun kom i Høfud hønum, og fellu þeir þa baadir daudir nidur, þa hafdi Sigurdur veigid Niju Men, en Filgdar-Men hans drepid Þria, alls fellu þar i Aar-Kvijſlunum Seitiaan Men af hvørtveggium, þad eru nu kalladar Blaaſkeggs-Aar. Þorkell Girdilſkeggi nam Stadar aa Arnarvatns-Heidi, og lagdiſt i Hellir aa Fitinni, ſafnadi ſier Lidi; og var þar til þeſs er Borgfirdingar giørduſt til þeirra: Þa ſtock han Nordur aa Strandir, og var drepin þar, ſem ſegir i Alfgeyrs-Þætti.

XXXIII. Cap.

NU leitaſt þeir til Høfdingiarner hvørr vid vilie verda mot ad fara i Hoolm, en fleſter tølduſt undan þvi: Torfi talar þa um ad þeim munde Frami ankaſt er fære, og munde þykia meiri Madur eptir en aadur, ſagdi og lijklegt, ad þeir munndu Giæfulauſir ſem i Hoolminum væri, Sokum Illgeørda ſinna. Kiartan Kotluſon Brooder Refs, hin meſti Garpar, qvadſt til munndu hætta ad fara, være ſvo, þeir giæfi

hønum Hrijngin Soota-Maut, ef Hørdur yrde veiddur, en eg œ þo Jllt ad launa. Hoolmverium: Þessu jœtudu þeir, og qvœdu eingan vænlegri til af þeim sem þar voru. Kiartan mællti: Þa mun lijtast ad hafa Bœt Þorsteins Gullknapps, þvi opt hefur han oss ad U-Lide farid: Øll-um þootti þetta vænlegt, og sogdu Hoolmveria mundi þad sijst gruna. Kiartan Kotlusyn reri nu wt i Hoolm, œ Bœt Þorsteins Gullknapps; Han var i Bryniu under Kufle: En er han kom i Hoolm, sagdi han Hørde ad Lands-Men villdu sættast, let han Jlluga og Vine hans þar mestigan Hlut i eiga, ad þeir færu Friœlsir. Þessu Trwdi Geyr og þootti þad lijklegt vera, er han hafdi Bœt Þorsteins Gullknapps; Þvi han hafdi þeim Eid unid, ad han skyllde þeim allrei til Svika gœnga: Marger voru fuser brott þadan, þvi þeim leiddist þar ad vera, og fijstu ad far-id væri med Kiartane brott wr Hoolminum. Þa mællti Hørdur: Mieg opt høfum vid Geyr ecki ordid œ Eitt sœtter, þvi ockur hefur jafnan ei eirn Veg sijnst: Þyker mier og þeir illan Man hafa tilfeingid þar sem Kiartan er, slijk Hugdar-Mœlsad bera, jafnmikil Naudsyn sem hier vidliggur hvorutveggium, høsum vier og lijtt vid Kiartan vingast hier til. Kiartan mællti: Eigi skulum vier nu minnast œ slijkt, þviad þeim sem Sœttar-Mœl frambera heyrer þad ecki, og satt eitt segi eg ydur: Mun eg þa sveria ef ydur þyker syllra. Hørdur qvad sier svo œ han lijtast, sem han mundi ecki Eid-var, og qvad han þa Vijsu.

Mier lijst Mœlma-Rijrer
Meidur sœ er Ferdar beider
Hugdar fullur; hvørgi bregdast
Han at Niodsnar Mani,
Brenu skylldi brott Hranar
Balldur sœ komast allrei
Ef Alms þvi riedi yfir
Omeiddur sœ er slijks beiddist.

Þa

Pa fijstu fleſtir aller Burtferdar, og tooku ſumer ſier Flutning med Kiartane: Hördr qvadſt hvørge fara mundu, eñ eg læt þad vel þo þier reynid hve Kiartan er ydur trwr; Eñ þad ætla eg (ſegir hañ) ad þier ſiend Okœtare hiñ ſijdare Hluta Dagſins. Kiartane þookti þvi betur ſem hañ flutti fleiri œ brott: Marger ſtigu þa œ Ferjuna, og ſegir Kiartan þeir ſkylldu ſiœlfir fara œ mooti ſijnum Mońum i Aňad Siñ. Peir fooru nu fra Hoolminum, og ei mœttu þeir Mañfiølldañ ſiœ, fyrr eñ þeir komu fram fyri Tœngañ: Eñ er þeir voru Landſaſter vordner, geyſdu Bœndur ad þeim Kvijar af Mañfiølldanum: Og er þeir komu œ Land, voru þeir tekner og halldner; Sijdañ var ſutweñ Bøndur i Hœr þeim, og høggner ſvo gerwaller. Pa fagnadu Lands-Meñ er ſvo lijtid lagdiſt fyri ſlijka Illvirkia, og þookti þeim nu lijklega œhorfaſt, ad þeir mundu aller uñer verda.

## XXXIV. Cap.

Aňad Siñ foor Kiartan wt til Hoolmſins, og ſpyria þa Hoolmveriar; þvi ecki komi Felagar þeirra mooti þeim? Eñ Kiartan qvad þœ ſvo fegna Fridnum ordid hafa, ad þeir heſdu leikande œ Land hlaupid. Peſſu trwde Geyr, og ſtie œ Skip med Kiartane vid marga Meñ: Hørdur latti þeirrar Ferdar, og ſagde til mikils draga mundu, villde hañ og ei fara; Var þa eptir hiœ honum Helgi Sigmundarſon, Helga Jarls-Dootter, Syner þeirra Tveir, og 6. Meñ adrer: Fooru þeir nu Geyr brott fra Hoolminum, og þookti Hørde hvørge betur eñ œdur, ad Geyr villde fara med Kiartane. Eñ er Geyr kemur fram fyri Neſid, ſier hañ Mañfiølldañ œ Lande: Pooktiſt hañ þa vita, ad þeir mundu ſvikner vera. Pa mællti hañ: Illa Gefaſt Ill Rœd, Og Eru Opt Til Sijdum Sien; Enda hefur Hørdur opt mier nærgiœtare verid, og eñ hygg eg ad ſvo mune vera, og er þad nu lijkaſt ad hier veidi Ender a vorre Illſku, og være vel ef Hørdur kiœmiſt undañ, þviad hon-

um einum er meiri Skade en oss øllum. Og er þeir voru miøg svo komner ad Lande, hlioop Geyr fyri Bord og a Sund, lagdist svo fram med Berginu. Ormur het Austmadur er var med Eindrida, Ramur ad Afle, han skaut Gaflske epter Geyr, og kom þad i milli Herda honum, og feck han af þvi Bana.

## XXXV. Cap.

Helga Jarls Doottur stood a Hoolminum wte, og sa a þesse Tijdinde er nu voru søgd: Hun sagdi þetta Hørde og bad han sia, en þeim sijndest þetta ei ein Vegbadum: Sagdi hun þa ad til mikils munde um draga.

Lands-Men lofudu miøg Kiartan, og qvadu han mikid munde vaxa af þessum Ferdum: Lietu nu og ad fatt være epter. Kiartan qvadst nu ætla Knapp a ad rijda, nu Hørde og locka han: Han hafdi Sexæring, og fer en wt til Hoolmsins. Hørdur spurde nu hvar Geyr være, edur þvi han kiæmi ei a mooti hønum? Kiartan qvad han a Landi þar til han kiæmi, og settist þeir svo aller i Einu. Hørdur mællti: Mikid færist þu i Fang Kiartan, er þu flytur oss alla Hoolmveria i Land, og mikil Laun muntu af Lands-Mønum hier fyri taka: Mun eg þvi hvørge fara, ad eg hefi þier avallt illa trwad, og vid muntu meiga sia ef þier gefst vel, lijst mier þu vansien Madur. Kiartan mællti: Muntu þvi Hugminne en þijner Men, ad þu þorer ei ad fara a Land? Hørdur spratt þa upp, og stoodst ei Eggiun hans, qvad han ei þurfa mundu sier Hugar ad frija adur þeir skildu, edur þeirra Skiptum lyke. Hørdur qvad Helgu skyllde med sier fara: En hun sagdist hvørge fara mundu, og ei Syner henar helldur, qvad nu koma ad þvi sem mællt er: Ad Ei Meige Feigum Forda. Gret Helga þa Saran. Hørdur stie nu a Skip reidur miøg, og fara þeir svo unst þeir koma þar ad er Geyr flijtur daudur vid Sker eitt. Hørdur hlioop þa upp, og mællti til Kiartans: Allra Mana ertu armastur, og skama Stund

skalltu eiga þessum Svikum ad fagna; Hiop, Hördur þa til hans med Sverdinn Soota-Naut, og klauf han Endilaungan nidur i Belltisstadin, svo i sundur tyok allan Búkin med Tyssalldre Bryniune. J. þvi rende Skipenn ad Landi, og urdu þeir aller Handteknir er a þvi voru: Eindride lagdi Fyrstur Hendur a Hörd, og batt Hendur hans helldur Namlega. Hördur mællti: Helldur fast bindur þu nu Maagur. Eindride svarar: Pad kendir þu mier, þa þu villder mig ini brenna. Illuge mællti til Eindrida; Ecki a Hordur þo gooda Maagana, enda hefur han illa tilgeordt. Eindride svarar: Fyri laungu hefur han þvi fyrigeordt, ad neinar Teingder sieu vid han virdande Rietti. Eindride þa fragn Orina, og teiknade til ad nockur skyllde vega ad honum, en þad villde ejngin geora. Hördur snaradist þa vid og vard laus, þreif han Orina wr Hende Eindrida, og steck svo wt yfer Prefalldan Mannhringin. Helgi Sigmundarson vard þa og laus, og hlioop eptir honum. Nefur sie nu a Hest og reid eptir þeim, en gat þo ei nælgast þa: Komu þa Her-Fistur a Hörd, en han hiod þau af sier i Fyrsta Sine. Annad og Þridia Sine komu a hun Her-Fisturin; Pa gatu þeir kvijad han og sloou um han Hrijng, steck han þa en wt yfir Hrijngin, og vo adur 3. Men: Pa hafdi han Helga Sigmundarson a Baki sier, og hlioop til Fialls, en þeir epter. Nefur vard þeirra fliootastur, þvi han var a Hesti, en þorde þo ei ad ræda a Hörd. Pa komu en Her-Fistur a Hörd, og komst þa eptir honum meigin Flotin: Pa kastadi han Helga af Baki sier og mællti: Mikil Troll eiga hier nu Hlut i, en þo skulu þier ei hafa ydvarn Vilia um þad sem eg get adgeordt, og qvad þa ei pijna skylldu Foosibroodur sin fyri Augum sier, hioo han þa Helga i Midin sundur, og þvokti Monnum sem han mundi ad mestu daudr hafa verid. Svo var Hördur þa reidur og Ogurlegur, ad eingin þordi framan ad honum ad gaunga. Torfi segir ad sa skyllde nu eiga Hrijngin Soota-Naut a Hendi Hardar sem fyrstur byrde ad vega ad honum: Sloou þeir þa en Hrijng um

hañ, og i þvi kom Þorsteiñ Gullknappur heimañ frá Pyrle, sooktu þeir þa sem mest ad Hørdi, og vard hañ eñ Sex Maña Bane, geck þa Oriñ af Skaptinu fyri hønum; Og i þvi hiöo Þorsteiñ Gullknappur hañ slippañ á Hnackañ med Hálfkeptri Oxe, þvi eingiñ þorde þa eñ framan ad hønum ad gánga; Af þvi Høggi feck Hørdur Baña, og hafdi hañ þa drepid af þeim 14. Meñ, med þeim Fioorum hañ drap vid Skip, ádur hañ var fáugadur: Lofudu aller hañs Hreysti Viner hañs og U-Viner, og þyker ei hønum Samtiida á alla Hlute røskvare Madur verid hafa, edur vitrare eñ Hørdur var, þoott ei væri hañ Audnu-Madur uñ alla Hlute, og hañ med sijnum Fylgdar-Møñum stædi i Illvirkium: Pad og Añad, ad ei má Skøpunum reña.

## XXXVI. Cap.

LAnds-Meñ Lofudu nu miøg Þorstein Gullknapp, fyri Verk þetta, og feingu hønum Hriingiñ Soota-Naut, qvádust hønum allvel uña hañs ad nioota: Eñ er Þorsteiñ spurdi Umrædur Þorbiargar, villdi hañ giarnañ þetta Verk allrei gjørt hafa. Nær Sextiige Mañs voru drepnir af þeim Hoolm-Verium, ad Auk þeirra Fooft-Brædra, er þeir drápu i Dagverdar-Nesi. Nu toludu þeir uñ Høfdingiarnir: Pad Rádlegast væri, ad fara eptir Helgu Jarls-Doottr ut i Hoolmiñ, og drepa Sonu þeirra Hardar, þokti þetta sumum of-sijd Dags, og høfdu þeir þa ad þvi Sam-Tal, ad eingiñ skylldi þeim Grid gefa nie Asiá veyta, ella skylldu allir a þeim hefna, er slijks dyrfdist, svo var hier rijkt Vidlægid. Ætludu þeir nu ut uñ Morguniñ, eñ voru þar uñ Noottina.

## XXXVII. Cap.

HElga er nu i Hoolminum, og þikist þa vita Vielar allar og Svik Lands-Maña: Hugar hun nu sitt Máal, og verdur þad heñar Rád, ad hun kastar sier til Sunds, og legst til Lands ur

Hoolm-

Hoolminum um̃ Noottina, flutti hun med sier Biørn Son sin̄ Fiogra Vetra gamlan̄, til Blaaskeggs-Aar, og foor sijdan̄ mooti Grijmkeli Syni sijnum Atta Vetra gomlum, þvi hønum dapradist Sundid, og flutti hun han̄ til Lands, þar heitir nu sijdan̄ Helgu-Sund. Pau fooru um̃ Noottina somu a Fiall upp hia Pirli, og hvijldust i Skardi þvi sem nu heitir Helgu-Skard, Biørn bar hun a Baki sier, en̄ Grijmkell geck. Pau fara nu til þess þau koma til Endridastada, settist hun þa nidur utan̄ undir Tun-Gardi, en̄ sendir Grijmkel heim til Hwss, ad bidia Porbiørgu þeim Grida. Porbiørg sat a Palli, er Sveinin̄ kom in̄, bad han̄ hana þa Grida, en̄ hun stood upp, took til han̄s, og leiddi han̄ ut, og spurdi hvar han̄ var? En̄ han̄ segir til hid San̄a, hun spurdi þa ad Tijdindum, edur hvar Helga væri? Han̄ segir slijckt er han̄ visse, og filgdi hen̄i til Helgu, þa mætti Porbiørg ecki mæla, svo fieckst hen̄i mikils um̃: Hun filgdi þeim i Uti-Bwr eitt, og læsti þad sijdan̄. Pen̄an̄ sama Aptan kom Eindridi heim, og margt Man̄a med hønum: Ecki liet Porbiørg a sier fin̄a, og bar hun Mat fyri Gesti, en̄ er þeir søgdu hen̄i Tijdindin̄, og þad ad Porstein̄ Gullknappur hefdi veigid Hørd, og geingid aptan̄ ad hønum, en̄ hin̄ stadid kirr fyri. Pa qvad hun Vijsu.

Vard i Hreggi hørdu
Hørdur felldur ad Jørdu,
Han̄ hefur Atta un̄id
Uns ok Fim̃ hia Grun̄i,
Helldur nam grim̃ra Galldra
Galldur ram̃lega hallda,
Mundi en̄ Briootur Branda
Brands ellegar standa.

En̄ er þau komu i Sæng um̃ Kvølldid, þa bra Porbiørg Saxi, og villdi leggia ad Eindrida Boonda sijnum, en̄ han̄ took a mooti, og vard mjøg saar a Hendi, þa mællti han̄: Badi er nu ur hørdu ad rada, enda villtu mikid ad giøra,

edur hvad skal eg nu viña til Sætta med ockur? Ecki añad segir hun, eñ þu særir mier Høfud Þorsteins Gullknapps, þessn jœtadi Eindridi: Foor hañ þegar um̃ Morguniñ, og reid hid beinasta til Pirils, hañ sie þa af Baki, og geck ofañ Eindrida-Stijg hiœ Pirli, beid hañ svo þar, unsi Þorsteiñ foor i Blood-Hws, sem hañ var vanur: Eñ er Þorsteiñ kom i Hwsid, fiell hañ fram̃ fyri Stein hañ, er hañ var vanur ad Bloota. Eindridi stood uti hiœ Hwsinu, og heyrdi þetta kvedid i Steininum.

| | |
|---|---|
| Þu hefur hijngat | Þvi mun rett œdur |
| Seinasta Siñi | Rodull skijnt, |
| Feygum Footum | Hardar Eindridi |
| Follsdpornada | Helptir giallði. |

Siidañ geck Þorsteiñ ut, og stefndi heim: Eindridi sœ Ferd hañs giørla, og bad hañ ei hlaupa svo mikid. Snijr hañ þa fram̃ fyri hañ, og hioo þegar med Sverdinu Soota-Naut undir Kverkina, svo af took Høfudid, liisti svo þessu Wijgi heima ad Pirle œ Hendur sier. Sagdi hañ Þorstein leingi Otrwañ verid hafa. Reid hañ þadañ, og selldi Þorbiørgu Høfudid, hun qvadst ecki hirda um̃ þad, þegar þad væri af Bolnum. Muntu nu segir Eindridi, sættast vid mig? Hun qvad þad ei firr vera skylldu, eñ hañ tæki vid Helgu og Sonum heñar, ef þau kyñi þar ad koma, og veitti þeim allañ Dugnad, þañ er þirfti: Þa munda eg, segir hun, veita þier Elsku þadañ af, ef þu jœtar mier þessu. Eindridi qvadst ætla þau mundi hafa œ Siov hlaupid og dreckt sier þar, og vil eg þier þvi heita, þvi eg veit eigi mun þurfa til ad taka, þa geck Þorbiørg eptir þeim Helgu, og leiddi þau fram̃: Eindridi mællti þa, og vard fœr vid: Erid lœngt hef eg nu fram̃ talad, eñ þo mun þad Raad, ad hallda Ord siin: Endti hañ og vel øll siin Ord, og gaf eingiñ Madur hønum œ þvi Søk. Øllum þookti Þorbiørgu Stoormañlega verda.

* * * * * *
* * *

38. Cap.

## XXXVIII. Cap.

Þorolfur het Madur, og kalladur Stari, hagur og helldur Audigur; Galvijſs og Glens mikill, Frækiñ og Fram̃giarn, og hvervetna hardgier. Hañ kom hid ſama Hauſt til Eindrida-ſtada, og baudſt Boonda, Þorbiørg bad hañ taka vid hønum, og ſvo var. Hañ dvaldiſt þar um̃ Nijd til Smijda. Helga Jarls Doottir var kæt vid hañ, og þær Þorbiørg bædar, hañ þooktiſt vera i Þijngum vid Jarls Doottir, eñ hun took þvi ecki all-fiærri. Þoorolfur hafdi verid med Ref um̃ Sumarid, og hafdi illa þar adgietiſt: Leitar nu Vetur-Viſtar til Þorbiargar, hun ſvarar: Eg mun fæ þier Vetrar-Viſt, Hrijngiñ Soota-Naut, Helgu Jarls-Doottir, og mikid Fee añad, ef þu drepur Ref i Bryniu-Dal, hañ ſvarar: Ecki mun þetta mier illa hendt, ef eg feingi Sverdid Soota-Naut, og er Von eg muni lijtid til viña eñ taka mikid i Stadiñ. Þeſſu keyptu þau, var ecki hægt ad næ Sverdinu, þvi Eindridi hafdi þad alla Stund hvort ſem hañ foor. Eiñ Dag took Þorbiørg Sverdid, og riſti hier og hvar Um̃-Giørdina, ſvo Sverdid fiell ſiælft ur Slijdrnm, þa er Eindridi villdi girda ſig med þvi: Hønum þookti þad Kinlegt, eñ Þorbiørg qvad þad Næatturu Sverdſins, ef þad viſſe æ Stoor-Tijdindi. Hañ bad hana giøra ad Um̃giørdiñi, hun qvadſt mundu ſvo giøra. Eindridi ætti ad fara Veſtur æ Mijrar, ad ſætta Vini ſijna; Hañ hafdi nu ei Sverdid, eñ er hañ var fariñ, ſelldi Þorbiørg Þorolfi Sverdid Soota-Naut, og bad hañ neyta Dreingelega, ef hañ villdi næ Ræda-Hag vid Helgu. Þorolfur foor til Refs, og kom þar ſijd Dags, hañ leindiſt i Torf-Bijngi, og hlood ad ſier Elld-Torfi, ſvo ei voru uppi nema Naſir einar. Refur var var um̃ ſig, ſvo hañ liet ſiælfur Lokur fyri Hurdir, og liet bera hvørt Kvølld Lioos Tviſvar um̃ Hws: Fyrſt fyri Næattverd, og Añad Siñ ædur Meñ fooru i Reckiu, var nu og ſvo giørt, og fanſt þorolfur ecki. Þorolfur gat talad hvøriun Mañi lijkt.

Hañ

Hañ stood upp, þa nidur var lagst, vakti upp Grid-Konu, sagdist vera Sauda-Madur Refs, og bad hana kalla til Skiæda vid Ref, þvi hañ qvadst skylldu æ Fiall gænga um Morgun, hun qvad hañ ecki þa Starfsemi giøra, ad hañ þirfti slijkar Heimtur hafa uñ Nætur, hañ var þvi ækafari, og kvad adra Hws-Karla ei mundu meira til viña. Refur hvijldi i Lok-Reckiu, og villdi ei uñ Nætur læta þængad gænga, eñ Søkum Rauds sem hañ hafdi, þa segir hun Ref Skiæda-Kallid Sauda-Mañs, segir hañ Omaklegañ, ad missa Skoo, edur adra Hluti þa sem hañ þirfti ad hafa, segir hañ vera Daga og Nætur yfir hañs Gøtze. Refur lætur illa ad heñi, ad hun fari med þessum fænijtum Eyrmdum til sijn nñ Nætur, eñ þo liggur Lee-Skræpur eiñ i Tad-Hwsi, og taki hañ sier þar af Skiædi: Eñ er hun geck brott, rak Þorolfur Kiefli fyri Hlerañ, svo ad ei geck aptur. Hañ hafdi stadid upp yfir Ref, medañ þau tølduast vid, og vard hønum bilt. Refur sofnade, eñ Þorolfur þordi ei ad hønum ad ræda. Þorbiørg Katla Moodir Refs kalladi: Vakir þu Son miñ? Fiandiñ stendur upp yfir þier, og vill vega þig, þa villdi Refur uppstanda, og i þvi hioo Þorolfur med Sverdinu Soota-Naut, undañ hønum bædar Fætur, Añañ þar miooslur var Kælfe, eñ Añañ uñ Ristar-Lid. Sijdañ hlioop Þorolfur fram æ Goolf ur Lok-Reckiuñi, þa kom Þorbiørg Katla i mooti hønum, greip til hañs, og rak hañ undir sig, beit sundur i hønum Barkañ, og geck svo af hønum daudum. Refur took Sverdid Soota-Naut, eñ Hrijnguriñ hvarf af Þorolfi, sæ sem þær Þorbiørg og Helga høfdu sellt hønum, og Hørdur hafdi tekid af Soota. Refur vard græddur, og boriñ æ Stooli alla Stund, þvi hañ mætti allrei gænga, eñ lifdi þo leingi: Var kalladur Refur hiñ Gamli, og þookti æ Mæta-Madur.

* * * * * *
* * *

39. Cap.

## XXXIX. Cap.

Litlu siidar kom Indridi heim, og spurdi þesse Tijdindi, hooktist hañ þa vita, ad Por biørg mundi verid hafa i þessum Raadum, villdi hañ þo ei missa Sverdsins, foor siidañ og hitti Ref, bad hañ laust laata Sverdid, þvi i eingum þessum Raadum hef eg verid segir hañ, Refur selur hønum Sverdid, og segist ei vilia Ovingast vid hañ. Eindridi took vid Sverdi sijnu og reid heim, siidañ i Mæa af slijku, marka, hvør Høfdingi Eindridi hefur verid, ad slijkur Garpur sem Refur var, treystist ei ødru, eñ laata laust Sverdid vid Eindrida, er hañ þess beiddi, svo mikil Ørkumsl sem hañ hafdi af þvi feingid, og Raadum Konu hañs. Litlu siidar fundust þær Porgrijma Smidkona og Porbiørg Katla Mooder Refs, og vorn bædar daudar i Mølafelli: Þær voru allar rifnar og skornar sundur i Sticki, og reynt þykir þar siidañ vera hiaa Kumlum þeirra. Þess geta Meñ ad Porgrijma Mooder Eindrida hafi ætlad ad sækia Hrijngiñ Soota-Naut til Handa Eindrida, eñ Katla varde og villde ei lausañ laata, og af þvi draapust þær, niþur: Eñ Hrijnguriñ hefur ei fundist siidañ.

## XL. Cap.

Nockrum Vetrum þar eptir kom wt Skip i Breiduvijk, þar var aa Tindur Hallkelsson, og Pordur Kollgrijmsson fraa Ferstiklu: Þeir ridu fraa Skipi Tindur og Pordur yfir Hvijt-Aa, og ætludu heim. Eñ er Helga Jarls-Dootter fretti þetta, mællti hun til Grijmkels Sonar siins, ad seint kiæmi hønum i Hug Fødur-Draapid: Bad hañ nu sitia fyri Pordi Kollgrijmssyne, þviad Fader hañs var mestur Mootgaungu-Madur Hørde Fødur þijnum: Var Grijmkell þa 12. Vetra: Villda eg Frænde (segir hun) þu dræper Pord, þviad gilld Hefnd er i hønum. Grijmkell foor vid Pridia Mañ, og funduft þeir vid Backa-Vad fyri Austañ

añ Hvijt-Aa, under Torf-Stockum nockrum. Litlu sijdar fundust þeir aller dauder hvørntveggiu.

Skeysur hiet Madur er bioo a Hvijtaar-Vøllum, Feekijtill: Þess gaatu Sumir, ad hañ mundi drepid hafa Saura-Meñ, og tekid sier gooda Gripi, þa er Þorður hafdi aatt, og aldre spurdist til. Skeysur foor utañ, og kom alldre sijdañ aptur, og vard Vell-Audigur. Eindridi villdi ecki hafa Helgu hier i Landi, nie Biørn Son heñar: Fooru þau þa utañ a Eyrum til Norvegs, og þadañ til Gautlands. Lifdi Hroodar þa eñ, og took vel vid Helgu Systir siñi, eñ þookti stoor Misser ad Hørdi: Ecki er þess gietid, ad Helga være sijdañ gipt. Biørn vard mikill Madur, og komst aptur til Islands. Drap hañ marga Meñ i Hefnd eptir Fødur siñ, og vard hiñ Roskvasti Madur. Tuttugu og Fioorir Meñ voru drepnir i Hefnd eptir Hørd, og var eingiñ þeirra Fee-bættur. Synir Hardar Frændur og Maagar drææpu suma, suma Hroodar: Eñ flester voru þo drepnir med Raadi Þorbiargar Grijmkels-Doottur, og þiker huñ mikill Kveñ-Skørungur verid hafa. Þañ Eindridi og hun bruggu ad Eindridastødum til Elli, og þookti mæka Meñ: Og er margt Maña fra þeim komid. Hørdur hafdi 39. Vetur þa hañ var veigiñ, og høfdu hønum flester Tijmar til Heidurs og Metnadar geingid, utañ þeir 7. Vetur sem hañ var i Utlegd. Segir og svo Stirmer Prestur hiñ Frodde, ad hønum þyker hañ i frekara Gillde verid hafa af Sekum Møñum. Saker Vitsku, Vopnfimie og allrar Atgeorfi: Hiñs og añars, ad hañ var i ødrum Løndum svo vel virdtur, ad Jarliñ a Gautlande gipte hønum Doottur sijna; Þess hiñs Þridia, Ad eptir eingañ Setañ Mañ hefur jafnmargur Madur i Hefnd drepiñ verid sem epter Hørd, og urdu þeir aller utlæger og U-gillder georder: Og lijkur svo Søgañe af Hørde Grijmkelssyne, og Þeim Hoolm-Verium.

* * * * *

* * *

Sagañ

# SAgañ Af Gijsla Swrs=Syne / Og Þeim Sijrdœl=um Fleirum Ødrum.

## I. Cap.

ÞAD Er Upphaf SØgu Þessarar, ad Haakon Kongur Adalsteins Fooſtre ried fyri Norveige. Og var þetta á Ofañverdum hañs Døgum, ad Madur nockur var Þorkell nefndur, og var kalladur Skersauke; Hañ bioo i Svijnadal, og var Hersir ad Nafnboot, og átti sier þa Konu er Jsgerdur het, og vid heñi 3. Sonn: Het Eiñ Are, Añar Gijsle, Þridie Þorbiørn; hañ var þeirra yngstur, og uxu upp aller heima.

Madur er nefndur Jse; hañ bioo i Fyrde þeim sem Erfvibul heitir á Nordmære, Kona hañs het Jngegerdur, eñ Jngebiorg Dootter; Are Son Þorkels bidur heñar, og var hun hønum gipt med miklu Fee. Kolur het Þræll er brott foor med heñi. Madur het Biørn Hijn, hañ var Berserkur, foor uñ Lønd, og ſkorade á Meñ til Hoolm-Gaungu, ef ei villdu hañs Vilia gøra; Hañ kom uñ Veturiñ til Þorkels Skersauka; og ried Are Sonur hañs þa fyri Bwe. Biørn gørir Ará Tvo Koſte, hvørt er hañ vill

vill beriast vid hañ i Hoolmi þeim er þarliggur i Svijna-Dal, og heiter Stocka-Hoolmur, edur vill hañ selia hønum i Hendur Konu sijna: Hañ qvadst skioott helldur beriast vilia, eñ bædi hañ og Kona hañs yrdu ad Skøm̃: Skyllde Fundur þeirra verda ad Þriggia Nætta Fresti. Nu fijdur ad Hoolm-Stefnu, og beriast þeir: Lijkur þa svo ad Are fellur, þykist Biørn nu hafa veigid til Landa og Konu: Eñ Gijsle segist helldur vilia læta sitt Lijf eñ þetta gange fram̃, og vill hañ nu gænga æ Hoolm vid Biørn. Þa took Ingebiørg til Orda: Eige var eg þvi Ara gipt, ad ei villde eg þig helldur ætt hafa. Kolur Þræll miñ æ Sverþ er Græsijda heitir, og skalltu bidia hañ liæe þier þad, eñ þad fylger þvi Sverde, ad sæ fær jafnañ Sigur er þad ber til Orustu. Gijsle bidur Þræliñ Sverdsins, og þookti hønum mikid fyrer ad liæ, eñ þo vard svo ad vera. Sijdañ byoost Gijsle til Hoolmgaungu, og beriast þeir: Lijkur þa svo ad Biørn fellur, þooktist Gijsle nu uñid hafa mikiñ Sigur. Er þad sagt ad þar eptir bidur hañ Ingebiargar, og villde ei læta gooda Konu wr Ætt gænga, took hañ nu Fep allt: Fær heñar, og geørdist mikill Madur. Þvi nærst andadist Fadir hañs; Heimti Þræll-iñ nu Sverd sitt, og vill Gijsle ei laust læta, eñ bijdur hønum Fee fyri: Þræliñ vill fijdur eñ ecki añad eñ Sverd sitt, og fær þo ecki. Þetta lijkar hønum illa, og veitti Gijsla Tilræde, var þad mikid Sær. Gijsle høggur aptur med Græsijdu i Høfud Þræls svo fast, ad Græsijda brotnade, eñ Hausiñ lamdist, og feck hvørutveggi Bana.

## II. Cap.

Her eptir tekur Þorbiørn vid Fee ollu þvi, er ætt hafdi Fadir hañs og Brædur: Hañ bijr i Svijna-Dal ad Stockum, og feck þeirar Konu er Þoora het, þeirra Dootttir het Þordijs, hun var elldst Barna: Son þeirra hiñ Ellsti het Þorkell, Añar Gijsli, Þridie Ari, hañ var Yngstur, uxu þeir upp allir heima, og ei feingust þar i Naind fægri Meñ.

Ara

Ara var Fooſtur feingid med Stirkœri Moodur-Broodur ſijnum. Bœrdur het Madur, hañ hafdi nij-tekid vid Moodur-Arfi ſijnum og Fødur-Arfi, hañ bioo þar ī Svijna Dal, og var ungur Madur Kolbiørn het Madur er bioo œ Hellu i Svijna-Dal, hañ hafdi nij-tekid vid Fødurleyfd ſiñi. Sumir Meñ tøludu þad, ad Bœrdur ſyſtadi Þor-diſi, Þorbyrni hugnadiſt þetta illa, og qvadſt ætla, ef Ark væri heima, ad þa mundi eigi vel geſaſt, Bœrdur qvad: Ovæxt Omaga Ord. Med Þorkeli og hønum var Vin-gott, eñ Giſsle gaf ſier fœtt uñ, og var Ohocki œ Vidræd-um þeirra. Eiñ Tijma var þad, ad Giſsle rædſt i Ferd þeirra Þorkells Broodur ſijns og Bœrdar, og er hañ kom a midia Vega til Granaſkeids, Bœar Bœrdar, hivo Giſs-le Bœrd Bana-Høgg, þa reiddiſt Þorkell, og qvad Giſsla illa giørdt hafa, eñ Giſsle bad Broodur ſiñ ſeſaſt, ſkiptum vid Sverdum ſegir hañ, og haf þu þad ſem betur bijtur, og brœ œ Glens vid hañ. Nu ſeſadiſt Þorkell, og ſeſt nidur hia Bœrdi, eñ Giſsle fer heim, og ſegir Fødur ſijnum, eñ hønum likar þetta vel: Allrei vard jafn blijdt med þeim Bræðrum ſijdañ, og ei þœdi Þorkell Vopna-Skiptiñ, villdi hañ og ei þar heima vera, og foor til Hoolmgaungu Skeggia i Eyna Søxu. Hañ var miøg ſkilldur Bœrdi, og eggiadi hañ Skeggia ad hefna, eñ gœnga ad eiga Þor-diſi Syſtir ſijna. Þeir fara nu til Stocka Tuttugu ſam-añ, og er þeir koma œ Bœiñ, mælir Skeggi til Mægda vid Þorbiørn, eñ til Samfara vid Doottir hañs: Þorbiørn villdi ej gypta hønum hana, þa var talad, ad Kolbiørn væri i Þijngum vid Þordiſi, og þookti Skeggia ſem hañ illi þvi, ad hañ feingi ecki Raadid, fer nu til Fundar vid Kolbiørn, og bijdur hønum Hoolm-Steſnu i Eyniñe Søxu; Hañ qvadſt koma mundu, ſagdiſt ei verdur ad eiga Þordiſi, ef hañ þyrde ecki ad beriaſt vid Skeggia. Skeggi beid med 22. Meñ Hoolm-Steſnuñar. Giſsle fiñur nu Kolbiørn, og ſpyr hvørt hañ vilie þad til Raads viña, ad fara til Hoolm-Steſnu moot Skeggia? Kolbiørn ſegir: Svo hyggſt mier ad eg mune þad ei til viña ad berjaſt vid hañ.

Gisle mællti: Tala þu allra Maña armastur, og þoott þu verdur nu allur ad Skom, þa skal eg þo fara; Og svo fer Gisle vid 12. Mañ i Eyna: Skeggi kemur þar, og segir upp Hoolmgaungu-Log, eñ Kolbiørn sast ecki, og einginn af hañs Hende. Refur het Madur Smidur Skeggia, hañ bad hañ geora Mañ-Lijkan epter Gisla og Kolbyrne, og skyllde hvør standa aptañ vid añañ, og bad skal standa ævallt þeim til Hadungar. Nu heyrer Gisle i Skooginum og svarar: Añad munn Hwskarlar þijner þarfara viña, og mættu hier þañ sia er þorer ad beriast vid þig. Þeir gaanga nu a Hoolm og beriast, het Sverd Skeggia Guñloge; Og sem hañ hioo med þvi, gall þad vid hætt; Hañ segir: Gall Guñloge, Gaman Vard Søru. Gisle hioo mooti med Høgg-Spioote, og took af hønum Footiñ, og mællti: Hrøck Hræ Fracki, Hioo Eg Til Skeggia. Skeggi leysti sig af Hoolme, og geck ævallt epter þad vid Tre-Foot. Þorkell foor nu heim med Broodur sijnum, og var vel i Frændsemi med þeim.

III. Cap.

Mædur Tveir eru nefnder, het Añar Einar Añar Arne, Syner Skeggia wr Søru: Þeir biuggu a Flidru-Nesi, Nordur fra Þrænd-Heimi: Þeir eflast ad Lide uñ Haustid, og fara uñ Vorid til Svijnadals, og biooda Kolbyrne Too Kosti, hvørt hañ vill fara med þeim, og breña Þorbiørn og Syne hañs, edur læta þar Lijfid: Hañ kiori helldur ad fara med þeim; Vard þar þa 60. Maña. Þeir koma ad Stockuñ Noott og bera Elld ad Hwsum, eñ þau voru øll i Skemu eiñi, Þorbiørn, Syner hañs og Dootter: Þar voru iñe Þyrn-Kier 2. i þvi Hwsi: Nu taka þeir Hafurstokur Tvær, og drepa þeim i Syru-Kieriñ, veriast svo Elldinum, og slockva hñ 3siñum; Og þar epter sa þeir Gisle brotid Vegginn, og komast brott 10. samañ, og fylgia Reyk til Fialls. Toolf Meñ bruñu þar iñe, eñ þeir hyggiast þau øll hafa iñe brendt; Eñ þau Gisle fara unst

þau

þau koma i Fridar-Ey, ſtyrktuſt og efldnſt þar ad Lide, fra 40. Manna, og koma Uvart ad Kolbyrne og brena hañ iñe vid Toolfta Mañ: Selia nu Lond ſijn og kaupa Skip, voru œ. 60. Manna, og fara brott med allt ſitt, og koma vid Eyar þær er Æſundar heita, og liggia þar til Hafs. Nu fara þeir œ Tveimur Bœtum 40. Manna, og koma til Flidru-Neſs: Þeir Brædur Skeggia-Syner voru þa œ Leid kouner vid Nijunda Mañ, ad heimta Landſkullder ſijnar: Þeir Giſſle ſnwa til moots vid þœ, og drepa þœ alla: Gœnga ſijdañ til Bœar og taka þar mikid Fee. Giſſle hioo og þa Hofud af Hoolmgaungu-Skeggia.

## IV. Cap.

SIjdañ fara þeir til Skips, og lœta i Haf, eru uti Hundrad Dœgra, og koma af Hafvi Veſtur i Dijra-Fiord, vid Sydri Strond, i Os þañ er Haukadals-Os heitir. (*) Þorkatlar Tveir eru nefndir, bioo œ ſijñ Strond hvor, Añar bioo ad Saurnm i Kielldu-Dal; œ hiñi Sydri Strond Þorkatli Eyrekſſon. Añar œ Nirdri Strond i Alvidru, kalladur Þorkatli Audgi. Þorkatli foor fyrſtur Virdingar-Mañá til Skips, og hitti Þorbiorn Swr, þvi hañ var ſvo kalladur, ur þvi hañ vardiſt med Sijruñi. Oll Lond voru þa numiñ, ad hvortveggiu Strondiñi. Nu keipti Þorbiorn Swr Land œ hiñi Sydri Strond œ Sæbooli i Hauka-Dal, þar giordi Giſſle Bæ og bioo þar ſijdañ. Biartmar het Madur, er bioo i Arnarfirdi iñ i Botni, Kona hañs het Þurijdur, og var Hrafnsdoottir, eñ Hrafn var Son Dijra, er Dijra-Fiord nam: Þau œttu ſier Born, Hilldur hiet Doottir þeirra elſt Barna, Helgi het Son þeirra, Sigurdur og Veſtgeyr. Veſteiñ het Auſt-Madur, er ut kom uñ Landnœm, og Viſtadiſt med Biartmari, hañ geingur ad eiga Hilldi Doottur hañs: Eñ œdur þau voru leia



(*) Año 943. Utkoma Þorbiarnar Swrs, og Sona hañs, 8. Arum eptir Landnœms Tijd.

gi samañ, gꜳtu þau Børn ad eiga, Audur het Doottur þeirra eñ Vesteiñ Son. Vesteiñ Aust-Madur var Vegeyrsson, Broodir Vebjarnar Signa-Kappa, Biarnar var Son Ans Raudfellds, Grijmssonar Lodiñkiña Aurvar Odds, Ketilssonar Hængs, Hallbiarnar Hꜳlf-Trølls. Vesteiñ Vesteinsson giørdist Far-Dreingur goodur; þo mꜳtti hañ Bw i Onundar-Firdi undir Hesti, þa hier er komid Søguñi: Kona hañs het Guñhilldur, Bergur og Helgi hetu Synir hañs. Eptir þetta Andadist Þorbiørn Swr, svo Kona hañs, eru þau i Haug løgd, eñ Gijsle og Þorkell taka vid Bwinu.

## V. Cap.

Þorbiørn het Madur, og var kalladur Selagnwpur, hañ bioo i Tꜳlkna-Firdi, ad Krijnganda-Felli. Þordijs het Kona hañs, eñ Asgerdur Doottir, heñar bidur Þorkell Swrsson, og getur hana ad eiga, eñ Gijsle Swrsson eignadist Systir Vesteins Audi Vesteinsdoottir: Bwa nu bꜳdir samañ i Hauka-Dal. Eitthvørt Vor ꜳtti Þorkatli hiñ Audgi Þordarson, Vijkingsson, Før Sudur til Þorness-Þijngs, og filgdu þeir hønum Swrs-Synir. J Þornesi bioo þa Þorsteiñ Þoskabijtur, Børn hañs voru Þordijs, Þorgrijmur og Børkur eñ Digri. Þorkatli lauk Mꜳlum sijnum ꜳ Þijngi, eñ eptir Þijngid baud Þorsteiñ heim Þorkatli Audga, og med hønum Swrs-Sonum, og gaf þeim goodar Geafir ad Skilnadi: Eñ þeir budu Vestur þꜳngad Þorsteins-Sonum, Añad Vor til Alþijngis, og uu fara þeir heim: Eñ ad ødru Vori fara Vestur þꜳngad Þorsteins-Synir Toolf samañ til Hulseyar-Þijngs, hittast þeir þar og Swrs-Synir, biooda þeir þa Þorsteins-Sonum heim af Þijnginu, eñ skylldu þo ꜳdur vera ad Heimbodi hiꜳ Þorkatli Audga. Eptir þad fara þeir til Swrs-Sona, og þiggia þar Veitslu gooda. Þorgrijmi lijst Systir þeirra Brædra væn, og bidur heñar, þvi nærst er hun hønum fostnud, halldid Brwdkaup, og filgir heñi heim-

añ

eñ Sæbool, og riedst Porgrimur Vestur þangad, eñ Børkur er eptir i Piing-Nesi og Systir hañs, Saka-Steirn og þeir Poroddur. Nu bijr Porgrimur a Sæbooli, eñ þeir Swrs-Synir fara a Hool, og reysa þar goodañ Bæ, og liggia þar samañ Gardar a Hooli, og Sæbooli. Nu bwa þar hvørtveggiu, og er Vinfeingi þeirra gott. Porgrimur hefur Godord, og er þeim Brædrum ad hon um stoor Styrkur: Peir fara nu a eitt Vor-Piing med 40. Maña, og voru aller i Lit-Klædum: Par var i Før Vesteiñ Magur Gisla, og aller Syrdæler.

## VI. Cap.

Vestur het Madur, og var Oddleyfs-Son; Hañ var i Bwd hia Porkeli Audga. Nu sitia þeir vid Dryckiu Siirdæler, eñ adrer Meñ voru ad Doomum, þviad Sooknar-Piing var: Pa kemur Madur iñ i Bwd þeirra, Haukdæla-Gasse mikill er Arnor het, og mællti: All-mikid er uñ ydur Haukdæle, er hier gaid einskis añars eñ drecka, og vilied ei koma til Dooma, þar sem Piing-Meñ ydrer eiga Maalum vid ad skiptast, og þyker svo øllum, þo eg qvedi upp. Pa mællti Gisle: Gaungum til Dooma, maaske þetta mæle fleiri... Gaanga þeir nu til Doomaña, og spyr Porgrimur ef nockrer være þeir Meñ er þyrftu þeirra Lidveitslu, og skal ei epterliggia þad sem vær meigum þeim veita, er vær heitum Lide medañ vier erum uppe.? Pa svarar Porkatle eñ Audge: Lijtils eru Maal þesse verd, er Meñ eiga hier vid ad skiptast, eñ vær munum ydur til segia, ef vær þurfum ydar Lidveitslu. Finst nu Møñum Ord uñ Skrautlegañ Flock þeirra, og uñ Maals-Enda þeirra, hvørsu skøruglegur var. Porkatle mællti þa til Gests: Hve leingi ætlar þu ad Kapp þeirra Haukdæla, og Ysergaungur mune vara svo mikill? Gestur svarar: Ei munu þeir aller sambirker hid Pridia Sumar, er þar eru i þeim Flocki. Arnor heyrdi Tal þeirra, og hlioop iñ i Bwd þeirra Haukdæla, og segir þeim þesse Ord: Gisle svar-

 ar:

ar: Hier mun hañ mikil Maal talad hafa, eñ vørunst vær ad ei verdi hañ Sañspaar ad þessu, enda sie eg gott Raad til þessa, ad vær bindum Vinfeingi vort med meirum Fastmælum, og sverinnst i Foostbrædralag Fioorer. Þetta siinist þeim Raadlegt: Gaanga nu wt i Eyrarhvols-Odda og rista þar upp Jardar-Men, svo baader Endar voru i Jørdu faster, og settu þar under Maala-Spiot, þad er Meñ maattu taka Hendi siñe til Geyrnagla; Þeir skylldu þar 4. under gaanga: Þorgrijmur, Gijsle, Þorkell og Vesteiñ; Og nu vekia þeir sier Blood, og laata reña samañ Dreyra siñ, i þeirri Molld er upp var skoriñ i Jardar-Meninu, og hræra samañ allt, Molldena og Blooded; Og sijdañ falla þeir aa Kne og sveria þañ Eid, ad hvor skal añars hefna sem Broodur sijns, og nefna øll God i Vitne: Og er þeir tookust i Hendur aller, þa mællti Þorgrijmur: Ærin Vanda hefi eg, þo eg geori þad vid þaa baada Þorkel og Gijsla Maaga mijna, eñ mig skylldar ecki til vid Vestein, og hnicker ad sier Hendi siñe. Svo munum vær þa gøra fleire, segir Gijsle, og hnicker siñe Hendi, og skal eg ei binda mier Vanda vid þañ Mañ, er ei vill vid Vestein Maag miñ. Nu þyker Møñum mikils verdt um̃ þetta. Gijsle mællti þa til Broodur sijns: Nu foor sem mig grunade, og mun þetta fyrir ecki koma: Fara Meñ nu heim af Þijnge.

## VII. Cap.

Þad var nu til Tijdinda um̃ Sumarid, ad Skip kom wt i Dijrafyrde, (*) Og aattu Brædur 2. Norræner Meñ: Het añar Þorir, añar Þorariñ, og voru Vijkversker ad Kyne. Þorgrijmur reid þegar til Skips, og keypti Fiordung Vidar, og gaf sumt Verdid þegar i Hønd, eñ sumt aa Frest: Sijdañ setia Kaupmeñ upp Skip sitt i Sanda-Ose, og taka sier Vister.

Oddur.

(*) Añó 960. Took Rijke i Norveige Haralldur Graafelldur.

Oddur er Madur nefndur, og er Aurligsſon, hañ bioo ad Eyre i Skutulsfyrde: Hañ took vid Stijremañe. Nu ſender Þorgrijmur Son ſiñ til ad bera ſamañ Vidiñ og telia; þvi hañ villde brádlega heim flytia: Hañ foor, talde og bar ſamañ Videñ; og þyker þo nockud añañ Veg miñ Kaup þeirra, eñ Þorgrijmur hafde fyrr mællt: Mællti hañ þa illa vid Auſtmeñ, eñ þeir ſtooduſt þad eigi og vogu hañ. Epter þad fooru þeir fra Skipe, og vilia til Viſtar ſiñar: Þeir fara Dag þañ og Noottena, uns þeir koma i Dal þañ er geingur upp af Skutulsfyrde, eta þar Dag-Verd og fara ad ſofa. Nu eru Þorgrijme ſøgd Tijdindiñ, bijſt hañ þegar heimañ; og lætur flytia ſig yfir um Fiørd, og fer eptir þeim Brædrum: Fiñur þa og drepur Þorarin og Þorer, þar ſem nu heiter Dagverdar-Dalur, og Auſtmaña-Fall. Epter þetta foor Þorgrijmur heim, og vard frægur af þeſſu Verki. Um Vorid taka þeir Mágar Þorgrijmur og Þorkell, Skip þad er Auſtmeñ høfdu att: Auſtmeñ þeſſer voru U-eyrdar-Meñ mikler i Norvege, og høfdu att þar U-vært. Nu bua þeir Skip þetta og fara Utañ: Þad Sumar fara og Utañ Veſteiñ og Gijſle i Skelia-Vijk i Steingrijmsfyrde, og læta hvorutveggiu i Haf. Ønundur i Medaldal rædur fyri Bue þeirra Þorkels og Gijſla, eñ Saka-Steiñ med Þordijſi a Sæ-Boole. Þañ Tijma redi Haralldur Graafelldur fyri Norvege. Þeir Þorgrijmur og Þorkell komu Nordarlega vid Norveg Skipi ſijnu, og hitta Kong brádt, gaanga fyri hañ, og took Kongur þeim vel: Geordust þeir honum Handgeingner, og verdur gott til Fear og Virdingar. Þeir Gijſle og Veſteiñ voru uti 100. Dægra, og ſiglldu um Veturnætta-Skeid ad Hørdalande i miklu Fiuke og Ofvidre um Noott, briootu Skip ſitt i Spoon, eñ hallda Fee ſijnu og Møñum.

## VIII. Cap.

Madur het Skeggbiælfe, og ætti Skip i Førum; Hañ ætlade til Dañmerkur

Sudur. Þeir sala ad hønum hoalft Skiped, hañ qvadst spurt hafa ad þeir væri gooder Dreinger, og gaf þeim hoalft Skipid, og launa þeir þegar meir eñ fullu. Nu fara þeir til Danmerkur, i þañ Kaupstad er i Vebiørgum heitir, og eru þar uñ Veturiñ med þeim Mañi er Sigraddi het; Þeir voru þar Prijr; Vesteiñ, Gijsle og Bioalfe, var gott Vinfeingi med þeim og Geafa-Skipte. Eñ sneíma uñ Vorid bioo Bioalfi Skip sitt til Islands: Madur het Sigurdur Felæge Vesteins; Narræñ ad Ætt, og var þa oa Einglande Vestur; Hañ sendi Vesteine Ord, og qvadst vilia slijta Felag vid hañ, og þooktist ei þurfa hañs Fee lengur. Bidur Vesteiñ nu Leifis; Gijsle svarar: Pa skalltu þvi heita mier ad þu farer allrei brott af Islande, ef þu kemur heill wt, nema eg leifi þier. Nu jaatar Vesteiñ þvi.

Eiñ Morgun rijs Gijsle upp og geingur til Smidiu, þañ var allra Maña hagastur, og best ad sier uñ alla Hluti: Hañ geordi Pening þañ er ei stood miña eñ Eyre, og þnitar saman Peningiñ, og eru 20. Naddar oa 10. oa hvørium Hlut, og þyker sem heill sie ef samañ er lagdur, og maa þo taka sundur i 2. Hluti. Eñ fraa þvi er sagdt ad hañ tekur i sundur Peningiñ, og selur añañ Hlut i Hendur Vesteine, og bidur þaa þetta hafa til Jardteikna, og skulu vid þetta þvi ad eins sendast oa milli, ad Lijf añars Tveggia ligge vid; Eñ mier segir svo Hugur uñ, sem vid munum þurfa ad sendast oa milli, þo ad vid hittunst ei sialfir. Fer nu Vesteiñ Vestur til Einglands, eñ þeir Gijsle og Bioalfi til Norvegs, og wt uñ Sumarid til Islands, og vard gott til Fear og Sæmdar, og skildu vel sitt Felag. Kauper nu Bioalfe Skip hoalft ad Gijsla, og fer Gijsle svo Vestur i Dijrafiørd oa Byrdinge einum, vid Toolfta Mañ.

## IX. Cap.

Nu bwa þeir Skip sitt i ødrum Stad, Þorgrijmur og Þorkell, og koma ut i Haukadals-Aar-Os i Dijra-Firdi. Pañ sama Dag, sem Gijsle hafdi þaangad siglt Byrdindinum, hitt ast

ast þeir brædt, og vard þar Fagnadar-Fundur: Fara nu hvørtveggiu til Eigna siña, hefur þeim og gott til Fear ordid Þorgrijmi og Þorkeli. Þorkell var Ofslæti mikill, og vañ ecki fyri Bwi þeirra, eñ Gijsle vañ Nøtt med Dei-gi. Þad var eiñ goodañ Vedur-Dag, ad Gijsle liet alla Meñ viña Hey-Verk, nema Þorkel, hañ var eiñ heima Karlmaña i Bænum, og hafdi lagst nidur i Elld-Hws eptir Dagverd siñ. Elld-Hwsid var Tijrædt ad Leingd, eñ Tiju Fadma breidt, eñ utañ og Suñañ undir Elld-Hwsinu var Dijngia þeirra Audar og Asgierdar: Saatu þær þar og saumudu: Þorkell vaknar, og geingur til Dijngiuñar, þvi hañ heyrdi þangad Mañs-Maal, og leggst þar nidur hia Dijngiuñi. Asgierdur tekur til Orda: Veittu mier þad Audur, ad þu skerir Skirtu Þorkeli Boonda mijnum, ei kañ eg þad betur eñ þu segir Audur, og mundir þu ei mig bidia, ef þu skilldir skera Vesteini Broodur mijnum Skir-tu: Eitt er þad sier segir Asgerdur, og svo mun mier þikia nockra Stund, laungu vissa eg þad segir Audur, hvad vid sig var, og Rædum ecki uñ þad fleyra: Þad þiki mier ecki Brijxli segir Asgierdur, þo mier þiki Vesteiñ goodur, hitt var mier sagt, ad þid Þorgrijmur hittust miøg opt, ædur eñ þu værir Gijsla gefiñ, þvi fylgdu eingir Mañ-Lestir segir Audur, þvi eg took eingañ Mañ undir Gijsla, og munum vid nu hætta þessari Rædu, eñ Þorkell heyrdi hvørt Ord er þær mælltu, og tekur til Orda nær þær hættu. Heyr Und ur mikid, heyr Ørlægi, heyr Maal mikid, heyr Mañs-Bar-na, eins edur fleyre, og geingur iñ eptir þad. Þa mælti Audur: Opt Stendur Illt Af Kveña-Hjali; Og mun þad vera hier hliootist af i verra Lægi, og leitum ockur Raa-ds: Hugad hefi eg mier Raad segir Asgierdur, þad hlijdg mun, eñ ecki sie eg fyri þijna Hønd, hvørt er þad qvad Aud-ur? Leggia upp Hendur uñ Haals Þorkeli, er vid komum i eina Reckiu, og mun hañ þetta fyrergefa mier, og segia Lygi, eigi mun þvi einn meiga fyrirhlijta segir Audur, og mun eg segia Gijsla Boonda mijnum, allt þad er eg æ vant ur ad ræda edur ræda. Uñ Aptaniñ kemur Gijsle heim

 af Verk,

af Verkinu: Þorkell var vanur ad backa Gijsla Verkid, eñ nu er hañ hlioodur og mælti ecki Ord: Nu spyr Gijsle hvørt honum væri þungt? Ei er Soott segir Þorkell, eñ Soottu er verra þo, hefi eg nockud þad giørt segir Gijsle, er þier þikir a vid mig uñ? Sa er eingiñ Hlutur segir Þorkell, og muntu þess vijs verda, þo ad sijdar sie, og geingur nu siñ Veg hvør þeirra Þorkell neitir lijtt Matar uñ Kvolldid, og geingur fyrstur Maña ad sofa, og er hañ var i Reckiu komiñ, kemur þar Asgierdur, og liptir upp Klædum, og ætlar nidur ad leggiast, þa tekur Þorkell til Orda: Ecki ætla eg þier hier ad liggia Nætt-længt, þa mælti Asgierdur: Þvi hefur skiott skipast, edur hvad ber til? Þorkell mællti: Bædi vitum vid nu Søkina; þoott eg hafi leingi leindur verid, og mun þiñ Hroodur ecki ad meiri, þoott eg mællti berara, hun svarar: Rada muntu Hugleidingu þiñi uñ þetta, eñ ei mun eg leingi þæfast til Hvijluñar vid þig, og uñ Tvo Kosti ættu ad velia: Sa er Añar, ad þu tak vid mier, og læt sem ecki hafi i ordid, añars mun eg nefna mier Votta nu þegar, og segia skilid vid þig, og mun eg læta Fødur miñ heimta Mund miñ og Heimañfilgiu, og mun þad sa Kostur, ad þu hefur allrei af mier Hvijlu-Þraung sijdañ. Þa þagnadi Þorkell, eñ mællti uñ sijdir: Þad ræd eg, ad þu giørir hvørt þier lijkar, eñ ei mun eg bañna Reckiuna Nætt-længt, hun lijsti brædt, hvørt heñi þookti betra, og foor þegar i Reckiu sijna: Ei hafa þau bædi leingi samañ leigid, ædur eñ þau semia þetta med sier, svo sem ecki hefdi i ordid. Audur kom nu i Reckiu hia Gijsla, og segir honum Rædur þeirra Asgierdar, og bidur hun af sier Reidi: Bidur hañ taka nockud gott Rad ef hañ sægi, ei sie eg Rad til sem duga mun segir hañ, eñ þo mun eg ei kuña þig um þetta, þvi mæla verdur einhvør Skapa-Mælunum, og mun þad fram koma sem audid verdur.

* * * * * *

* * *

X. Cap.

## X. Cap.

Mulljda Misserin̄ af Hendi, og kemur ad Fardøgum, þa heimter Þorkell Gijsla Broodur sin̄ aa Tal vid sig, og mællti: Svo er hættad Frændi segir han̄, ad mier er Raada-Breitni i Hug, vijkur þvi svo vid, ad eg vil vid skiptum Fee ockar, og vil eg Raadast til Bwlags med Þorgrijmi Mangie Mijnum, Gijsle svarar: Saman̄ Er Brædra Eign Best Ad Siaa, ad vijsu er mier Þock aa ad kirt sie, og skiptum eingu. Þorkell mællti: Ei er nu̅ ad tala, og skiptum Fenu ad vijsu, og fyri þad eg beidi Skiptis, þa skalltu hafa Boolstad og Fødur-Leysd ockar, en̄ eg skal hafa Lausa-Fee, ef ecki skal ødru vid koma, og geør þu hvørt er þu villt, ad kioosa edur skipta: Svo lauk, ad Gijsle skipti, en̄ Þorkell kaus Lausa-Fee, Gijsle hefur Land, þeir skiptu og Omegd, voru þad Tvø Børn, Sveirnin̄ het Geyrmundur, en̄ Mær in̄ Goþrijdur, hun var med Gijsla, en̄ Sveirnin̄ med Þorkeli. Foor Þorkell nu til Mangs sijns, og bioo med honum, en̄ Gijsle hafdi Bw eptir, og saknadi einkis i, ad Bw væri verra. Lijdur nu svo ad Vetur-Noottum, var þad þa margra Man̄a Sidur i þan̄ Tijd, ad fagna Vetri, og hafa Veturnætta-Bloot og Veitslur, en̄ Gijsle hafdi aflagt Bloot sijdan̄ han̄ var i Vebiørgum i Danmørk, en̄ helldt þo Veitslu og Stoormen̄sku. Nu aflar hn̄ til Veitslu mikillrar, og bijdur þeim Nøfnum baadum, Þorkatle Audga og Þorkatle Eriksſyne, og Mangum sijnum Biartmars-Sonum, og mørgum ødrum: Þan̄ Dag er Men̄ komu þar, tekur Audur til Orda: Þad þyker mier nu ad hier er eins Man̄s vant, villda eg ad Vestein̄ Broodur min̄ væri nu hier, þvi han̄ munda eg til-kioosa ad njoota Fagnadar med oss. Gijsle mællti: An̄an̄ Veg er mier hier um̄ gefid, þvi eg villde Stoormikid tilgefa, han̄ kiæmi hier nu ecki.

* * * * * *
* * *

11. Cap.

## XI, Cap.

Madur het Þorgrimur, og var kallaður Ref, hañ bioo a Ressstöðum fyrer utañ Haukadals-Aa; Hañ var fullur af Gölldrum og Geörningum: Hönum biooda þeir Þorgrimur og Þorkell, og var hañ Seidskratte sem mest maatte verda; Hañ var og hagur a Jaarn, og er þess vidgetid, ad þeir Þorgrimarner geingu baader til Smidiu, og Þorkell: Siidañ byrgia þeir Smidiuna. Nu eru tekiñ Grasiidu-Brot, er Þorkell hafdi hlotid i Skiptum þeirra Bræðra, og geörir Þorgrimur þar af Spioot, og var þad algeördt ad Kvölde: Maal var i, og fært i Hepti Spañar-laangt. Nu verdur þar ad hvijlast. Eñ fraa því er sagdt ad Önundur wr Medaldal kemur ad Bode til Gijsla, bregdur hönum a Eintmæle, og mællti ad Vesteiñ være wtkomiñ, og er hañs hijngad Von. Gijsle bregdur vid skiott, og kallar til siin Hwskarla sijna, Hallvard og Haavard, og bad þaa fara Nordur i Önundarfiörd og hitta Vestein, og bera hönum Qvediu sijna, og þar med, ad hañ sie heima þar til eg sæke hañ heim, og komi ei til Bodsins i Haukadal, og selur i Hendur þeim Hutjtilskauta, og var þar i Peningur hælfur til Jardteikna, ef hañ tryde ei Sögu þeirra ella. Siidañ fara þeir og hafa Skip wr Haukadal, og rooa til Lækiar-Oss, gaanga a Land til Boonda þess er bioo a Bessastødum, hañ het og Besse: Þeir bera hönum Ord Gijsla, ad hañ liedi þeim Hesta 2. hañ atti, og hetu Sandvettir, er skiootaster voru i Fiördum; Hañ liær þeim Hestana, og rijda þeir unst þeir komu a Mosvöllu, og þadañ iñunder Hest. Nu rijdur Vesteiñ heimañ, og ber svo til ad þa rijdur hañ under Meliñ hiaa Mosvøllum, er þeir Brædur rijda hid Efra, og fooru þeir svo a Mis.

* * * * * *
* * *

XII. Cap.

## XII. Cap.

Horvardur het Madur er bioo i Hollte; Hwskarlar hañs deilldu um̃ Verk, hiugguſt med Lioaum, og vard hvorutveggi ſaar, kemur Ve-Steiñ til og ſætter þaa, og geører ſvo til ad hvorutveggium hugnar vel: Rijdur nu til Dijrafiardar, og Auſtmeñ 3. ſamañ. Eñ er Hallvardur og Haavardur koma under Heſt, fregna þeir um̃ Ferdir Veſteins, rijda nu aptur ſem þeir meiga: Og er þeir koma til Mosvalla, ſiaa þeir Mañа-Reid i midium Dal, og var þa Leyte i millum þeirra; Rijda nu i Biarnar-Dal, og koma til Arnkels-Brecku, þar ſprijnga baader Heſtarner: Þeir reña þa af Heſtunum og kalla, heyra þeir Veſteiñ nu, voru þa komner aa Giemlufalls-Heide og bijda. Nu hittaſt þeir og bera upp Eyrende ſijn, og afhendtu Peningiñ hañ Gijſle ſendi honum: Hañ tekur hiñ Peningiñ wr Fee-Gyrdle ſijnum, og rodnar mikid aa ad ſiaa. Satt ſegi þid, ſegir hañ, og munda eg fyrr aptur horfid hafa, ef þid hefdud mig fyrr hittañ, eñ nu falla øll Votn til Dijrafiardar, og mun eg þaangad rijda: Auſtmeñ ſkulu apturhverſa; eñ þid ſtijgid aa Skip, og ſegid Gijſla og Syſtur miñe mijna þar-Komu. Þeir koma heim og ſegia ſvo ordid: Gijſle ſagde ſvo yrde nu ad vera. Veſteiñ fer nu til Giemlufalls, og let Frændkona hañs flytia hañ yfir Fiørdiñ, og mællti: Vertu var um̃ þig, þurfa muntu þeſs vid. Hañ var fluttur til Þijngeyrar, þar bioo Þorvalldur Gneyſte; Hañ let honum heimilañ Heſt ſiñ, Rijdur hañ nu vid Hrijmande og heſur ſitt Sødul-Reide; Hañ ſylger honum til Sanda-Hwſs, og bidur ad fylgia honum allt til Gijſla, og ſagde hañ þeſs vidþurfa, þvi margt heſur ſkipaſt i Haukadal ſijdañ þu varſt þar, ſegir hañ: Og vertu var um̃ þig. Rijdur nu Veſteiñ þar til hañ kemur i Haukadal, og var aa biart Vedur med Tunglſkyne: Eñ Hiw þeirra Þorgrijms laata Naut iñ, Geyrmundur og Kona ſw er Rañveig het, Bæſir hun Naut, eñ hañ rekur iñ ad heñi. Þa rijdur Veſteiñ

þar uñ Voll, og hitter Geyrmundur hañ, og mællti: Kom þu ecki hier a Sæbool, far til Gijsla og vert var uñ þig. Rañveig hafde geingid wt wr Fiooſinu, og vard vor vid Mañiñ og þykiſt kieña: Præta þau þa uñ Mañiñ hvor verid hefdi, og ganga vid bad heim. Þeir Þorgrijmur ſitia vid Elld, og ſpyr hañ hvort þau hefdu Mañ ſied, edur uñ hvad þau þrættiſt? Rañveig ſvarar: Eg þooktiſt keña ad Veſteiñ være hier komiñ i blaarre Kapu og Spioot i Hende; og reid vid Hrijmande; Eñ hvad ſegir þu Geyrmundur? Ogeørla ſa eg, ſegir hañ; Eñ Hwskarl ætla eg Onundar wr Medaldal, og var i Kapu Gijſla, eñ Sødul-Reide Onundar, og i Hendi Fiſke-Staung, og vedra af upp. Añadhvort yckar lijgur, ſegir Þorgrijmur; og far þu Rañveig a Hool, og vit hvad þar er tijtt. Hun foor og kom til Dyra, er Meñ voru i Dryckiu: Gijſle var i Dyrum og heilſade heñi, og baud heñi þar ad vera; Hun qvedſt heim ſkyllde, og villda eg hitta Gobrijde Mey. Andur Kona Gijſla ſpurde hana Eyrinda? Hun qvadſt ein vera Eyrinda ſiña: Og komuſt eingiñ upp. Gijſle bad hana þar vera edur heim fara. Hun foor heim og var þa nockud heimſkare eñ adur, ef a ujætti giæda, eñ kuñe eingiñ Tijdinde ad ſegia. Eñ epter uñ Morguniñ, let Veſteiñ bera ad ſier Tøſkur Tvær er Varningur var i, þa Hallvard og Haavard: Hañ took þar wr Refil Sextugañ ad Leingd, og Høfud-Dwk 20. Alna laungañ, og oſid i Glit af Gulle, og Muñlangar 3. ſaadar med Gulli: Þetta bar hañ frañ, og gaf Syſtur ſiñe, Gijſla og Þorkeli Svarbroodur ſijnum, ef hañ villde þyggia. Gijſle geingur og Þorkatlar 2. a Sæbool til Þorkels Broodur ſijns, og ſegir hønum ad þar ſie komiñ Veſteiñ, og hañ hafi gefid þeim baadum ſamañ Gripi: Sijner hønum, og bidur hañ hafa ſlijkt er hañ vill. Þorkell ſvarar: Þu værer maklegur ad eignaſt alla, og vil eg ei þyggia Gripena: Ei eru Launeñ ſijñe eñ ſvo, og vill viſt ei þyggia. Gijſle fer heim, og þyker eiñ Veg a horfaſt.

* * * * * *

XIII. Cap.

XIII. Cap.

**N**U var þad til Mijluuda á Hoolt, ad Gijsle lætur illa i Svefni, Tvær Nætur i samt, og ei vill hañ seigia Drauma sijna: Þridiu Noott eptir Vanda, fara meñ til Reckna siña, og er Meñ voru komnir i Svefn, kemur Bilur svo mikill á Hwsid, ad af took Þekiuna ødrumeigiñ. Eptir þad fiell svo mikid Vatn ur Himni, ad þad var Odæmi, og tooku Hws ad driwpa sem Von var. Gijsli spratt upp, og heitir á Meñ sijna ad skijli. Þræll eiñ var med hønum, nefndur Þordur eñ Huglausi: Þrælliñ var heima, eñ Gijsle foor og nær allir Meñ adrir til Heyaña, og duga þeim vid, ei villdi hañ Vesteiñ færi med þeim, og er mest tooku ad driwpa Hwsiñ, færu þau Systkin Reckium sijnum uñ Endilángt Hws, voru Meñ allir adrir brott geingnir. Nu er i Hwsid nockud fyri Lijsing Hlioodlega geingid iñ, og þángad ad sem Vesteiñ hvijlir, hañ var þa vaknadur, ei fiñur hañ firr, eñ hañ er lagdur Spiooti fyri Brioostid, og gegnum hañ, eñ er hañ feck Lægid, mællti hañ þetta: Hneyt Þar segir hañ. Þvi nærst geck Madriñ ut, eñ Vesteiñ villdi uppstanda, og fiell hañ daudur nidur fyri Stockiñ. (*) Audur vaknar vid, og kallar á Þord hiñ Huglausa, og bidur hañ taka Vopn ur Undiñi: Þad var þa mællt, ad sá skylldi hefna, er tæki Vopn ur Und, vorú þad kølluð Laun-Vijg, eñ ei Mord, er Meñ lietu Vopn i Beni standa. Þordur var Lijk-blaudur, og þordi hvørgi nærri ad koma. Gijsle kom þa iñ, og sá hvad i Efni var, bad Þord vera kirrañ, took siálfur Spioot ur Sári, og kastadi Al-Bloodugu i Aurk eina, og let eingañ siá. Sijdañ let hañ uñ Lijk Vesteins bwa, sem Sidur var i þañ Tijd. Vesteiñ var Harmdaudur, þa mællti Gijsle til Goþrijdar Foostru siñar: Þu skallt fara á Sæbool, og vita hvad Meñ hafast þar ad: Trwi eg þier betst uñ þetta, og Aũad, þu kant segia mier þad hvad þeir hafast þar ad, eñ sem hun kom á Sæbool,

voru

(*) Año 962. Veigiñ Vesteiñ.

voru þeir uppríſnir, og ſaatu med Vopnum ſijnum: Þor⸗grijmur Tveir og Þorkell, og er hun kom iñ, var heñi heil⸗ſad Obrædt, þviad Fvolk var fleſt ſaa⸗mælugt, þo ſpyr Þorgrijmur hana Tijdinda? Hun ſegir Vijg Veſteins, edur Mord: Þorkell ſegir: Tijdindi mundu vſs þad þookt hafa eina Stund. Sa Madur er þar laatiñ ſegir Þor⸗grijmur, er vier erum allir ſkilldir Virding veita, og giøra hañs Utfør ſem Sæmilegaſta, er ſlijkt viſt Mañ⸗Skadi; Mættu og ſegia Gijſla, ad vier munum þar koma i Dag. Hun foor heim, og ſegir Gijſla, ad Þorgrijmur ſat med Hiaalm og Sverd, og ollum Her⸗Bunadi, eñ Þorgrijmur Nef hafdi Bol⸗Oxi i Hendi, Þorkell hafdi Sverd brugdid, of Handſaaug, og allir Meñ voru þar uppríſnir med Vop⸗num.

## XIV. Cap.

GIJſle bijſt nu med Lid ſitt ad heyg⸗ia Veſtein, i Sand⸗Mel þeim, ſem aa ſtendſt vid Orf⸗Tiorn, fyri Nordañ Sæbool: Og ſem Gijs⸗le var aa Leid komiñ, fara þeir Þorgrijmur til Haug⸗Geørdariñar, eñ ſem þeir veitt hofdu Veſteini Umbunad, geck Maduriñ Þorgrijmur ad Gijſla, og mællti: Þad Tijdkaſt ad binda Møñum Hel⸗Skoo ſegir hañ, er þe⸗ir ſkulu aa gaanga til Valhallar, og mun eg Veſtein þad giøra, og ſem hañ hafdi þad giørdt, mællti hñ: Ecki kañ eg Hel⸗Skoo binda, ef þeſſer loſna. Eptir þetta ſetiaſt þeir nidur undir Haugnum, og laata all⸗Olijklega, Þorkell ſpur di Gijſla, hvørſu berſt Audur af um Broodur⸗Daudañ? Vita muntu þad þykiaſt, ſegir Gijſle, ad hun berſt lijtt af og þyker mikid. Draum dreymde mig (ſegir Gijſle) i Fyrre⸗Noott, og i Noott, þo vil eg ei aa⸗qveda hvør Vijg⸗id hefur uñid; Þañ Draum dreymde mig þa fyrre Noott, ad af einum Bæ hræckiſt Høggormur, og hivo Veſtein til Bana; Sijdare Noott dreymde mig, ad Vargur riñi af ſama Bæ, og bite Veſtein til Bana, og ſagde eg þvi hvør⸗ugañ Draumiñ, ad eg villde hvørke geinge epter; Og qvad Gijſle þa Vijſu.

Betur

Betur hugda ek þa brygde,
Biþkat ek Draumſins Þ:idia,
Syks af Svefne voktum
Saar Teina Veſteine.
Þa er vier i Sal ſaatum
Sigur-Hadds, vid Miod gladder. * *

Þorkell ſpyr eñ; Hvorſu berſt Audur af um Broodur-Daudañ? Þraatt ſpyr þu þeſſa Frænde, ſegir Giſſle, og er þier Forvitne a. Qvad Giſſle þa eñ Viiſu.

Hrynia lætur af hvijtum
Hvarm-Skoogie Gnæbauga
Hraun-Hreiſingum Hrañar
Hlaatur-Bañ i Kne Svaña,
Hnetur Leſs eñ þreyr þeſſum.
Þogn at Mærdar Rogne,
Snaka Twns af ſijnu
Sioon-Epli Bol-groonu.

Nu gaanga þeir Brædur heim eptir þad baader ſamañ: Þa mællti Þorkell: Mikil Tijdinde hafa hier giorſt, og munu þier verda ad meira Harmi eñ oſs, eñ ei ad ſijdur Verdur Hvor Med Sioalfum Sier Leingſt Ad Fara; Villda eg ad þu lietir þier þetta ei mikils fa, ad M. reñi þar þvi ſijdr Grunnm i; villda eg ad vær tækium nu upp Leika, og være nu ſvo vel med oſs ſem þa betſt var. Vel er þetta mællt, ſegir Giſſle, og vil eg þad giora, þo med þeim Hætte, ef nockud kañ þad til ad bera a þiñe Æſe, ad þier þyke jafnmikid og mier þyke þetta, þa ſkalltu mier þvi heita, ad giora þad med ſama Moote og Hætte ſem þu beyder mig nu. Þeſſu jaatar Þorkell, og med þad fara þeir heim, og drecka Erfi epter Veſtein. Sijdañ fer hvor heim til ſijn, og er nu allt kyrrt.

* * * * * *
* * *

## XV. Cap.

Nu tookust upp Leikar sem ecki hefdi i Norded, og eiga þeir Maagar optast Leik samañ, Gijsle og Þorgrijmur, og verda Meñ ei aa-saatt-er hvør sterkare mune, þo ætla flester Gijsla frek-ara: Þeir leika Knattleika aa Seftiørn þeirre, og var þar jafnañ Fiølment. Þad var eiñ Dag ad miøg Fiølment var komid til Leiksins: Gijsle bad jafnlega skipta til Leik-sins, þad vilium vier vijst, enda vilium vier þu sparer þa ei af vid Þorgrijm, þvi þad Ord flijgur uñ ad þu sparer af, eñ vier iñum þvi allvel þu feinger sem mesta Virding af, ef þu ert sterkare. Ecki høfum vid þad reyndt, segir hañ, eñ verda maa vid reynum þad. Leika þeir, og hefur Þor-grijmur nu eckt vid; fellde Gijsle hñ og bar Knøttiñ wt. og villde taka af hønum Knøttiñ, eñ Þorgrijmr hiellt. Þa felldi Gijsle Þorgrijm svo hart, ad Skiñ foor af Knwum, eñ Blood stock wr Nøsum, og Kiøt geck af Kniaam. Þor-grijmur stood seint upp, leit til Haugs Vesteins og mællti: Geyr i Guma-Saarum gnast, og kañ ei lasta. Gijsle took Knøttiñ aa Skeyde, og rekur aa milli Herda Þorgrij-mi, so hañ steiptist aafram, og mællti: Bøllur aa Burdar Stalle brast, eñ eg kañ ei lasta. Þorkell mællti: Nu maa þad siaa hvør sterkastur er, edur mestur Atgerfis Madur, og hættum nu; Tookust þa af Leikar, og fæckade med þeim. Þorgrijmur hefur nu Veturnaatta Bod, ad fagna Vetre og blota Frey, og bijdur þaangad Berki Broodur sijnum, Eyulfi Þordarsyne og mørgu ødru Stoormeñi: Eñ Gijsle bijdur til Veitslu Maagum sijnum wr Onundarfyrde, og þeim Þorkøtlum bardum, og skorti ei haalft Hundrad Maña ad Gijsla: Skyllde Dryckia vera hiaa hvørutvegg-ium i señ, og var straad ad Sæboole af Sefi wr Seftiørn. Eñ er þeir Þorgrijmur tiallda Hwsiñ, og Von var a Bods-Møñunum uñ Kvølldid, þa mællti Þorgrijmur vid Þor-kel: Vel kiæmi oss nu Neplar þeir goodu, er Vesteiñ vill-de gefa þier, þækti mier sem þar væri nu laangt i milli hvørt

þu

þu hefder þæ med ølluedur allrei, og villda eg þu lietir nu ſækia þæ. Þorkell ſvarar: Allt Kañ Sæ Hoofid Kañ, og mun eg ei epter þeim ſenda; Pa ſkal eg geøra þad, ſegir Þorgrijmur, og bad Geyrmund fara, eñ hañ villde ei. Þorgrijmur geingur þa ad hønum og ſlær hañ Bwffert mikid, og mællti: Far nu ef þier þykir betur. Fara ſkal nu þo verr ſie, ſegir hañ: Eñ vit fyri viiſt, ad Vilia ſkal eg til hafa ad ſæ þier Fyliu, er þu ſær mier Fola, og er þa ei varlaunad. Siidañ fer hañ; Og er hañ kemur æ Bæeñ, voru þau Giiſle og Audur bwiñ ad læta upp Tiølldiñ. Geyrmundur ber frañ Eyrindiñ, og ſegir ſem farid hafdi: Villtu Audur liæ Tiølld, ſegir Giiſle? Ei ſpyr þu þeſſa af þvi þu viter eige, ſegir hun, og villda eg þeim være hvørke þetta nie añad til Gooda geørt, þad þeim væri til Sæmdar-Auka. Giiſle fær hønum Gripina, fylger hønum æ Leid og mællti: Nu er þañ Veg, ad eg þykiſt ſæmilega geørt hafa Ferd þijna, og villda eg þu værer mier ſvo Leidi-kamur uñ þad mig vardar, Pvi Sier Æ Geof Til Gialldа, og vil eg þu læter Lokur fræ Hurdum i Kvølld, og minder ſo hvørſu þu varſt beiddur til Ferdariñar. Geyr-mundur ſegir: Er Þorkeli Broodur þijnum vid eingu hætt? Vid alls eingu, ſegir Giiſle: Pa mun þetta æ Leid ſnwaſt, ſegir Geyrmundur: Og nu er hañ kemur heim, kaſtar hañ nidur Gripunum. Pa mællti Þorkell: Olijkur er Giiſle ødrum Mønum i Poliñmæde, og hefur hañ betur eñ vær. Þeſſa þarf nu vid, ſegir Þorgrijmur, og læta upp Refiliñ. Siidañ koma Bodsmeñ uñ Kvølldid, og þicknar Vedrid: Geørir þa Logn-Drijfu, og hylur Stigu alla.

## XVI Cap.

Aurkur og Eyolfur koma þar uñ Kvølldid med Sextijge Maña, og var þar Hundr. Maña, eñ hælft ad Giiſla: Tooku Meñ til Dryckiu uñ Kvølldid, og foorn eptir þad i Reckiur ad ſofa. Giiſle mællti vid Konu ſijna: Eg hefi ecki

giefid Hesti Þorkiels Audga, og gack þu med mier, láttu Loku frá Hurdu, og vak medañ eg geing brott, og lát þa frá Loku, er eg kem aptur. Hañ tekur nu Spiootid ur Orkiñi, er giørt var ur Grásijdu-Brotunum, hafdi þad þar verid sijdañ Vesteiñ var veigiñ. Geingur hañ sijdañ til Lækiar þess, er fellur millum Bæaña, og tekid var Neytingar-Vatn af hvørtveggiu Bænum, geingur sijdañ Gøtu til Lækiar, og vedur Lækiñ til Gøtu þeirrar, er lá til hins Bæarins, var Gijsla kuñug Hwsa-Skipan á Sæbooli, þvi hañ hafdi giørt þar Bæ: Þar var iñañ geingt i Fioos, og þángad geingur hañ, þar voru Priátijge Kwa hvøru meigiñ, hañ knijtir samañ Halana i Nautunum, lijkur sijdañ aptur Fioosinu, og bijr svo um̄, ad ei má iñañ til upplwka, þo til sie komid. Sijdañ fer hañ til Hwsaña, hafdi Geyrmundur geimt Hlut Verka siña, þviad Loka var eingiñ fyri Hurdum: Geingur hañ nu iñ, lijkur aptur Hurdina, og fer ad øllu Toomlega. Eptir þad stendur hañ, og hlijdist af, hvørt nockur vekti, verdur hañ þess var, ad Meñ sofa, Þriu vorn Log i Skálanum, hañ tekur Sef, og kastar i eitt Lioosid, þa verdur hañ þess var, ad ei muñu allir sofa, þvi á eitt Lioosid kemur Mañs Hønd., og slockur þad: Nu geingur hañ iñar eptir Hwsinu, og ad Lok-Hvijluñi, þar Þorgrijmur hvijlir og Systir hañs, og er þar hnijgiñ Hurd á Gátt, eru þau bædi i Reckiu, geingur hañ þa þángad, og þreyfast fyri, og tekur á Brioosti heñi, þvi hun hvijldi nær Stocki. Sijdañ mællti Þordijs: Þad er kølld Hønd þijn Þorgrijmur, og vekur hañ, Þorgrijmur mællti: Villtu ad eg snwist ad þier? Gijsle bijdur þa eñ um̄ Stund, og vefur Høndina i Serk sier, og veriur, eñ þau sofna bædi. Nu tekur hañ á Þorgrijmi tirt, svo hañ vaknadi, hañ hugdi Þordijs vekti hañ, og snijst ad heñi. Gijsle tekur þa Klædiñ af þeim Añari Hendi, eñ med Añari leggur hañ i gegnum Þorgrijm Grásijdu, svo i Bednum nam Stad. Þordijs kallar nu: Vaki Meñ i Skálanum, Þorgrijmur Boondi miñ er veigiñ. Gijsle snijr i brott skindilega til Fioossins, þar sem hañ hafdi ætlad, lijkur eptir sier

Rañ-

Nafnlega, fer heim Sømuleid, maa ei sioa Spor hañs. Audur lætur Lokur fraa Hurdu er hañ kom, og fer hañ i Sæng sijna, sem ecki sie i-ordid: Eñ Meñ voru allir Ølærir aa Sæbooli, og vissu ei hvad af skylldi raada. Kemur þetta aa þa Ovara, og urdu ei tekiñ þau Raad sem dugdu, edur Þørf var aa.

## XVII. Cap.

ÞAr er nu fraa ad segia, ad Eyolfur tekur til Orda, og mællti: Hier eru ordiñ mikil Tijdindi og ill: Er Foolk þetta Vitlanst, er hier er samañ komid, sijnist mier Raad, ad kveykia Lioos og hlaupa til Dyra, svo Vegandi meigi ei ut komast: Svo er nu giørt, þikir Møñum sem saa myni nockur þar iñi, sem Vijgid hefur uñid. Lijdur svo til þess Dagur kiemur, er þa tekid Lijk Þorgrijms, og burt kipt Spiootinu, og til Graptar bwid, eru þar ad Sextijgi Maña: Fara nu aa Hool til Gijsla, Þordur eñ Huglausi sier Lidid, hleipur iñ og segir hier fara Her ad Bænum, er miøg Flumosa, og fellur ei. Gijsle qvad Vijsu.

Fellur eigi eg fullum,
Flock ruñ Haattar Muñi,
Rodid hesi ek Margra Maña
Mord vid hvoriu Ordi,
Laatum vær þo voga
Vijgrunur hnijgiñ lijgi,
Komiñ er Þyss i þessa
Þiood uñ oss sem hlioodast.

Nu koma þeir aa Bæiñ Þorkell og Eyolfur, gaanga upp ad Lok-Reckiu þeirri sem Gijsle hvijldi, Þorkell geck upp fyri Hvijlu-Goolf, og sier hvar Skoor Gijsla laau frosnir og Snæugir, hañ skarar þa upp undir Foota-Bordid, svo ei skylldu sioa þa adrir Meñ. Gijsle fagnar þeim vel, og

spyr Tijdinda: Þorkell qvad bædi mikil og ill; Spyr hvøriu gegna mundi, edur til Rooda taka; skaint er milli Illra Verka og Stoorra segir Gijsle: Vilium vier til þess bioodast, ad heyga Þorgrijm, og eigi þier þad ad oss, ad vier giørum þad med Sæmd: Þetta þiggia þeir, og fara allir til Haug-Giørdar til Sæbools, leggia Þorgrijm i Skip, og verpa Haugiñ eptir Gømlum Vanda, og er bwid er ad lyckia Haugiñ, geingur Gijsle ad, og tekur upp Stein stooran sem Biarg væri, og leggur i Skipid, svo nær þookti hvørt Tre hrøckva i Skipinu, þa mællti Gijsle: Ei kañ eg Skipi ad festa, ef þetta tekur Vedur upp, og var þad nu margra Mañna Mool, ad ei þækti all-Olijklegt fara, þvi er Þorgrijmur hafdi vid Vestein giørt, er hañ ræddi uñ Hel-Skoona. Nu bwast þeir heim fraa Hauguum, þa mællti Gijsle vid Þorkel Broodur siñ: Þad þikiunst eg ad þier eiga Broodir, ad nu sie ockar Vinfeingi, sem þa betst hefur ver, id, og tokum nu upp Leyka: Þorkell tekur þvi vel, fara nu hvørtveggiu heim. Gijsle hefur nu ei all-Mañfaatt, er slitid Bodinu, og gefur hañ siñum Bods-Møñum good-ar Gaafur.

## XVIII. Cap.

Er nu Druckid Erfvi eptir Þorgrijm, og gefur Børkur Vin-Giafir mørgum Møñum. Og giørist þad þa þvi næst Tijdinda, ad Børkur kaupir ad Þorgrijmi Nef, þad hañ efle Seyd ad þeim Mañi, sem Þorgrijm hefur veigid, svo hønum meigi ecki ad Biørg verda, þo Meñ villdu duga hønum: Uxi Niju Vetra var hønum giefiñ til þess. Nu flitur Þorgrijmur frañ Seydiñ, og hefur Uñbwod eptir Vana, giør-ir sier Hiall, og fremur þetta Fiølkuñuglega, med allri Ergi og Skielmirsskap, vard og saa Hlutur eiñ, er ad Nijnæm-um þookti gaanga, ad alldre festi Snioo utañ og suñañ aa Haugi Þorgrijms, og eigi fraus, gaatu Meñ þvi til, ad hañ mundi Frey svo kiær verid hafa fyri Blootiñ, ad hañ mundi ei vilia ad frisi aa millum þeirra. Foor nu svo

fram

fram̃ um̃ Veturin̄, og eiga þeir Leyka ſaman̄ Brædur. Børkur geingur þar i Bw med Þordiſi og ſær hṽar: Hun foor ei einſaman̄ medan̄ þetta var, og fædir Sveín, er han̄ Vatni auſin̄, og nefndur Þorgrijmur eptir Födur ſijn-um: Eñ er han̄ Ox upp, þookti han̄ þungur i Skap-Lindí og Oeyrin̄, var þa ſuwid Nafui hans, og kalladur Snorri Gopi. Børkur bioo þar þau Miſſere, og eiga þeir Leyka ſaman̄. Kona er nefnd Audbiørg, er bioo i ofan̄verdum̄ Dalnum a Am̃arkaſtødum, hun var Syſtir Þorgrijms Nefs, hun hafdei ætt ſier Boonda er Þorkell hiet, og nefnd ur Am̃arki: Sonur hṽar het Þorſtein̄, han̄ var einhvør ſterkaſtur ad Leykum an̄ar en̄ Giſle, þeir eru jafnan̄ ſier i Leyk, Giſle og Þorſtein̄, en̄ þár i moot Børkur og Þorkell. Einhvørn Dag kom þar Fioldi Man̄a ad ſiaa Leykin̄, þvi mørgum var Forvitni, ad vita hvør Sterkaſtur væri, edur Leyk-Madur betſtur, en̄ þar ſem vijdar, er þvi meira Kapp, ſem fleyri koma til Leykan̄a. Peſs er gietid, ad Børkur hefur ecki vid Þorſteini um̃ Dagin̄, og Reidiſt ad Lyktum, og brant i ſundur Knatt-Trie Þorſteins, en̄ Þorſtein̄ felldi han̄, og rak vid Svell nidur: En̄ er Giſle ſier þad, mællti han̄, ad han̄ ſkylldi leyka ſem han̄ hefdi til vid Børk, og mun eg ſkipta Triaam vid þig, ſvo geora þeir, Giſle ſetur ſig nidur, og georir ad Triennu, horfir a Háug Þorgrijms, en̄ Snioor var a Jørdu. Konur ſætu upp i Breckũni, Þordijs Syſtir hans og fleyri. Giſle qvad þa Viſſu, er alldre æſa ſkylldi.

Teina ſaa ek i Twni,
Tal Grijms Vinar Fæln,
Gatz þeſs er geygum veitag,
Gim̃bliks var þa miklu,
Nu hefur Gun̄ſtijgur Geyra,
Grijmu Proott varſoottan̄,
Þan̄ let Lundur um̃ Lendar,
Lands-Koſta Ar Branda.

Þordijs nam, geingur heim, og ried þegar Wijsuna. Þeir skilia nu Leykiñ, fer Þorsteiñ heim. Madur het Þorgeyr Orri, hañ bioo a Orrastødum. Bergur het Madur, og var kalladur Skamfootur, hañ bioo a Skamfootar-Mijri fyri Vestañ Aana. Nu er þeir fara heim, ræda þeir uñ Leykiñ, Þorsteiñ og Bergur, og deyla ad Lokum, er Bergur med Berki, eñ Þorsteiñ mooti, og listur Bergur Þorstein Axar-Hamars-Hogg, eñ Þorgeyr stood milli, so Þorsteiñ gat ei hefndt sijn, fer hañ heim til Moodur siñar Audbiargar, bindur hun Saar hañs, og lætur ei vel yfir hañs Ferd. Kerling sær ei sofid uñ Noottina, svo var heñi bumbullt: Vedur var kaldt uti, og Logn heidrickt, hun geingur nockrum Siñum Andhælis uñ Hwsiñ, og vidrar i allar Ættir, setur upp Nasir: Eñ vid þessa heñar Medferd, took Vedur ad skipast, og gørdi Fiwk mikid, og eptir þad Þey, og brestur Flood i Hlijdiñi, og hleypur Snæ-Skrida a Bæ Bergs, og fa þar Toolf Meñ Bana, og sier eñ Merki Jardfallsins i Dag.

## XIX. Cap.

Nu fer Þorsteiñ a Fund Gijsla, og skijtur hañ Skiooli yfir hañ, og fer hañ Sudur i Borgarfiørd, og þar utañ :. Eñ er Børkur friettir þesse Tiidindi, fer hañ uppa Aññmarkastadi, lætur taka Audbiørgu, fer med hana ut a Sallt-Nes, og ber hana Grioti i Hel, og er þetta er lidid, fer Gijsle heimañ, og kemur a Nesstadi, tekur Þorgrijm Nef Høndum, og færir a Sallt-Nes, er dreigiñ Belgur a Høfud hønum, og bardur Grioti i Hel, og kasadur hia Systur siñi i Hriggnum milli Haukadals og Medaldals, er nu kirt, og lijdur a Vorid, fer Børkur Sudur a Þijng-Nes, og ætlar ad raadast þangad, bikist einga Virdar-Før Vestur farid hafa, latid slijkañ Mañ sem Þorgrijmur var, eñ feingid einga Leidriettu. Hañ fer nu Ferd sijna, og skipar þar til Bws sijns, eñ ætlar ad geora adra Ferd eptir Fee sijnu, og Konu: Þorkell Sursson ætladi og ad Raadast þangad

med

med Mægie ſijnum. Fra þvi er ſagt, ad Þordijs Swrs-Doottir, hefur leiddañ Bœrk a Gotu, Kona hañs eñ Syſt-ir Gijsla, Pa mællti Bœrkur: Nu vil eg þu ſegir mier, þvi þu varſt ſvo O-glød i Hauſt, þa vid ſlitum Leiknum, og þu hietſt ad ſegia mier, ædur eñ eg færi heimañ, þau eru þa komiñ ad Haug Þorgrijms, hun ſijngur þa vid Footum, og ſegiſt ei fara leingra, ſegir hun hvad Gijſle qvad, þa hañ leit Haugiñ, og ætla eg (ſegir hun) ad ei þurfi til añ-ara ad leita uñ Vijg Þorgrijms, og munu rieit bwiñ Mæliñ hønum æ Hendur. Bœrkur veidur ækaflega reidur, og ſegiſt vilia þegar aptur ſnwa og drepa Gijsla, eñ þo veit eg ei hvad ſatt er i þeſſu ſem þu ſegir, Og Eru Opt Kølld Kveña Ræd: Gat Þorkell ſo uñtalid, til þeſs þeir komu ad Sand-Os, þar æa þeir' Heſtum ſijnum. Bœrkur var Fæmælugur, eñ Þorkell ſagde hañ villde hitta Onund Vin ſiñ; Hñ rijdur ſvo hardt, ad brædt ſal Sijn, ſnijr þa Leid ſiñe wt æ Hool, og ſegir Gijsla hvad tijdt er, og ad Þordijs hefur roſid Mæliñ eñ rañſakad Vijſuna, og eru Mæl uppkomiñ. Gijſle ſegir: Ei hooktunſt eg þeſs verdur fræ heñi, þvi eg þykiunſt þad lijſt hafa nockrum Siñum, ad hefur ei heñar Uvirding betur þookt eñ ſiælfs mijns, hef eg ſtundum lagt Lijf mitt i Hæſka fyri heñar Saker, eñ hun hefur nu gefid mier Bana-Ræd; Pad vil eg nu vita Brooder, hvad eg ſkal þar eiga ſem þu ert? Slijkt og eg heſt nu adgiørdt ad vara þig vid, ſegir hañ, ef Meñ vilia drepa þig, eñ Biarger veiti eg þier eingar, þyk-er mier mikid adgeørdt vid mig, ad drepiñ er Þorgrijmur Mægur uñ, Felage og virtta Vinur. Gijſle ſegir: Var ei þeſs Von uñ ſlijkañ Mañ ſem Veſteiñ var, ad ei munde Heſndalauſt vera? Og munde eg ei þier ſvo ſvara, þo ſvo være æſtatt, ſem þu mier, og ei helldur geøra; Skilia þeir ad ſo mælltu. Nu fer Þorkell i moots vid Bœrk, og fara þeir Sudur til Þorneſs-Þijngs, og ſkipar Bœrk til Bws ſijns: Eru med hønum i þeirre Før Þorkell Swrsſon, og Syſtur-Syner Barkar, Þoroddur og Sa-kaſteiñ; Par var og i Før Auſtmadur eiñ, er Þorgrijmur

 het;

het: Þeir rijda nu til Sanda-Oſs. Þa mællti Þorkell: Eg a hier Skulld ad heimta a einum Bæ litlum, nefner Bæiñ, og vil eg þangad rijda og heimta Skulldena, hier rijdid epter helldur toomlega. Og er Þorkell kemur þar ſem hañ hafde a-qvedid, þa bidur hañ Hwsfreyuna ad hun ſkipte Heſtum vid ſig, og læt þeñan ſama ſtanda fyri Dyrum, og kaſta Vadmaale yfir Sødulin, og ef Førunautar mijner koma epter, ſeig þu eg ſitie i Stofn og telie Sylfur: Hun fær hønum añan Heſt, rijdur hañ ſkindilega, þar til hañ hitter Giſſla, ſegir hañ hvad um er, og ad Børkur er Veſtur komiñ.

## XX. Cap.

Nu er nu til Maals ad taka, ad Børkur bijr Maal til Þorneſs-Þijngs a Hendur Giſsla, uñ Vijg Þorgrijms; A þeim Tijma ſelur Giſſle Land ſitt Þorkatle Erikſſyne, og tekur vid lauſa Aura: Hañ ſpyr Þorkel Broodur ſiñ hvørt hañ vilie hønum nockra Aſiaa veita? Hañ ſvarar ſem fyrr: Qvadſt munde geora hønum Nivoſn, være hønum nockrar Atfarer geørvar, eñ fyrra ſig Sakargiptum. Þorkell rijdur nu brott, og hagar ſvo Ferd ſiñe ad hañ komſt a Bak þeim. Børkur ſeinkar nu Ferdiñe helldur. Giſſle tekur nu Eyk eiñ, og ekur til Skoogar med Fearhlut ſiñ, og med hønum Þræll hañs, Þordur hiñ Hugglauſe. Þa mællti Giſsle: Opt hefur þu mier hlijdiñ verid, og miñ Vilia hvervetna geørvañ, a eg þier þvi Goodu ad launa. Giſſle var all-opt i blaarre Kaapu og vel bwiñ; Hañ varpar nu af ſier Kaapuñe og mællti: Þeſſa Kaapu gef eg þier, og vil eg þu niooter nu þegar og farer i hana, og ſit ſijdañ i Sledanum, eñ eg mun Eykina leida og vera i Kuſl þijnum. Svo geora þeir. Giſſle mællti: Þeſs ſkalltu giæta, ef nockrer Meñ kalla a þig, ad ſvara eingu, eñ vilie nockrer þier Meiu geora, þa halltu til Skoogarins; Eñ þad var jafnfært uñ Vit og Hughreyſte, þviad hvørge var neitt til. Giſſle leider nu Eykina: Þordur var mikill Madur Vexti, þar

ti, þar þaatt i Sledaunum, hrooſadi ſier og helldur, og þooktiſt veglega bwiñ. Nu ſiaa þeir Børkur Ferd þeirra til Skoogarins, og hleypa epter hvatlega: Eñ er Þordur ſier þad, hleypur hañ wr Sledaunum ſem hardaſt til Skoogar. Þeir hyggia Gijſla, og hleypa epter ſem akafaſt, kalla aa hañ ſem þeir geta, eñ hañ þeiger vid og hleypur ſem hañ maa; Þorgrijmur Auſtmadur ſkijtur epter hønum Spioote, og kemur milli Herda hønum, vard þad hañs Bana-Saar. Þa mællti Børkr: Skiootu Mañahepp-naſtur. Þeir Brædur ræddu þa ſijn i milli, þeir villdu fara epter Prælnum, og vita hvørt nockur Hugur er i hønum, ſnwa ſvo til Skoogarins: Eñ þeir Børkur koma nu ad Blaakaapu-Mañinum, og draga af hønum Høttiñ, þykir nu miña Happ i eñ villdu. Eñ þad er nu ſagdt þeir Brædur komu ad Skooginum, og er Gijſle þa komiñ i Skoogiñ, ſvo hañ ſier þaa og þeir hañ: Skijtur þa añar Spiooti til hañs, eñ hañ hendte aa Lopte og ſendi aptur, og ſloo þad i gegnum Þorodd midiañ; Steiñ ſnijr þa mooti Felogum ſijnum, og ſegir ei greidfært, eñ Børkur vill þa þangad leita, og ſvo geora þeir. Og ſem þeir komu ad Skoogenum, ſier Þorgrijmur Auſtmadur hvar Limid hræriſt, og ſkijtur ad Spiooteu gagngeordt, og i gegnum Kaalfañ aa Gijſla, eñ hañ ſender aptur og gegnum Þorgrijm, ſvo hañ liet Lijf ſitt. Nu leita þeir uñ Skoogiñ, og fiña Gijſla ei, hverfa aptur vid ſvobwid til Bæarins, og bwa nu til Maal aa Hendur Gijſla uñ Vijg Þorgrijms, og eingañ Hlut taka þeir þadañ i Feaarhlutum, fara ſijdañ heim; Eñ Gijſle ſer aa Fiallid ad Hwſa-Bake, og bindur Saar ſitt medañ þeir voru aa Bænum. Eñ er þeir voru aa brott, foor Gijſle heim og bioo Ferd ſijna, fær ſier Skip og flytur þadañ miñiñ Feaarhlut: Fer med hønum Audur Kona hañs, og Godrijdur Fooſtra hañs wt til Haganeſs, og koma þar aa Land. Gijſle geingur til Bæarins og hitt-er þar Mañ, ſaa ſpyr hvor hañ være? Gijſle ſegir ſlijkt ſem hønum ſijndiſt, eñ ei þad ſem var: Tekur Gijſle þa upp Stein eiñ, og kaſtar i Hoolma þañ er þar var fyri Lan-

de,

de, og bad Boonda-Son þar epter gøra, þa hañ kiæme heim, mun hañ þa nærri geta (segir hañ) hvør verid hefur; Eñ bad var einskis Mañs ad viña, og kom þad þar eñ fram, ad Gijsle var hvørium betur ad Iþroottum bwiñ. Epter þad geingur hañ a Baatiñ, og reri yfirfyri Nesid, og svo yfir Arnarfiørd, og yfir þañ Fiørd er geingur iñ af Arnar-Fyrde; Sa heiter Geyrþioofs-Fiørdur, þar byst hañ uñ, gøreer upp Alhysi, og er þar uñ Veturiñ.

## XXI. Cap.

Ad er nu þessu næst, ad Gijsle georir Ord Maagum sijnum Helga, Sigurdi og Vesteyri, ad þeir færi til Þijngs, og bioodi Sætt fyri hañ, ad hañ yrdi ei Sekur: Þeir fara nu til Þijngs Biartmars-Synir, og komu eingn Aleidis uñ Sættina, og kalla Meñ þeir hafi illa borid sig, svo ad þeim hafi nærsta fallid Skapi. Þeir segia Þorkeli Audga hvad tijdt er, og qvaadust ei þora ad segia Gijsla Sekt sijna. Þorkell Audgi fer til Fuudar vid Gijsla, og segir hañ Sekañ giørvañ, Gijsle spyr hvørs hañ skal þar Von eiga? Eñ þeir segia Þorkatlarnir, ad þeir muni skioota Skiools-Hwse yfir hañ, med þeim Hætti, ad þeir læti ei Fee sitt fyri þa Søk, fer Þorkell heim eptir þetta. Svo var sagt, ad Gijsle var Þria Vetur i Geyrþioofs-Firdi, eñ Stundum med Þorkeli Eyreksþyni. Adra Þria Vetur fer hañ of allt Land, hittir Høfdingia, og bidur sier Lids: Eñ Sakir Trøllskapar, er Þorgrijmur Nef hafdi frañi hast i Seydinum og Atqvæda, verdur þess ecki audid, ad Høfdingiar taki vid hønum, og þoott Stundum þætti þeim ei svo Olijklega horfa, þa bar Allstadar nockud vid, hañ var þo laungum med Þorkeli Eyreksþyni, og hefur hañ Sex Vetur verid i Sektiñi. Eptir þetta er hañ Stundum i Geyrþioofs-Firdi, a Bæ Audar, eñ Stundum i Filsni fyri Suñañ Aana, er hañ hafdi giørt, eñ Añad Filsne atti hañ vid Kleysaruar Sudur fraa Gardi.

XXII. Cap.

## XXII. Cap.

Nu er fraa þvi ad segia, sem Børkur spyr þetta, ad hañ bijr Ferd sijna heimañ, og hittir Eyolf hiñ Graa, er bioo i Arnar-Firdi i Otrar Dal, og bidur, ad hañ leyti eptir Gijsla, og drepi hañ i Secktiñe, qvadst mundi giefa hønum til þess Þriu Hundr. Silfurs, ad hañ leggi aa alla Stund, ad leyta eptir Gijsla: Eñ hañ took vid Feenu, og heitir hønum siñi Uñi sijslu. Madur var med Eyolfi, og kalladur Rioosnar-Helgi, hañ var bædi fraar og skign, og var hønum uñ alla Fiordu kuñugt, hañ er sendur i Geyrþioofs-Fiørd, ad vita hvort Gijsle væri þar, hañ verdur var vid Mañiñ, og veit ei hvørt Gijsle er edur añar Madur, hañ fer heim, og segir Eyolfi til svo bwins, hañ qvadst vijst vita, ad þad mundi Gijsle verid hafa, og bregdur vid skioott, fer heimañ vid Siounda Mañ, verdur ei var vid Gijsla, og fer vid svo bwid heim aptur. Gijsle var vitur Madur, Drauma mikill og Berdreymur. Þad kemur samañ øllum Vitrum Møñum, ad Gijsle hafi allra Maña leingst i Seckt verid og setid, añar eñ Grettir Asmundarson. Fraa þvi er sagt Eitt Haust, ad Gijsle liet illa i Svefni eina Noott, þa er hañ var aa Bæ Audar, og er hañ vaknar, spyr hun hvad hañ dreymde? Hañ segir: Eg aa Draum-Konur Tvær, er Øñur vel vid mier, eñ Øñur segir mier jafnañ, þad er mier er ei uñt, og spaair mier Illu: Eñ þad dreymdi mig, ad eg þooktist gaanga ad Hwsi Einu edur Skaala, og iñ i Hwsid, og þar kiendi eg marga Frændur mijna og Vini: Þeir saatu vid Ellda, og drucku, voru sumir Elldarnir bruñir eñ sumir sem biartastir; Þar kom iñ Draum-Kona mijn su betri, og segir: Elldar merkia Alldur þiñ, hvad eg ætti eptir O-lifad, og hun ried mier þad medañ eg lifdi, ad laata leydast eñ forna Sid, og nema einga Galldra nee Forneskiu, og vera vel vid Daufañ og Halltañ, Faatækañ og Faaraadañ: Ei var Draumuriñ leingri, og svo qvad Gijsle nockrar Vijsur ut af Draum sijnum. *********

## XXIII. Cap.

## XXIII. Cap.

FRaa þvi er nu ad segia, ad Børkur þriÿstir ad Eyolfi fast, þikir hañ svo ei filgia sem hañ villdi, og qvad ei mikid koma fyri Fied, er hañ feck hønum i Hendur, og þikist hañ þess vijs ordiñ, ad Gijsle sie i Geyrþioofs-Firdi, sendir Børkur Meñ ad leita eptir Gijsla, edur segist sialfur fara mundi: Eyolfur vaknar vid skiott, og sendir þegar Rioosnar-Helga til Geyrþioofs-Fiardar, hefur hañ Vistir med sier, og var aa brott Viku, og situr nu um̃, ad verda var vid Gijsla, sier þad nu eiñ Dag, ad hañ geingur fraa Filsnum sijnum, og keñir Gijsla, bregdur vid skiott, og segir Eyolfi. Eyolfur fer nu med Fiorntijge Meñ, og hitta Bæ Audar, eñ fiña Gijsla ei, leyta iñ̃ alla Skooga, og fiña hañ ei ad helldur, og koma aptur til Audar, og bijdur Eyolfur heñi mikid Fee, ad segia til Gijsla, eñ hun took þvi fiærri, þeir heita þa ad meida hana ad nockru, og tiaair þad alls ecki, og verdur vid svo bwid heim ad fara, og þikir þesse Ferd en Hædilegasta, og er Eyolfur heima um̃ Haustid. Gijsle skilur nu, þo hañ yrdi ei i þad Siñ fundiñ, þa muni hañ þo tekiñ verda, þar svo er skamt aa milli, þvi riedst nu Gijsle heimañ, og iñ til Strandar, og fiñur Þorkel Broodur siñ i Hvam̃i, hañ drepur aa Dyr aa Svefn-Hwsi þvi er Þorkell laa i, hañ kom ut, og heilsar Gijsla, qvedst Gijsle nu vita vilia, hvøria Lidveitslu hañ vill veita, og segist vænta goods Fulltijngis, er nu leingi þrøngt ad mier, og hef eg leingi til þessa sparad. Þorkell svarar hinn sama, segist einga Biørg þa hønum veyta vilia, er hønum meigi Sakir aa giefa, eñ qvadst mundi faa hønum Silfur, Fee og Fararskioota, ef hañ medþirfti. Gijsle segir: Sie eg nu, ad þu villt mier ecki Lid veyta, faa mier nu Þriu Hundr. Vadmaala, hugast mier svo, ad eg muni ei þraatt krefia þig Lids: Þorkell giørir nu svo, fær hønum Vørn og Silfur nockud. Gijsle qvadst nu þiggia mundu, eñ sagdist þo ei mundi hafa svo liettlega vid hañ giørt, ef hañ stædi i hañs Rwmi, þikir nu Gijsla

fyri

ſyri i, er þeir ſkiliaſt. Hañ fer nu ut i Vadal til Moodur Geſts Oddleifſſonar, kemur þar fyri Dag, og drepur aa Dyr, geingur Hwsfreya til Dyra, hun var opt von ad taka vid Skoogar-Moñum: Hun aatti Jard-Hws, var Añar Endi ut vid Aana, eñ Añar i Elld-Hwſi, og ſier eñ þeſſa Merki. Þorgerdur fagnar vel Gijſla, mun eg þad til-laata vid þig ſegir hun, ad þu dvelieſt hier uñ Hrijd, eñ ei maa eg þad vita, ad þad ſie nema Kveñ-Vœlar einar, Gijſle qvedſt þad þiggia mundi, og ſegir ei ørvœnt, ad Konunum verdi betur eñ ſumum Kall-Moñum. Gijſle var þar uñ Veturiñ, og var hvørgi jafn-vel giørt vid hañ i Sektiñi ſem þar.

## XXIV. Cap.

Egar Vorar, fer Gijſle aptur i Geyrþioofs-Fiord, þviad hañ maa nu ei leingur vera brott fraa Audi Konu ſiñi, var hañ þar nu uñ Sumarid aa Laun: Eñ ſem Hauſtadi, tooku til ad aukaſt Draumarñir fyri Gijſla, og dreymdi hañ þa verri Draum-Konuna, Audur ſpurdi eptir hvad hañ dreymdi? Hañ qvad þa Viſu.

Villa oſs ef Ellt
Odd-ſtrijdu ſkal bijda,
Mi er geingur Sioſn i Svefna
Sauma mijner Draumar:
Stendur Eigu þad þeyge,
Þorn Reidbragar Geyre,
Aulvanañ ſelur añars
Efni mier fyri Svefni.

Segir nu Gijſle, ad Konañ ſw verri kemur opt ad honum, og vill giarnañ riooda hañ i Bloode, og lœtur einatt Illilega: Ern nu kyrr Tijdinde, fer Gijſle til Þorgerdar, og er med heñi añañ Vetur; Eñ uñ Sumarid fer hañ aptur i Geyrþioofs-Fiord, og er þar unſi Hauſtar; Þa fer

hañ

hañ til Þorkels Broodur sijns, og drepur þar ꜳ Dyr: Þorkell vill ei wtgꜳnga. Gijsle tekur þa Kebli og rister ꜳ Rwner, og kastar iñ: Þad sier Þorkell, tekur upp og lijtur ꜳ, stendur upp sijdañ og geingur wt, heilsar Gijsla og spyr Tijdinda? Eñ hañ qvadst eingiñ kuña ad segia; Er eg nu komiñ i sijdasta Siñ ꜳ ydarn Fund Frænde, og lꜳt nu verda ad skøruglegre Lidveitslu, eñ eg mun þvi launa, ad krefia þig allrei optar. Þorkell svarar hinu sama: Bijdur hønum Hross edur Skip, eñ skerst undañ añare Lidveitslu. Gijsle þyggur nu Skip, og bidur hañ setia fram med sier; Svo gører hañ, fær hañ hønum 6. Vætter Matar, og 100. Vadmꜳla. Og sem Gijsle er ꜳ Skip komiñ, stendur Þorkell ꜳ Lande. Þa mællti Gijsle: Nu þykist þu Frænde, Audnn Footum I Etju Standa, og vera Vinur margra Høfdingia, og ugger nu ecki ad þier, eñ eg Sekur, og hefi þvi margra mikillra Mañа Fiandskap mier i moote: Eñ þad kañ eg þo segia þier, ad þu munt fyrr drepiñ eñ eg, munum vid nu skilia verr eñ vera skyllde, sijdañ allrei siꜳst; Eñ vita skalltu þad, ad ei munde eg svo vid þig gøra. Ecki hyrde eg um Spꜳr þijnar, segir Þorkell: Skildust þeir nu, og fer Gijsle til Hergils Eyar ꜳ Breidafyrde. Hañ tekur þa wr Skipinn Þyliur og Þooftur, Arar og allt laust Iñbyrdis, hvelfir Skipinu, og lætur reka iñ ad Nesinum: og geta Meñ nu til ad Gijsle mune drucknadur, þar Skipid rak brotid ꜳ Land, og mun hafa þad tekid frꜳ Þorkeli Broodur sijnum, geingur nu Gijsle til Hwss i Hergils-Ey; Þar bijr sꜳ Madur er Ingialldur het, Kona hañs het Þorgerdur. Ingialldur var Systrungur Gijsla ad Frændsemi, og hafdi med hønum farid wt hijngad til Islands: Og er þeir hittast, bijdur hañ Gijsla allañ Greida, og alla Biørg þa er hañ mꜳtti hønum veita.

## XXV. Cap.

MEd Ingiallde var Þræll og Ambaatt, het hañ Svartur eñ hun Boothilldur: Helgi het Sonur Ingiallds, og var Afglapi sem mestur maatti verda og Fijfl; Hønum var sw Uñbwd veitt, ad Raufar-Steiñ var bundiñ uñ Haalsiñ, og beit hañ Gras wti sem Fenadur, og kalladur Ingiallds-Fijfl: Hañ var mikill Verti, nær sem Troll. Gijsle er þar þañ Vetur, og smijdar Ingiallde Skip og marga Lute: Eñ allt þad sem hañ smijdade var audkiendt, þvi hañ smijdade flerstum Møñum betur. Meñ undrudust þvi þad væri svo vel smijdad sem Ingialldur aatti. Hañ er aa Sumuriñ i Geyrþioofs-Fyrde: Fer nu svo fram 3. Vetur, fraa þvi hañ dreymdi Draumana, er hønum þad mesta Traust er Ingialldur veiter hønum. Þykir Møñum nu Grunsamlegt uñ allt þetta, og hyggia nu ad Gijsle mune lifa, og hafa verid med Ingiallde, eñ ei drucknadur: Leggia Meñ nu Rædur aa, ad Ingialldur aa 3. Skip oll vel gior; Kemur þesse Kvittur fyrir Eyulf hiñ Graa, og hlijtur Helgi eñ ad fara, og kemur hañ i Hergils-Ey, var Gijsle jafnañ i Jard-Hwsi er Meñ komu þar: Ingialldur var goodur Gest-Geafi, og bijdur Helga þar Gisting, var hañ þar nñ Noottina. Ingialldur var Ydiu-Madur mikill, og reri ætijd aa færañ Sioo; Hañ spyr hvørt Helga er ei aakaft nñ Ferdina, edur þvi hañ liggur? Hañ quad sier vera einkar skiallt, blies vid og strauk uñ Høfud-Beiniñ: Ingialldur bad hañ þa liggia sem kyrrastañ, og fer til Sioofar, eñ Helgi took haatt ad stynia. Nu er sagdt ad Þorgerdur geingur til Jard-Hwssens ad gefa Gijsla Dag-Verd, eñ Þyl var milli Bwrs og Hwss þess er Helgi laa i: Helgi klifrar uppaa Þylid, og saa þar var Mañe Matur deilldur, og i þvi kemur Þorgerdur iñ, og bregdur Helgi vid fast, svo hañ dettur ofañ af Þylinu. Þorgerdur spyr þvi hañ lætur svo, ad klifra i Ræfur upp og vera ei kyrr? Hañ quadst so Odverkia vera af Beinverkjum, ad hañ

mætti ei kyrr þola, og villda eg (segir hañ) þu fylgder mier til Reckiu; Hun gører svo, og geingur sijdañ brott med Matiñ. Hañ rijs upp, geingur epter heñi og sier hvad tijdt er, geingur aptur og leggst i Reckiu. Ingialldur kemur heim uñ Kvøllded, og spyr Helga hvørt hønum liettir ecki? Hañ qvad ꜳleidis snwast, og beidir sier Fars ad Morgne wr Eyñe, er fluttur til Flateyar og fer Sudur til Þijng-Ness, og segir ad hañ var ordiñ var vid Gijsla, ad hañ sie med Ingialldi. Sijdañ byst Børkur heimañ, og eru 15. Meñ ꜳ Skipe samañ, og sigla suñañepter Breida-Fyrde: Þeñañ Dag var Ingialldur rooiñ ꜳ Vastir, (*) og Gijsle med hønum; eñ Præll hañs og Ambꜳtt ꜳ ødru Skipi, og sꜳtu hiꜳ Eyum þeim er nefnast Skutuls-Eyar.

## XXVI. Cap.

INgialldur sier nu Skip koma, og þa mælir hañ: Skip siglir þar, og higg eg þad muni vera Børkur hiñ Digri. Hvad skal til Rꜳds taka segir Gijsle? Vil eg nu vita hvørt þu ert svo higgiñ, sem þu ert Dreingur goodur: Skiott er til Rꜳda mællti Ingialldur, þo ei sie eg Madur higgiñ; Roonum sem ꜳkafast ad Eyñi, og gaungum sijdañ uppꜳ Valsteina Berg, og veriunst þadañ medañ vid meigum uppi standa: Nu foor sem mig vardi segir Gijsle, ad þu mundir þad Rꜳdid fiña, er þu mættir sem betstur Dreingr af verda, eñ verri Laun sel eg þier þa fyri Lidveitsluna, eñ eg hefi ætlad, skilldir þu fyri mijnar Sakir Lijfid lꜳta, og skal añad Rꜳd taka, ad rooa ad Eyñi, og skulu þid Prælliñ gꜳnga ꜳ Berg upp ꜳ Eyuñi, og bwast til Varnar, munu þeir þa higgia mig añañ Mañiñ vera, eñ eg mun skipta Klædum vid Prælиñ, og fara ꜳ Bꜳtiñ med Boothilldi. Ingialldur giørdi nu svo, var Gijsle jafnañ Madur hiñ Rꜳdugasti, og er þeir skilia, mællti Boothilldur: Hvad er nu til Rꜳds? Vid skulum rooa ꜳ mooti þeim segir Gijsle, og

(*) Vaster Sivoar Nafn, wt a Vasti og Vijdavꜳngi.

looga ei Landenu, þo ad þraungt verde Kosti þijnum. Þa var Glwmur 15. Vetra, er hañ fijstist Utañ.

## VI. Cap.

NU er ad segia fra Utañferd Glwms, þegar hañ kom vid Land, foor hañ uppaa Vors til Vijgfwss, og er hañ kom ad Bænum, þa sa hañ þar mikid Fiolmeñi, og margskonar Skemtan og Leyka: Og þad þooktist hañ sia, ad þar mundi aa ollum Hlutum Stoormeñska vera, eñ þar sem hañ saa marga Meñ merkilega, þa visse hañ ei hvar Vijgfws mundi vera Frændi hañs: Þad Mark hafdi hañ til hañs, ad hañ saa Mañ mikiñ og Veglegañ i Ondvegi, i Skaut-Felldi Blaam, og liek sier ad Spiooti Gullreknu, geck sijdañ ad honum og kvaddi hañ, eñ hañ took vel Kvedin hañs. Vijgfws spurdi hvad Mana hañ væri? Eñ hañ kvadst vera Jslendskur og Eyfirdskur: þa spurdi Vijgfws ad Eyolfi Maagie sijnum, og Astrijdi Doottur siñi, eñ hañ kvad hañ Andadañ, eñ Astrijdi lifa. Vijgfws spurdi hvad Barna þeirra lifdi? Eñ Glwmur sagdi honum til Syst kyna siña: Eñ sijdañ sagdi hañ honum, ad þar var eiñ Sona þeirra, komiñ fyri hañ, eñ er hañ sagdi þad, þa riettist ecki af um Talid vid hañ. Glwmur bad þoo vijsa sier til Sætis, eñ Vijgfws kvadst ei vita, hvad satt var i þvi er hañ sagdi, og vijsadi honum til Sætis aa hiñ O-ædari Beck utarlega, og veitti honum litla Virding: Hañ var Faamalugur og Osidblendiñ, þvi þa adrir Meñ druncku, laa hañ og hafdi Felld yfir Hofdi sier, og gerdi sier allrei gladt, og þookti hañ þar Fool eitt. Þar var Veitsla þwiñ ad Vetur Noottum, og geort Dijsa-Blot, og skylldu allir þessa Miñing gerra. Glwmur sat þa i Rwmi sinu, og geck ei til: Eñ er aa leyd Kvolldid, og Meñ voru komnir, þa var ei svo mikil Gledi, sem lijklegt mundi þikia fyri Fagnadar-Sakir Vina-Fiolda, er þa voru margir samañ komnir. Þañ Dag er Meñ voru komnir til Bodsins, hafdi Glwmur ei ut geingid mooti Moñum, og baud eingum ad sitia hiaa sier,

ǫdur i ſijnn Rwmi: Og er Meñ voru komnir undir Bord, þa var ſagt, ad ſa Madur væri komiñ ad Bænum er Biorn het, vid Toolſta Mañ, og kalladur Jærn-Haus, hañ var Berſerkur mikill, og var þvi vanur ad koma til Mañ-Boda Fiolmeñra, og leytadi þar Orda vid Meñ: Ef nockur mætti þad mæla, er hañ mætti æ þiggia, og ſkoradi æ Meñ til Hoolmgaungu, eñ Viigſwꝫ bad, ad Meñ ſkylldu vel ſtilla Ordum ſijnum, og er þad miñi Læging, eñ taka mikid Jllt af honum, og hietu Meñ honum goodu um þad: Eñ Biorn geck i Skæalañ iñ, og leytadi Ordhilla vid Meñ, og ſpurdi æ eñ ædra Beck eñ ytſta Mañ, hvort hañ væri jafnſniallur honum? Eñ hañ kvad fiærri þvi fara: Siidañ ſpurdi hañ hvorn ad ǫdrum, þar til er hañ kom fyri Ondvegid. Jmſra Orda leytudu Meñ ſier, eñ þar kom nidur, ad eingiñ ſagdiſt jafnſniallur honum, eñ er hañ kom fyri Viigſwꝫ, þa ſpurdi hañ, hvar hañ viſſe ſlijkra Garpa Vonir? Eñ hañ kvadſt ei vita hañs Jafningia: Þa mællti Biorn: Vel er ſvarad, og Higgilega ſem Von var ad þier, þvi þu ert Virdinga-Madur, og geingid leingi ad Oſk um Liijf þitt, og eingiñ Hnecking komid Vegs þijns og Sooma: Nu er þad vel, ad eg þarf ei añad vid þig ad mæla eñ Gott eitt, eñ ſpyria vil eg þig, ef þu þikiſt jafn vid mig? Hañ ſvarar: Þa er eg var ungur og i Viijkingu, og vañ nockud til Frama, veit eg ei, hvort eg mætti þa vid þig jafnaſt, eñ nu hæalfu ſijdur, er eg em gamall og Orvaſi. Biorn ſnijr æ brott þadañ, og utar med ǫdrum Beck, og ſpyr eñ, ef nockur þikiſt jafnſniallur honum? Eñ þeir kvædaſt ei jafnſniallir honum vera. Þa kom hañ þar ad ſem Glwmur læ i Pallinum: Hvij liggur ſa Madur ſo, kvad Biorn, eñ ſitur ei uppi? Seſſunautar hañs ſvara, og veyta honum Orda-Fulltijngi, og kvædu hañ ſvo Ovitrañ, ad ei Mark mætti æ þikia, hvad hañ mællti. Biorn ſpyrnir æ hañ Fæti ſijnum og mællti, ad hañ ſkylldi ſitia upp ſem adrir Meñ, og ſpurdi ef hañ væri jafnſniallur honum, eñ Glwmur kvad hañ ecki þurfa ad eiga vid ſig, og kvadſt ecki vita uñ Snilli hañs, og vil eg af þvi i eingu vid þig jafnaſt, ad ut æ

Jslandi

Jslandi mundi sia Madur kallast Fool, er hañ Veg lætur, sem þu lætur, eñ hier hefi eg betst vitad alla Ordum stilla: Hleypur upp sijdañ og ad honum, þriisur af honum Hiaalur iñ, sijdañ þrickir hañ upp Elld-Stocki, og keyrir a milli Herda honum, og lijtur Kappiñ Biorn vid: Glwmur slær þegar Añad, og hvort ad ødru, svo ad Biorn fell, og þa er hañ villdi a Fætur færast, þa laust hañ i Høfud honum, og let svo ganga þar til, er hañ kom ut fyri Dyr: Eñ þa er Glwmur villdi til Sætis, er Vijgfws komiñ iñ a Goolfid, og allir þeir, og fagnar þa vel Frænda sijnum, kvad hañ nu hafa Raun til giort, ad hañ var hañs Ættar, skal eg nu virda þig sem ockur soomir, letst þad til hafa geingid i Fyrstuñi, ad honum leist hañ ecki Brædgeorfilegur, villdi eg þess ad bijda, ad þu færdir þig med Skørungskap i þijna Ætt, leidir hañ nu til Sætis hia sier. Glwmur kvadst þeigid mundi hafa þad Sæti, þo ad firr væri. Añañ Dag eptir er sagt Andlaat Biarnar, Vijgfws baud Glwm ad taka Rijki eptir sig og Virding, eñ Glwmur kvadst þiggia vilia, eñ fara þo ut fyrst til Islands, svo ad ei eignudust þeir Fodur-Leysd hañs, er hañ añ ei ad moota, kvadst aptur koma sem fyrst: Vijsws kvadst ætla þad Forløg Glwms, ad auka sijna Ætt og Sooma ut a Islandi. Ad Sumri lætur Vijgfws bwa Skip til Handa Glwmi, og gefur honum Farmiñ a, og mikid Fee i Gulli og Silfri, og mællti: Svo segir mier hugur uñ, ad vid siaunst ei sijdañ, eñ einka Gripi vil eg þier gefa, Felld, Spioot og Sverd, er vier høfum mikiñ Trwnad a haft Frændur: Og a medañ ad þu aatt Gripina, væntir eg ad þu tijnir ei Virdingu: Eñ þa em eg hræddur uñ ef þu loogar þeim. Sijdañ skiliast þeir.

## VII. Cap.

Nu fer Glwmur wt til Islands og heim til Þverær, hitti hañ brædt Moodur sijna, og fagnade hun honum vel, og sagde Ojafnad þeirra Fedga; Eñ bad hañ þo hafa vid Poliñmædi,

mædi, eñ qvadst til lijtils umfær ad gaanga þeim aa mooti: Reid hañ heim ad Garde, þa saa hañ ad færdur var Gardriñ, og geingid aa hañs Hlut, þa qvad hañ Vijsu.

Nærst geingur mier ok mijnum
Mendoll hinum ollum,
Yver vid Glaum hiñ græne
Gardur, eñ oss ok-vardi,
Verdur Hroodur skotad hardla,
Hier tijne eg þad mijnum,
Munát eiñ Ok-stir Staala
Starflaus Födur-Arfi.

Þad hafdi ordid til Tijdinda wt'hier medañ Glwmur var Utañ, ad Sigmundur Ohægde Astrijde, og villde koma heñi af Stadfestu siñe. Um Haustid hafdi þeim Þorkeli og Sigmunde verid vant Kvijgna tveggia, og hugdu þad ad stolid mundi vera, og letu lijkasta til Præla Tvo er Astrijdur aatti, og segia þaa Einætum etid hafa, og stefndu þeim um Vorid um Stuld: Eñ þesser Prælar voru miklir hollaster Astrijde fyri Umsiaa og Verknad; Hun þooktist valla Bwe sijnu meiga hallda, ef þeir færi fraa heñi, og fer aa Fund Þorsteins Sonar sijns, og segir honum hvorn Agaang þeir veita, bidur hañ svara fyri Prælana: Vil eg helldur Fee bæta fyri þaa, segir hun, eñ þeir væri sekir fyrī Alijge, ef ei eru betri Faung aa, og þækti mier þu nu eiga ad vera Briovst fyri oss, og segiast svo i gooda Ætt. Þorsteiñ liest þad ætla ad Maal munde svo uppborid af þeirra Hendi, ad þeir mune ætla ad fylgia med Styrk Maaga siña: Sijnist mier þad Raad, ef þesser Meñ hallda uppī Raade þijnu, ad eigum Hlut i Fee-Bootum ad þeim komī vid. Hun svarar: Svo segir mier Hugur um, ad þær einar Fee-Bætur verde, ad oss mun Meins i leitad; Eñ fyri þvi ad þar er til lijtillrar Lidsemdar ad leita er þu ert, þa mun verda ad leggia aa þeirra Valld. Þau Giærde fylgdu Þveraar-Lande, er var eiñ Akur, og kalladur Vijt-

as-Geasi, (*) Þvi hañ vard allrei afrær, (**) Eñ honum hafdi svo skipt verid med Landinu, ad sitt Sumar hvoru hvørier. Nu segir Astrijdur þeim Fedgum: Mier lijst bad (segir hun) ad þid vilied miøg fyri-koma mijnu Raade, og siaid þad ad hier þrijtur Foristu; Eñ helldur prælarner sieu uppgefnir, vil eg þetta leggia ā ydkarn Doom. Þeir qvaadu þad Viturlegt Raad: Geøra þeir nu Raad sitt, og var þesse Raadageørd þeirra ad hafa Siaalfdæmi fyri Prælana, edur sekia þaa: Eñ Þorsteiñ fylgde ei betur Maalinu, eñ þeir høfdu Siaalfdæmi, og geørdu til Handa sier Akuriñ, ad þeir skylldu hañ einer eiga, og ætla svo ad komast ad Landinu øllu ad kippa undañ þessare Stod, er aadur helldt mest uppe Raade heñar. Og þad Sumar er þa foor i Hønd, aatti hun ad hafa Akuriñ, ef ad Riettu færi. Eñ uñ Sumarid er Meñ fooru til Þijngs, og aa þetta Maal var sættst, þa foor Rauta-Madur uñ Hagā, og fañ Kvijguñar i einu Jardfalli, og hafdi fokid yfir øndverdañ Vetur, og vard þa bert Illmælid vid Prælana: Og er þeir Fedgar spurdu ad Kvijguñar voru fundnar, þa budu þeir Fee ad giallda fyrir Akuriñ, eñ þeir villdu ei laata Handsøl sijn af Akrinum: Eñ Astrijdur segir ad ei munde þu ofmikid koma fyrir Illmælid, þo hun hefdi sitt, og vil eg añadhvørt hafa þad er eg aa, edur missa, þvi þo einger vilie rietta Maalid, þa skal eñ bijda, og vænter mig þess ad Glumur mune wtkoma og rietta vort Maal. Sigmundur segir ad seint sie til Vonar uñ þa Mañeriu, þviad saa situr nu hiaa þiña Sona, er lijtlegre væri til. Hun segir: Illa Seist Opt Ossiñ Sigmundur; Kañ og vera ad þad hendi þig og þijn Raanginde.

Litlu sijdar Sumars kom Glumur wt, og er litla Hriid vid Skip, ser hañ heim til Bws sijns med And-Fear: Eñ hid sama Skaplynde hafde hañ sem fyrr, var faalaatur, og let sem hañ heyrde ecki þad er geørdst hafdi wt hier, medañ hañ var aa brott; Hvørn Morgiñ svaf hañ til Dagmaala, og añadist ecki uñ Bw. Þad Sumar aattu þan Glumur ad

(*) Vitadz-Geasi. (**) O-frioor.

ad hafa, ef ad Riettu fære: Fee Sigmundar geck þeim ad Meine miøg, og var hvørn Morgun i Twne þeirra.

Eiñ Morgun vakti Astrijdur Glwm, og sagde ad Nauka-Fiølde Sigmundar være komiñ i Twn heñar, og villde brioota Andvirki, eñ eg hefi ei Frœleika til ad reka a brott: Eru Verkmeñ og ad Viñu. Hañ svarar: Lijtt hefur þu mig ad Viñu qvadt, og skal ei illa vid verda; Sprettur upp sijdañ og tekur Hest siñ, og i Hønd sier Tre-Lurk, keyrde Nautiñ knœlega og barde þau miøg, þar til er þau komu i Twn Þorkels og Sigmundar, lætur þau þar spilla sem þau villdu. Þorkell giætti heima Andvirkis um Morgua, eñ Sigmundur fylgde Hwskørlum. Þorkell mællti vid Glwm: Þess œttu Von ad Meñ mune þier ei sitia þad, ef þu meider Fee Maña, þo þu þykist hafa framad þig Utañlands. Glwmur qvad Omeidd vera øll Naut hañs: Eñ ef þau koma optar oss ad Meine, þa munu ek øll O-lamiñ, og lœttu þo vel yfir, þvi einu kemur þu vid, munum vier og ei leingur hafa Mein af Fee ydru. Þa mællti Sigmundur: Stoorlega lætur þu nu Glwmur; Eñ slijkur Gloopallde þyker oss þu nu, sem þa er þu foorst Utañ, og munum vier ecki vort Raad gøra epter Geypan þiñe. Glwmur veik heim, og setti ad hønum Hlœtur; Brœ hønum svo vid, ad hañ gøerde følvañ i Andlite, og hrutu we Augum hønum Tœr þau er þvi voru lijk sem Hagl er stoort er, og þañ Veg brœ hønum opt vid sijdañ, er Vijga-Hugur var œ hønum.

## VIII. Cap.

ÞAd er sagt, ad eiñ Morgun er œ leid Haustid, kom Astrijdur ad Mœli vid Glwm, vakti hañ, og bad hañ skipa til Verks, kvad nu Hey-Verkum løkid verda i Dag, ef svo er til skipad sem hæfdi., þvi lokid hafa þeir Sigmundur Hey-Verkum fyrer Stundu., og fooru þau Sigmundur og Vijgdijs sneма a Morgun til Akursins Vitasgiafa, og mun þeim vel þikia fara, ad þau hafa Akuriñ, sem vier eigum med riettu, þa

ſtood Gluumur upp, og var þo ei firr bwiñ eñ ad Dagmaal-um: Hañ took þa Felldiñ Blaa, og Spiootid Gullrekna i Hond ſier, og let Sodla Heſt ſiñ, Aſirijdur mællti: Miog vandar þu nu Son miñ Bwning þiñ til Hey-Verkſins, hañ ſvarar: Ei fer eg opt til ad viña, eñ bædi ſkal þa gøra mikid og bwaſt vel til, og kañ eg þo ei vel til Verks ad ſkipa, mun eg rijda til Hoola upp, og þiggia Heimboð ad Þorſteini Broodur mijnum. Sijdañ reid hañ Sudur yfir Aana, eñ þa er hañ kom til Akurſins, took hañ Dæalck-iñ ur Felldinum, eñ þau voru aa Akri Vijgdijs og Sigmundur, eñ er Vijgdijs saa hañ, geck hun i mooti hønum, og bad hañ heilañ koma, þikir oſs þad illa, ad ſvo faatt er i Frændſemi vorri, og vilium vier eiga i allañ Hlut, ad fleyra ſie um, Glwmur ſvarar: Ecki er eñ þad ad ordid, ad ei megi vel verda i Frændſemi vorri, eñ þvi veyk eg hijngad, ad Dæalkuriñ var ur Felldi mijnum, og vil eg ad þu ſaunnir aa Riſting, hun leſt þad giarnañ vilia, og giørdi hun þad. Glwmur leit yfir Akuriñ og mællti: Eigi bræſt hañ Vitasgiaſt eñ. Sijdañ foor hañ i Felldiñ, og took Spiootid i Hønd ſier, ſnaraſt hañ þa ad Sigmundi, og bra Spiootinu, hañ ſprætt upp i mooti, eñ Glwmur hivo þegar i Høfud hønum, og þurſti Sigmundur ei fleyri, þa geck hañ ad Vijgdijſi, og ſegir hun ſkylldi heim fara, og ſegia Þorkeli, ad Sigmundur er ei Einfær af Akurinnum. Glwmur reid upp til Hoola, og ſegir Broodur ſijnum eingiñ Tijdindi: Eñ Þorſteiñ ſaa Gøerdir hañs, er hañ hafdi bædi Felld og Spioot, fañ hañ Blood i Maalunum, og ſpyr ef hañ hefdi høggved med þvi fyri Skømu, hañ ſvarar: Þad er ſatt, ei hefur mier til Hugar komid ad ſegia þad, eg drap Sigmund Þorkelſſon i Dag, Þorſteiñ ſvarar: Þad munu þeim Tijdindi þikia Þorkeli og Eſphælingum Maagum hañs, Glwmur ſvarar: Þad er fornt Maal, Ad Blood-Naturnar Eru Hvørium Brædaſtar, og mun þeim þikia lijtils uſtt verdt, er fraa lijdur. Glwmur var þar Priaar Nætur ad Kiñi ſijnu, eñ þa bijſt hañ heim, Þorſteiñ bijdſt ad fara med hønum, Glumur ſegiſt þeſs ei þurfa, og giæ-

ttu Bws þijns, eñ eg mun rijda rietta Leid miijna til Þveraar heim, munu þeir ecki svo miøg eptir þessu gaanga: Fer Glumnur nu til Þveraar, eñ er Tijdindi þesse spyriast, fer Þorkell aa Fuud Þorarins, og leytar þaangad Raada og Medferdar, hañ svarar: Vera maa nu, ad þad segi Astrijdur, ad hañ hafi ei til einskis risid aa Leggiñ, Þorkell svarar; Þad ætla eg, ad hañ hafi aa þañ Legg risid, er hañ fær ei aa stigid. Þorariñ svarar: Þad er nu sem georist, hañ þier leingi siint þeim Ojafnad, og ætlad ad færa þan til Utgarda, og litid ei aa þad, hvør Von væri uñ Afkvæm slijkra Maña sem Eyolfur var, er bædi var Ættstoor, og eñ mesti Garpur, eñ oss er Vandi aa mikill vid Glwm, fyri Frændsemis Sakir, eñ vid ydur uñ Mægdir: Og Ohægslegt siinist mier Maalid, ef Glumur fylgir, sem eg get ad vera muni. Þa foor Þorkell heim, og voru þesse Maal kirr uñ Vetuiñ.

## IX. Cap.

Ad er sagt, ad Glwm dreymdi eina Nott, hañ þooktist vera uti staddur aa Bæ sinum, og sea ut til Fiardarins, hañ þoottist sea Konu eina gaanga utañ eptir Heradinu, og stefndi þaangad til Þveraar, eñ hun var svo mikil, ad Axlernar tooku ut i Fiollin Tveggia vegna, eñ hañ þooktist gaanga ur Gardi aa mooti heñi, og baud heñi til siin, og siidañ vaknadi hañ: Øllum þookti þetta undarlegt, eñ hañ seger svo. Draumuriñ er bædi mikill og merkilegur, eñ svo mun eg hañ raada, ad Viigfws Moodur-Fadir miñ, mun nu vera Andadur, og mundi Kona su hañs Hamingia vera, er Fiollum hærra geck, og var hañ uñ adra Meñ fram uñ flesta Hluti ad Virdingum; og hañs Hamingia mun leyta sier þaangad Stadfestu, sem eg em: Eñ uñ Sumarid er Skip komu ut, spurdist Andlaat Viigfwsar Þa qvad Glwmur Viisu.

Fara sa ek Hoolms und Hialmi,
Hauks i miklum Auka,

Jord at Eyafirdi
Jöungs firra Dijsi,
Pa ſu at Dooms i Drauml,
Duls Ottu mier þookti,
Felli Gwdur med Fiöllum,
Folck vandad Hliood ſtanda.

Uñ Vorid hitti Þorkell Þorvalld Krook, og adra Sonu Þorirs, leytar eptir ad þeir munu fylgia þeſſum Mælum: Eñ hañ taldi til Skylldu vid Doottur ſijna, og marga adra Vinættu, er hañ hefur þeim veitt og Sigmundur, ſegir hañ. Þorvalldur hittir Þorariñ, og ſegir: Ad Amælisſamt muni verda, nema þeir fylgi Mæli Mægs ſijns, hañ leſi vilia ſlijkt allt, ad veyta ſem hañ hefur Faung á, og er þad nu audſied, ad Glwmur ætlar ad miklaſt af Vijgi Sigmundar, eñ vier uñum oſs ei verr Metorda i Heradinu, Þorariñ ſvarar: Svo lijſt mier ſem ad vandt muni ſvo Mælinn ad fylgia; ad ørugt ſie, edur vier vørum af, og eñ vid Uppgang Glwms, er þad ei ørvænt, ad hønum kippi i Kyn og Ætt ſijna, ſer eg þvi tregari ad eñ þier, ad mier ſijniſt Ovijs Virdingiñ, ad deyla vid Glwm: Eñ mier þikir og eigi gott, ef aukaſt vill Vanvirding vor, eñ med Aeggiun, þa bioo Þorariñ Þorisſon Mæl til Alþijngis á Hendur Glwmi uñ Vijg Sigmundar, eñ Glwmur bioo Mæl til á Hendur Þorkeli enum Hæfa, uñ Illmæli til Þrælaña, og Añad bioo hañ á Hendur Sigmundi, og ſtefndi hønum uñ Stuld, og kvad hañ drepid hafa á Eign ſiñi, og ſtefnir hønum til Ohelgi, er hañ fell á hañs Eign, og groof Sigmund upp. Sijdañ fooru Mæliñ til Alþijngis vid ſobwid, og ſookti Glwmur Frændur ſijna ad Lidveitſlu, Giſſur Hvijta, og Teit Son Ketilbiarnar frá Mosfelle, og Asgrijm Ellida-Grijmsſon, og ſegir þeim allañ Mæla-Vøxt og Agæng þeirra Fedga, Rængleti og marga Svijvirding, kvadſt hañ þar vænta Eflingar til rettra Laga er þeir voru, eñ hañ væri ſiælfur fyri: Þeir kvæduſt allir þeſs ſkylldir, ad hañs Hlutur lægi ei i Ovina Hendi, kvæduſt

fegner þvi verda, ef hans Uppreist yrdi i þeirri Ætt. Liid-ur nu Þijngid ad Doomum fram, og hafa Esphælingar fram Viigs-Maalid med Aeggium þeirra er Harma sina aattu ad minnast, enn viist var ei, ad Spiollinn munu ei aa vera. Glwmur hefur Maalid aa Hendur Þorkeli, og lo-mu Sakir i Doom, hafdi Glwmur Frænda-Afla mikinn og Vina, og er til Varna var bodid, segir Glwmur: A Þa Leyd er, ad þad maa morgum kunnugt vera, ad þier hafid Maalid meir tilbwid med Offkapi, enn ei sie Spiollinn aa, þvi ad Sigmund drap eg aa mijnu Fee, og aadur eg rida til Þijngs, siendi eg honum til Ohelgi, hann nefndi sier ad þvi Votta, og ver svo Sokina, og veittu þeir Frændur honum svo, ad Sigmundur fellur Ohelgur. Sijdann hefur Glw-mur Maal fram aa Hendur Þorkeli umm Brekraad til Feaar sijns, horfir þad Ovænt Þorkatli, þviad vitni geingu ad Glwmi, og fanst þar ei Log-Vorn i mooti, og horfdi til þess, ad Þorkell mundi verda Sekur, var leytad umm Sætt-ir vid Glwm, hann segir þa Tvo Kosti vera, ad hann mundi Sakir fram hafa, edur Þorkell selldi honum Þveraar-Land, med slijku Verdi, er hann villdi aa kveda, og var þad ei bet-ur enn Haalfvirdi, maa og Þorkell þad ætla, ef hann verdur Sekur, ad vid skulum ei baadir aa Þijngi annad Sumar. Nu aattu Hlut i Vinir Þorkels ad hann Sættist, took Þor-kell þad Raad sem honum hæfdi, sættist aa Maalid, og sell-di Glwmi Landid, og skylldi bwa aa þau Misseri, og voru þa Skattir ad kalla, og undu Esphælingar illa vid Maala-Lok: Og hedann af greri alldre umm heillt med Glwmi og Esphælingum, og aadur Þorkell foor aa brott fraa Þveraa, þa geck hann til Hofs Freys, og leiddi þangad Uxa gamlann, og mællti svo: Freyr, segir hann, er leingi hefur Fulltrwi minn verid, og margar Geafir af mier þeigid, og vel launad: Nu gef eg þier Uxa þennann til þess, ad Glumur fari ei O-naudugari af Þveraar-Landi, enn eg fer nu, og laattu siaa nockrar Jardteiknir, hvort þu þiggur edur ei: Enn Uxanum braa svo vid, ad hann kvad vid haatt og fell nidur daudur, og þookti vel hafa vid laatid, og var honum nu Hughægra, er

Honum bookti sem þeigid mundi Heitid: Foor sidañ Nord ur til Mij-Vatns og bioo þar, og er hañ'ur Soguñi.

X. Cap.

Glwmur took nu Virding mikla i Heradinu: Sa Madur bioo ad Looni i Hørg-aar-Dal er Guñsteiñ het, hañ var Mikil-Meñi og Audugur, og taldur med hinum stærri Moñum: Hañ aatti Konu þa er Hlijf het, Þorgrijmur het Son þeirra, og var kendur vid Moodur sijna, og kalladur Hlijfar Son, fyri þvi ad hun lifdi leingur eñ Guñsteiñ, hun var Skorungur mikill, Þorgrijmur var Mañadur vel, og geordist Mikilmeñi. Grijmur het Aññar Son þeirra, er kalladur var Eyrarleggur; Halldora het Dootter þeirra, hun var væn Kona og vel Skapi fariñ; Sa Kostur þookti vera einhvor betstur fyri Saker Frænda, og mest Kuñaattu og Framkvæmdar heñar. Þessarar Konu bad Glwmur, lest hañ lijtt mundi þurfa ad segia Frænda-Ætt sijna, nie so Fearhlute edur Atferd: Þad mun ydur kuñugt vera (mællti hañ) ad raada Kost heñañ, hef eg miér ætlad, med þvi ad Frændur heñar vilia. Honum var vel svarad ad þessu Maale: Er hun fostnud Glwme med miklu Fee, og geordt Brullup þeirra vel, og nu er hañs Raad eñ Virduglegra eñ aadur.

Þorvalldur het Madur Reimsson, er bioo ad Barde i Fliootum, hañ aatti Puridr Doottur Þordar fra Hofda: Born þeirra voru Klaufi og Þorgerdur, er aatti Þorariñ a Espihoole. Þorvalldur Krookur a Grund aatti Þorkotlu wr Þioorsaar-Dal. Hlenu hiñ Gamle Ørnolfsson Tøskubaks bioo i Vijdenesi, og aatti Oddkotlu Oddkels-Doottur wr Þioorsaar-Dal.

Gissur het Madur og var Kadalsson, hañ bioo ad Tiørnum i Eyafiardar-Dal; Hañ aatti Konu þa er Saldijs het, hun var gilld Hwsfreya. Gissur var i hiñi stærre Boonda-Tølu, vel Feareigande: Þeirra Dætur eru 2. nefndar, Þordijs og Herþrwdur, Konur vænar og Of-

laatur

lætur miklar, þóoktu vera Koster goder: Uru þær upp heima. Brooder Giissurar het Runolfur, hañ var Fader Valgerdar, Mooder Eyolfs a Modruvollum. Þordijs var Dootter Kadals, er ætti Þorir a Espihooli, og þeirra Børn voru þau sem sagdt var fra: Þorgrijmur Þoris Son var ei Son Þordijsar, og þo Skilgetiñ. Þorgrijmur var Mikilmeñi, og vel ad sier; Hañ rijdur a Fund Gissurar, þess Eyrindis, ad bidia Þordijsar Doottur hañs sier til Eiginkonu: Voru Flytendur þessa Maals Brooder hañs og Viner. Frændur Konuñar þooktust vera nærkomner ad sia fyri Kosti heñar, og leitst þeim allvænlega stofnad, eñ Þorgrijme var syniad Konuñar: Eñ ollum þookti hañ hafa mællt til Jafnrædis, og fyriþookti Brædrum hañs og Frændum.

## XI. Cap.

SA Madur er nefndur til Søguñar er Arnor het, og var kalladur Raudkiñ; Hañ var Steinolfsson, Ingialldsson, og Brædrungur Glums ad Frændsemi: Hañ hafdi leinge i Førum verid, og var vel metiñ, og var med Glum jafnañ er hañ var Ut hier; Hañ veik til vid Glum, ad hañ beiddi Konu til Handa hoñum. Glumur spyr hvørrar Konu hañ vilie bidia? Arnor svarar: Þordijsar Giissursdoottur, er Þorgrijmi Þorissyne var syniad. Glumur svarar: Ovænt þyki mier þad horfa, þviad mier þykir yckar eingiñ Munur, eñ Þorgrijmur a Bwstad goodañ og Audfeaar, sem og Frænda-Afla mikiñ, eñ þu att eingañ Bw-Stad og O-gnoog Fee: Eñ eg vil ei Ujofnud biooda Giissure, svo ad ei rææde hañ fyri Doottur siñe sem hañ vill, þviad Giissur er Goods verdur fra mier. Arnor svarar: Þa nijt eg goodra Frænda, ef eg get betra Kost, ad þu flytier mitt Maal; Heittu hoñum Vinseinge þijnu, og muñ hañ gefa þier Konuna, þviad þetta muñde Jafnræde kallad, ef ei hefdi svo frijdum Mañi verid fraavijsad ædur sem Þorgrijmur er. Glumur let ad-eggiast, og foor med

hañ a Fund Gissurar, og tiaer Maalid fyri hønum. Gissur svarar: Vera kañ þad Glwmur (segir hañ) ad þad verde mællt, ad mier mislijtist ef eg gef Doottur mijna Arnore Frænda þijnum, eñ mier sijndist ei ad gefa Þorgrijmi. Glwmur svarar: Rett er mællt, eñ þo er þvi ad lijsa, ef þu villt vort Maal virda, ad þar i moot mun mitt Vinseingi koma. Gissur svarar: Þad þyker mier mikils verdt, eñ grunar mig ad þa komi i moot Ovinseingi añara Maña. Glwmur svarar: Þu sier og Raad þitt hvørt þu georer. Þa segir Gissur: Ei skalltu Eyrindislaus fara i þetta Siñ, og riettir fram Høndena, og fester Arnore Konuna, eñ Glwmur segir ad hañ vill þad til-leggia, ad Brullup skal vera ad Þveraa um Haustid, og skilia þeir nu vid svo bwid. Arnor atti Mallt ut a Gaasum, og skyllde hañ sialfur sækia og Hwskarl eiñ med hønum; Eñ Þorgrijmur Þorisson foor þañ Dag til Laugar, er þeirra var utañ Von med Malltid, og var ad Hrafnagilslaugu og 6. Hwskarlar hañs med hønum: Eñ er þeir komu utañ, og villdu rijda yfir Aana, þa mællti Þorgrijmur: Mun nu ei miøg vel fallid ad hitta þa Arnor? og missum ei Malltaña, ef vier skulum þo missa Konuñar. Geingu þeir Þorgrijmur mooti þeim med brugdnum Sverdum: Og er þeir Arnor saau þad hvør Lidsmunur var, þa hleypti hañ a Kaf og svo yfir Aana, eñ Klyfia-Hestarner voru fyri vestañ Aana. Þa mællti Þorgrijmur: Ei berum vier til alls Ugyptu, Ølid skulum vier drecka, eñ þeir munu raada Koste Konuñar. Þorgrijmur rijdur til Espi-Hools eñs Sydra, Þorir var þa Sioonlaus, eñ þeir Førunautar Þorgrijms voru aller all-kaater, og hloou miøg, og spurde Þorir hvad þeim þække svo hlæilegt? Þeir søgdust ei vita hvørier fyrr mundu Veitsluna hallda: Søgdu þar Faungiñ eñ þaa fraa-ellta er attu, eñ Brwdgumiñ a Kafi. Og er Þorir heyrer þetta, þa mællti hañ: Þykir ydur velkomid ydru Maale, er þier hlæid svo miøg? Edur hvørt mun nu Urræde ydart? Ætli þier hier i Noott ad sofa, og einskis añars vidþurfa? Ei keñi þier þa Skap-

Lynde

Lynde Glwms, ef hønum þyker good Før Frænda siins; Eg kalla Raad ad safna Møñum: Meire Von ad Glwmur hafi nu samaññdreiged marga Meñ. Par var þa Vad a Aañe, er nu er ecki. Peir søfnudu nu ad sier 80. viigra Maña uñ Noottina, og byugguſt vid a Hool einum framaññverdum, hvíad þar var Vadid a Aañe vid Hoolmiñ sialfañ. Eñ fra Arnore er þad ad segia, ad hañ fiñur Glwm, og segir hønum fra Førum siinum: Hañ svarar: Ecki kom mier þad Uvørum ad þeir lieti eige kyrrt, og er nu a Vande nockur, Svijvirding ef kyrrt er, eñ all-Osiin Virding, ef vid er leitad ad rietta: Eñ þo ſtal nu safna Møñum. Og er liooſt var uñ Morguniñ, þa kom Glwmur ad Aañe med 60. Maña, og villde rijda yfir Aana: Eñ þeir grijttu a þa Esphælingar, og geck ei fram Reidiñ, hvørfu aptur og børduſt yfir Aana med Griooti og Skotum, og urdu þar marger sarer, eñ einger eru nefnder. Og er Herads-Meñ urdu varer vid, þa drijfa þeir til Glwms uñ Dagiñ, og gaanga a milli, og vard akomid Sættum, og leita hvad Esphælingar villdu biooda fyrir Osæmdar-Hlut er þeir høfdu geordt Arnore: Eñ þau komu Svør i mooti, ad ecki mundu Bætur fyri þad koma, þo ad Arnor hefdi hleypt fra Mallt-Klyfium siinum: Pa var leitad ad Glwmur munde bidia Arnþruudar Giſſurar-Doott: til Handa Þorgriime, og ſkylldu hvíad eins Raadiñ takaſt med þeim Arnore og Þordiiſi, ad Glwmur giæti komid þeſſu til Handa Þorgriime, og þookti ſu betur gefiñ er Þorgriim: ætti. Nu med þvi ad marger aattu Hlut i, þa heitir Glwmur ſiñe Uñſiiſlu, hittir Giſſur, vekur þetta Maal og mællti: Pad maa virdaſt Hlutgyrne, ef eg bid bæde Konu mijnum Frændum og Esphælingum: Eñ ad Ohøpp ankiſt ei i Heradi, þa þykiunſt eg ſkylldur ad veita þier mijna Hollustu, ef þu georir ad mijnum Vilia. Giſſur ſvarar: Svo ſijniſt mier betſt ad þu raader, þvi mier ſijniſt vel bodid Doottur miñe ad ſvo ſie, takaſt nu Raadiñ hvorutveggiu: Geordi Arnor Bun ad Uppſølum, eñ Þorgrijmur Bun i Mødrufelli. Litlu ſijdar Audadiſt

Giſſur,

Gissur, þa færde Valdijs Bygd sijna a Uppsali. Arnor gat Son vid Þordijsi er Steinolfur het; Añañ Son atti Þorgrijmur, og het sa Arngrijmur, og var Efnilegur Madur i Uppvexti sijnum ollum.

## XII. Cap.

SAldijs baud heim Dottur-Sonum sijnum hvortveggia, Arngrijmur var Tveim Vetrum elldri eñ Steinolfur, og uxu ei Vinsælli Meñ upp i Eya-Firdi, edur betur væri ad sier gjorfer: Uñtust þeir og all-mikid. Þa er Añar var Fiogra Vetra, eñ Añar Sex Vetra, þa lieku þeir sier eiñ Dag, og bad Steinolfur Arngrijm lia sier Meßingar-Hest, Arngrijmur svarar: Eg mun giefa þier, þvi ad þad er nu helldur þitt Leyka eñ mitt fyri Alldurs-Sokum, eñ Steinolfur segir Foostru siñi, hvad gooda Gjof hañ hefdi þeigid, hun kvad þad vel vera, ad hvor þeirra var vel til Añars. Kona su foor þar um Heerad er Oddbiorg het, Gledi-Madur, Frood og Framsyn, þookti mikid undir, ad Hwsfreyur fognudu heñi vel um Heradid, sagdi nockud Vilhallt, sem heñi var goodur Beini veyttur: Hun kom til Uppsala, og took Saldijs vel vid heñi, og bad hana spa nockud um þa Sveinana, og spa vel, hun svarar: Vænlegir eru þesser Sveinar, ef þeim vinst Gæfañ, þvi þad er mier vausied. Saldijs mællti: Ei ætla eg þier nu all-goodañ þikia Beinañ fyri Skwtu þessa, hun svarar: Ecki mun þetta rada Verrgietum þijnum, og þarftu ei svo Ordvond ad vera. Saldijs mællti: Fa-Ord skalltu þar um vera, ef þier segir ei vel Hugur um, hun svarar: Ecki hef eg eñ of-mællt hier um, eñ ei ætla eg leingi Astwdlegt med þeim, Saldijs mællti: Añars þooktunst eg makleg fyri goodañ Beyna, og muntu verda rekiñ a brott fyri Ill-Spaar, ef þu fer med þær: Oddbiorg svarar: Eg ætla nu ei þurfi ad hlijfast vid, er þu lætur nu svo um ongva Sok, mun eg þig ei optar heim sækia, eñ þu un vid svo vel sem þu villt: Eñ þad kañ eg þier ad segia, ad þeir munu Bana-Spioot eptir berast, og mun

hvad

hvad ødru verra af hliootast hier i Hieradi. Og er Odd-
biørg nu ur Søgunni.

## XIII. Cap.

ÞAd geørist Eitt Sumar a Al-
þijngi, ad i Fanga-Brecku geingust Menn ad
ur Sveitum, Nordlendingar og Vestfirding-
ar, og geck Nordlendingum þijngra, var fyri
Sveit þeirra Maar Sonur Glums, kemur
þar ad Madur einn, er Ingolfur het, Sonur Þorvallds af
Rangarvøllum. Maar mællti: Þu ert þreklegur Mad-
ur, og munntu vera sterkur, veyt mier þad, ad þu gaungir til
Fangs; hann svarar: Þad mun eg geora fyri þijnar Sak-
ir, sa fell er mooti var, geingur þar ad Annar og hinn Þrid-
ie, og fooru somu Leyd, so ad Nordlendingum hugnadi þa
betur, þa mællti Maar: Ef þu þarft mijns Formælis, þa
skal eg þier ad Lidi verda, edur hvad skal nu rada þinna?
Hann svarar: Ecki hef eg Rada, og villda eg hellst Nordur
umm, og taka Verknad, Maar svarar: Þad vil eg þa, ad þu
farir med mier, og mun eg fa þier Vist. Ingolfur atti
Stood-Hross good, og kallade Hestinn Snækoll, hann foor
Nordur af Þijngi til Þverar, og var þar umm Stund. Einn
Dag spurdi Maar, hvad Ingolfur ætladi fyri sier? hier
þirfti Verkstioora segir hann, er hagur væri nockud, er hier
Sledi einn; er þu skallt geora, og ertu Biarg-hagur, ef þu
kant þetta. Ingolfur svarar: Til þessarar Vistar væra
eg fwsastur; enn þad hefur ordid Stundum, ad Mein hefur
þookt ad Hrossum mijnum i Bwfear-Høgum, Maar svar-
ar: Ecki mun ad slijku talid. Ingialldur georir nu ad
Sledanum, kemur þa Glumur þar, og lijtur a Smijdid:
Þetta er vel giørdt segir Glwmur, edur hvad er Rada þi-
nna? Ingialldur svarar: Ei hef eg Rad radid, Glum-
ur svarar: Mig vantar Verkstioora, edur ertu nockud vid
þad brugdinn? Hann svarar: Lijtt i slijkum Stodum, enn
fws væra eg med þier ad vera. Glwmur svarar: Hvij skal
ei þad? Sie eg ad þid Maar leggid og Lag yckart samann.

Nu

Ny kemur Mœr heim, og segir Ingólfur hønum þetta, hñ svarar: Gott þiki mier, ef þetta verdur vel, og segia mun eg þier Prísvar Siñum, ef Fødur mijnum mislijkar, eñ ef þu geørir þa ei ad, mun eg hætta. Ingolfur tekur nu til Umsíjslu, og lijkar Glwmi vel vid hañ. Eiñ Dag fer Glwmur til Hesta-Pijngs, og Ingolfur Verkstioori hañs, rijdur hañ Meri, eñ Hestur hañs reñur hiaa, og er þar Skiemtuñ good: Par var Kaalfur fraa Stockahlødum, hañ aatti Hest-Klaar eiñ gamlañ, eñ hañ kom hvvrium Hesti fyri, Kaalfur mællti: Pvi skal eingi hañ hier i mooti leida Dijr-Kiaalkañ þeirra Pveræringa? Gluumur svarar: Pad er Ojafnt, Hestur saa og Klaar þiñ. Kaalfur svarar: Pvi munu þid ei vilia, ad eingiñ Dugur mun i vera? Kañ og vera ad sañist hid Fornqvedna: Ad Fee Sie Drottne Glijgt. Glwmur svarar: Pad mun þier Ukyñugt, mun eg og ei neita þessu fyri hañs Hønd, eñ ad muñ ei leingur vera eñ hañ vill. Kaalfur svarar: Von maa þess vera, ad faatt mune aa moote ydar Vilia. Voru Hestarner þa framleidder, og bitust vel, þookti øllum Hesti Ingolfs betur gaanga: Vill Glwmur nu skilia þaa, og rijda sijdañ heim. Er Ingolfur þar þau Missire, og hugnar Glwmi vel vid hañ. Samkoma var vid Diuupadals-Aa nockru sijdar, kemur þar Glwmur og Ingólfur med Hest siñ: Par kemur og Kaalfur og Hestur hañs; Var hañ Vin mikill þeirra Esphælinga, og bidur ad þeir skule nu til Prauta leggia Hesta-Atid. Glwmur qvad Ingolf raada skylldu, og letst þo Ofus vera, eñ nenti ei undañ ad gaanga. Eru Hestarner þa framleidder: Keyrer Kaalfur nu Hest siñ, geingur Hesti Ingolfs þo betur i øllum Hlutum: Pa keyrer Kaalfur Stafiñ vid Eyra aa Hesti Ingolfs, svo ad hañ svimrar, og þegar epter ried hañ ei aa hañ. Glwmur fylgde þa, og naadust Jafnader: Og lijkur svo, ad Hesti Kaalfs geck verr, vard þa Op mikid, og ad Skilnade laust Kaalfur Ingolf med Stafnum: Standa Meñ nu i milli. Glwmur mællti: Gefum eingañ Gaum ad slijku. So lijkur hier hvøriu Hesta-

Pijnge.

Þijnge. Maar mællti vid Ingolf: Svo mun Fader miñ til-ætla, ad þier verdi eingiñ Svijvirding ad þessu Høggi.

## XIV. Cap.

ÞOrkell het Madur, er bioo ad Hamrí, þaangad fer Ingolfur, og hittir Doottur Boonda, hun var frijd Kona, Fadir heñar hafdi vel Fear, ecki var hañ Mikil-Meñi. Ingolfur geimir þo vel uñ Sijslu heima, eñ smijdar færra eñ var; Maar ræddi uñ vid hañ og mællti: Nu fiñ eg segir hañ, ad Fødur mijnum mislijkar, er þu geingur fraa Hwsi, Ingolfur svarar vel, eñ þo dregur til sama Munar. Maar talar til Ødru Siñi og ed Þridia, og stodar þo ecki. Þad var Eitt Kvolld, ad hañ kom sijd heim, og voru Meñ mettir; þa mællti Glwmur: Nu skulum vier taka oss Full-Trwa og Skiemtum oss, mun eg kioosa fyrst, og eru þeir mijnir Full-Trwar: Eiñ er Feesioodur miñ, Añad Oxi miin, Þridia Stocka-Bwr, þa kaus Añar ad Ødrum, þa mællti Gluumur: Hvøru kijs þu Ingolfur? Hañ svarar: Þorkel ad Hamri. Gluumur sprettur þa upp, og hefur Sverds-Hiølltun fyri sier, geck ad hønum og mællti: Maklegañ Full-Trwa kaustu þier, allir saau ad Gluumur var reidur, hañ geck ut og Ingolfur med hønum, þa mællti Gluumur vid Ingolf: Far þu nu til Full-Trwa þijns, og seig ad þu hafir veigid Hlødu-Kaalf, hañ svarar: Þvi mun eg liwga þessu aa mig? Svo skalltu giøra sem eg vil segir Gluumur, og nu geingu þeir baadir samañ, og vijkur Gluumur þar ad sem hañ saa Kaalf eiñ, høgg af hønum Høfudid; segger hañ, gack svo Sudur yfir Aana, og fær hønum Sverdid Bloodugt, og seig ad þu væntir þar ad eins Trausts, og sijn hønum Sverdid Bloodugt; ad Jardteiknir sien skijrar, hañ gørir svo, fiñur Þorkel, og segir hønum Tijdindiñ, od hañ miñtist Høggs þess, er Kaalfur laust hañ, og kvadst hafa drepid hañ, og leita eg mier hijngad til Trausts, sem þu hefur mællt, hañ svarar: Þu ert Gloopur mikill, drepid good añ Dreing, og dragst ut sem skiogtast, ei vil eg, ad þu siert

Drepiñ

drepinn i Hwsum mijnum. Hañ fer heim, og kiemur a Fund Glumus, hañ spyr hvørsu hønum hafi gefist Full-Trwiñ? Jngolfur svarar: Ei gafst hañ vel, Glwmur svarar: Nein þu þa miñ Full-Trua, og fylgdi hønum i Stocka-Buur ut, og mællti: Vandhæfur muuu verda, ef hañ er drepiñ Hlødu-Kaalfuriñ. Aññan Dag eptir er sagt Wijg Hlødu-Kaalfs fraa Stockahlødum, og nu segir Þorkell, ad sa Madur hafi þar komid, er þvi Uhappi lijsti a sig, høfdu þad allir þa fyri satt: Lijdur nu Veturiñ. Glwmur sendir Jngolf Nordur til Einars Konaalfssonar, og feck hønum Nju Hundr. Vadmaala, og mællti: Þu hefur ecki Kaup haft med mier, og vid Feegiætni þijna, þa maattu þessu koma þier i Gagn, eñ Maal þetta er þier er kiendt, mun eg aññast, og mun þig ecki saka, galldt eg þier þad fyri Praalyndi þijna, og ef þu kemur ut, maattu mijn vitia. Jngolfur mællti: Þess bid eg þig, ad þu laatir ei gipta Konu fraa mier, þvi heiti eg þier segir Gluumur: Hross hañs voru þar eptir. Einar Konaalfsson kom Jngolf utañ, eñ Þorvalldur bioo Maal til eptir Kaalf a Hegraness-Þijng, og horfdi til þess, ad Jngolfur mundi verda Sekur. Glwmur var og þar og Frændur Jngolfs nockrer: Þeir hitta Glwur, og bidia hañ Asiaar, og kvaadust til mundu leggia ad bæta fyri hañ, eñ hañ sagdist mundi Asiaa þetta Maal Fee-Bootalaust. Þa er Doomur foor ut, og til Varna var bodid, þa segir Gluumur: Ad Onijtt var Maalid, hafi þier odrum Mañi a Hendur bwid Maalid, eñ þeim er vengid hefur, þvi Vijginu velld eg. Sijdañ nefnir hañ Votta, ad Onijtt er Maalid, eñ þo ad Jngolfur dræpi Hlødu-Kaalf, gaf eg hønum einga Søk a þvi. Nu mun eg biooda Sætt meir eptir þvi sem Madriñ var verdur, eñ eptir Oplsa ydrum Esphælinga: Fooru Meñ heim af Þijnginu. Jngolfur var utañ þañ Vetur, og undi þvi ei leingur, var Fee sijnu, og kaupir gooda Gripi og Tiølld, þau er sæmiæt voru. Glwmur hafdi gefed hønum Felld goodañ, þeim skipte hañ vid Skarlats-Kirtle. Og þad Sumar er hañ foor utañ, kom ut sa Madur er Þioodolfur

het,

het, Moodur hañs bioo aa Asustødum, hañ fer til Hamars, og hittir Helgu. Eiñ Dag hafdi Glwmur ridid upp til Hoola, og er hañ reid ofañ til Saurbæar, kom þar i mooti hønum Pioodolfur, þa mællti Glwmur: Um Kour ur þijnar er mier ecki til Hamars, og ætla eg mier ad añast um Raad Helgu: Eñ ef þu lætur ei af, mun eg biooda þier Hoolmgaungu, hañ svarar: Og kvadst ei mundi etia Kappi vid Glwm, og lætur af Komum sijnum þaangad.

## XV. Cap.

Nu kemur wt Ingolfur, og fer til Þveraar, og bijdur Glwmur hønum med sier Setu-Grid, þad þyggur hañ. Eiñ Dag mællti Ingolfur: Nu vil eg Glwmur, ad þu seaaer yfir Varning miñ; Hañ georer svo, og sijnist hønum vel varid vera. Þa mællti Ingolfur: Þu feckst mier Farar-Efni; Nu kalla eg þig eiga þetta Fee. Þa svarar Glwmur: Þad eitt Fee hefur þu til mijn haft, ad eg ætla mier þad ecki; Hier eru þo Tiolld er eg hefi keypt til Handa þier, þau skalltu þyggia og svo beñañ Kirtil. Glwmur svarar: Þyggia skal eg Geafir þijnar. Eiñ Dag spurde Glwmur hvort Ingolfur villde vera heima hiaa hønum? Ingolfur svarar: Þad er i Hugnum ad skiliast ei vid þig, ef þess er Kostur, og Stood-Hross mijn vil eg þier gefa. Glwmur svarar: Eg mun þyggia Hrossiñ: Eñ nu skulum vid fiña Þorkel aa Hamre i Dag, og svo geora þeir. Þorkell fagnar vel Glwme. Þa mællti Glwmur: Þu hefur geordt Saker vid Ingolf; Eñ nu maattu bæta þad med þeim Hætti, ad gypta hønum Doottur þijna, er hañ maklegur þess Raads, eñ eg mun Fee til-leggia med hønum, og eg hefi hañ reyndt ad goodum Dreing; Eñ ef þu georer ei svo, muntu Missmijde aa-seaa. Þessu jaatar hañ, og fær Ingolfur þessarar Konu, og georist Bw-Madur og nijtur Dreingur.

* * * * * *
* * *

## XVI. Cap.

Glwmur gypte Þorlaugu Doottur
sijna Vijga-Skwtu ad Mijvatne Nordur, og fyri
Saker þeirra Sundurlyndis, þa let hañ hana
fara heim til Þveraar, og let hana eina; Þad
lijkade Glwme þwngt. Sijdañ bad heñar Arnor Kerlin-
gar-Nef, og aatti hana: Fraa þeim eru komner gøfuger
Meñ. Sijdañ geørdist med þeim Glwme og Skwtu Fæd
mikil. Eitt Sumar kom eiñ Einhleypingur aa Fund
Skwtu, og bad sier Vidtøku; Hañ spurde hvad hønum
væri aa Høndum? Hañ letst vera Vijga-Madur, og eiga
Uvært i sumum Herudum. Skwta svarar: Ei veit eg
mier Vanda aa vid þig; Edur hvad villtu til viña Asiaar
miñar? Hañ svarar: Til hvørs mæler þu? Skwta svar-
ar: Þu skallt fara Sendeførr mijna til Vijga-Glwms, og
mæl þessum Ordum vid hañ: Ad þu þykist þurftugur, þad
hañ sie Forstioornar-Madur þijns Raads. Eg get ad nu
svo illa beri til uñ Fund yckarn, ad hañ sie i Þijng-Reid;
hañ er Þraut-goodur ef Meñ þurfa hañs, og maa verda ad
hañ mæle, ad þu farer til Þveraar og bijder hañs þar; Þu
skallt segia ad meir sie þier braungt, og þu villder helldur
ad þu mætter tala vid hañ einsamañ, og med þvi kañ vera
ad hañ legge nockud Raad til; Þess skalltu bidia, ad hitta
hañ imidium Aar-Dal, þeim er geingur upp fraa Bænum
ad Þveraa, er Sel hañs stendur i, laat þier þar lijka ad fiña
hañ ad aaqvednum Degi. Þessu jaatar hañ, og geingur
nu allt þetta epter þvi sem Skwta setti Raad til. Þesse
Flugu-Madur kemur nu aptur til Skwtu, og saade hønum
eyrindslokeñ, Hũ svarar: Þa hefr þu vel leysi þitt Eyrinde,
og ver nu med mier. Nu lijda fram Stunder: Og er þar
kemur Tijma sem Glwmur hafde heitid Sendimañe ad þe-
ir mundu fiñast, þa bijst Skwta heimañ med 30. Maña:
Hañ rijdur Nordañ og kemur vestur yfir Vodlu-Heide, og
aa Hialla þañ er heitir Raude-Hialle; Þar stijga þeir af
Bati. Þa mællti Skwta: Hier munu þier eiga Dvøl
uñ

um̃ Hrijd, eñ eg mun rijda iñ med Hlijdiñe, og vita ef nock-
ud verdur til Feyngiar. Hañ sier er hañ sæker i Daliñ,
ad Madur reid upp fra Pvera mikill Vexti og i Kapu
græñe, og keñer ad þar rijdur Glwmur, þa stetg hañ af
Hestinum; Hañ hafde Vest yfir sier Tvijskipt, Svart og
og Hvijtt: Hañ let Hestiñ i Rivodrid, og geingur sijdañ
til Selsins, og var Glwmur þa komiñ i Selid. Skwta
hafdi Sverd i Hendi, þad er Fluga het, og Hialm a
Høfde, geingur ad Sels-Dyrunum og laust a Veggiñ,
og vijkur sijdañ hia Selinu. Glwmur geingur sijdañ ut,
so ad hañ hafdi ei i Hendi, sier og eingañ Mañ hia Seli-
nu; Komst þa Skwta millum hans og Sel-Dyrana: Pa
keñir Glwmur Mañiñ og opar undañ, eñ Aar-Gliwfuriñ
voru nær Selinu. Skwta bidur hañ bijda; Hañ telur
þad jafnlegt, ef þeir væru jafnbwner vid. Glwmur opar
ad Gliwfrunum, eñ Skwta sæker epter. Glwmur steyp-
pist nu ofañfyri Gliwfuriñ, eñ Skwta leitar þar ofañ er
gaunga matti, og sier ur Gliwfrinu hvar Kapuna rak
fram epter Aañe; Hañ hleypur þegar ad og leggur til heñ-
ar. Pa heyrer hañ Maal yfir sig: Lijtil Fremd ad spilla
Klædum Maña. Skwta sier upp og keñir þar Glwm;
Hañ hafdi Raunar vitad, ad þar var under Too ein er hañ
foor ofañ. Pa mælti Skwta: A þad attu ad miñast
Glwmur, ad undañ hafir þu ruñid, og beidsi ei Skwtu.
Glwmur svarar: Satt er þad, eñ vilia munde eg þad, ad
þu riñer ei skemra adur Sool settist i Kvølld. Pa qvad
Glwmur þetta.

> Haals Eyris met ek hveriañ
> Hrijs-Ruñ fyrir Aa Suñañ,
> Vel hafa vijder Skoogar
> Varge opt um̃ borgit.

Par skilur med þeim þvi Siñe: Fer Glwmur heim og
safnar sier Lide, og segir hvört Velræde fyri hañ var sett,
lest og vilia ad braudt gilldist. Hñ fær a skamre Stundu
60. Maña, og rijda nu upp i Daliñ. Skwta geck til

Hests siins, þa er þeir Glwmur skildu: Riidur nu med Hliidinẽ og sier Mañā-Reidina, og veit ad þad mœ ei endast honum ad fiña þœ: Leitar sier Rœds, briitur Spiootid af Skapte og hefur fyri Staf, tekur af Sødulin og riidur Berbakt, sniir Vesliuu, riidur ad Sandnum og œper hœtt. Þeir koma epter, og spyria ef hañ sœe nockurn Mañ riida um̃ Leitid fram̃, skørnglegan̄ med Vopnum? Hañ kvadst sied hafa. Þeir spurdu: Hvad heiter þu? Hañ svarar: Eg heiti Margur Vid Mij-Vatn, Eñ Fœr J Fiske-Lœkiar Hverfi. Þeir sögdu: Skœtinge og Spotte villtu oss svara. Hañ lest ei sañara kuña ad segia, og skilur med þeim: Og þegar þeir voru skilder, took hañ Vopn siñ og Sødul-Reide, og reid hvatlega til Mañā siña. Þeir hittu Glwm og sögdu ad þeir hefdu fundid Mañ, er þeim svaradi Spotti einu, og sögdu þad er hañ nefudist. Nu hefur ordid Rœdsœtt, sagde Glwmur: Par hafi þier Skwtu fundid; Edur hvad mœtti hañ sañara segla? Þviad vid Mijvatn er margur Skwte, eñ i Eyafyrde i Fiskelœkiar-Hverfi hitter eingiñ Hellis-Skwta, og hefur nu nœr hast med oss, eñ epter skulum vier eñ riida. Þeir koma ad Hiallanum, og eru þeir þar fyrir: Eñ þar er Einstiige ad, og er þar betra ad veria med 30. Mañā, eñ sœkia med 60. Pa mœllti Skwta: Kostgœst hefur þu nu miög ad sœkia epter mier, mœ og vera ad þu þykist þess eiga i ad hefnast fyri Undañhalldid, og gott Arœde barstu til ad hlaupa i Gilid, ecki varstu þa O-Foothvatur. Glwmur svarar: Satt var þad, kuñer þu og hrœddur ad verda, þa er þu lest vera Saudreki þeirra Eyfyrdinga, og leynder Vopnum þijnum eñ braust suñ, œtla eg þu riñer ei skemri Leid eñ eg, hvørsu sem hier til hefur farid, þa sœk ad med hœlfu fleyra Lid, segir Skwta. Glwmur svarar: Eg œtla ad vid munum nu skilia ad Siñe, verdur nu virdt sem mœ i hvørn Stad. Skwta riidur nu Nordur, eñ Glwmur heim.

* * * * * *

* * *

## XVII Cap.

Aer Þoorir Andadist, giordi Þorariñ Bw fyri Nordañ Espehool og bioo þar. Glwmur gat Børn vid Konu siñi, het Maar Son hañs sem getid var, Añar Vijgfws, voru baadir Efnilegir, og all-Olijkir: Maar var hlioodur og spakur, eñ Vijgfws Haavada-Madur mikill, og Ojafnadarsamur, Næmur ad Afle og Fullhugi. Saa Madur var med Gluumi er Hallvardur het, Lagsingi hañs og Foostri Vijgfwss, hañ rakadi Fee samañ, Refinsamur i Feaarreidum: Hañ Handsaladi Vijgfwsi Fee sitt, ecki var hañ Ordsæll, hañ giørdi Bw ad Bæ þeim er ad Tiørn heitir, upp i Eyiafiardar-Dal, og bøtnudu ecki Vinsælldir hañs vid þad, og var svo miøg Hendisamur i Afriettum, eñ Vijgfws var Farmadur mikill. Saa Madur bioo aa Jvorunarstødum er Halli het, og var kalladur Halli eñ Hvijti, hañ var Þorbiarnarson, Moodir hañs het Vijgdijs, hun var Doottir Auduñar Rotins, hun hafdi foostrad Einar Eyolfsson, er þa var komiñ Bygdum i Saurbæ. Halli var Sioonlaus, hañ var vid øll Sattmaal ridiñ i Heradi, þviad hañ var bæde Vitur og Rettdæmur. Hañs Synir voru þeir Ormur og Brwsi Skaalld, og binggu þeir i Torfu-Felli, eñ Baardur bioo ad Skaalldstødum. Hañ var Haavada-Madur og Ojafnadar-Madur mikill, og vijgur hvørium Mañi betur, og aakastasamur. Hañ aatti Unu Oddkellsdoottir ur Þioorsaar-Dal. Haust eitt hvørfu Halli enum Hvijta ur Afriett Tiju edur Toolf Gielldingar, og fundust ei, og er þeir Baardur Fedgar funduſt, spurdi Halli hvad hañ ætladi ad af Gelldingunum hefdi ordid? Baardur svaradi: Ecki undrast eg þo ad Sandir hverfi, er Þioofar sitia i nærsta Hwsi, sijdañ er Hallvardur kom hijngad i Sveit. Halli svarar: Þad vil eg ad þu bwir Maal til aa Hendur hønum, og stefnir hønum fyri Stuld, og get eg, ad Glwmur beri ei af hønum Tolftar-Kvidiñ, ef eg læt bera Þioofs-Søk aa Hendur hønum. Baardur

svarar: Torfvockt mun verda ad sækia Toolftar-Kvidiñ ad þeim Fedgum.

## XVIII. Cap.

Nu biyr Baardur til Mœlid, og er Vijfws veit þad, segir hañ Fødur siinum, ad hønum muni ei hugnast, ad Meñ bwi Pvoofs-Søk a Hendur Foostra siinum. Glwmur svarar: Veyt siu ad hañ er Otrwr, og mun Ovinsællt verda Mœlid, ad bera af hønum Kvidiñ. Vijgfws svarar: Uñ stærra vilda eg ad þa væri ad mæla. Glwmur svarar: Vetra þikir mier ad giallda fyri hañ, og fari hañ hijngad, og bregde Bwi, helldur eñ leggia fyri slijkañ Mañ-Virding myna. Nu koma Meñ til Þijngs, og Mœlid i Doom, og a Glwmur ad bera Toolftar-Kvid, þa vard Vijgfws var vid, ad hñ ætladi ie ad bera Kvidiñ, og geck ad Dominum, og kvadst vilia mundu, ef Foostri hañs yrdi sekur, ad Glwmi yrdi þad alkeypt, og vard svo, ad Glwmur Onijtti Mœlid, og ber af hønum Kvidiñ, og feck Ovirding af. Eñ er þadañ leid Eiñ Vetur edur Tveir, hvarf Halla Twn-Golltur, svo fenytur, ad traudt mœtti rijsa: þa kom Baardur uñ Dag, og spurdi ef Galltiñ væri drepiñ? Halli kvad horfiñ vera. Baardur svarar: Hañ mun fariñ ad leyta Sauda þeirra, er stolid var hid Firra Haust, hañ svarar: Þess get eg, ad eina Leid hafi farid, muntu stefna vilia Hallvardi? Baardur svarar: Svo skal vera, þviad nu mun Glœmur ei af hønum bera Kvidiñ, þviad Vijgfws olli þa af var boriñ, eñ nu er hañ ei hier a Landi. Baardur tekur Mœlid, og fer i Stefnu-For, og er hañ fiñur Hallvard, hefur hañ skiöot Mœla-Lok, høggur af hønum Høfudid, og sagdi sijdañ Fødur siinum, hañ let illa yfir, og fer a Fund Glœms, og sagdi hønum Adburdiñ, og bijdur hønum Eindæmi, Glw. mur þiggur þad, giorir lijtid Fee, eñ let giallda fyri Golltiñ og Saudina, og mælltist þad vel fyrir. Eñ er Vijgfws kom ut, vard hañ illa vid Drœp Hallvards, Glœmur segir: Ei skal hlijda ad bregda þessa Sætt er nu er geor. Nu

aattust þeir ecki vid, þo ad þeir finduſt Baardur og Vijgſws. Aññad Sumar var ſtofnad Heſta-Pijng, þad er øllum Heſtum þeim ſkal etia er til vorui Heradinu, og ſkylldu þeir i moot ür enum Efra Hrepp og Nedra, og ſkylldu ſiñ Mañ hvørier til taka, og kveda ad hvørier betur hefdi, og ſkylldu þeirra Atkvædi ſtanda, er til vorn koſnir. Ofañ ur Hrepp var Baardur til koſiñ, eñ ur Nedra Hrepp Vijgſws Glwmsſon, var þar Fisldi Heſta og good Skiemtan; og miøg Jafnvijge, og voru mørg Heſta-Vijg i Señ uñ Dagiñ: Eñ ſvo lijdur, ad jafnmargir høfdu vel bitiſt, og jafnmargir ruñid, og urdu þeir aa þad ſaattir, ad Jafnvijgi væri. Eñ þo lieſt Vijgſws eiga Heſt, er ei var att, og er ſaa betſtur þeirra, er hier hafa i Dag komid, leidi þier þar i mooti nockurn ſegir hañ, Baardur ſvarar: Vandur liiſt oſs ſeaa, munum vier eingañ þar i moot laata, og kollum þo Jafnvijgi. Vijgſws ſvarar: Skortir ydur þa, og muntu ei þad vilia ad mællt ſee, ad þier hafid ei vid, Baardur mællti: Vel hefur þu Einörd haft hier til, eñ nu ſkijar aa helldur, og fiñſt þad nu aa, ad þu munt optar hafa ſtadid nær Bwr-Hilluñi, og raadid uñ Matgiørd med Moodur þiñi, eñ geingid ad Heſta-Vijgum, og er hañ Veg lijtt Skegg þitt ei ſijdur: Vijgſws hloo ad og margir adrir. Keinur Hws-Karl Halla heim, og ſpyr hañ af Heſta-Pijng inu? Hws-Karliñ ſegir: Jafn-Vijgi þookti þeim: Halli ſpurdi; Urdu þeir aaſaattir Baardur og Vijgſws? Hañ ſvarar: Vijſt vel, þo mællti Baardur eitt Ord vid Vijgſws: hañ ſpurdi, hvørt var þad? Hañ ſegir hønum þad, Halli mællti: Pad er Ills Efni. Hws-Karliñ ſvarar: Hlov Vijgſws ad, Halli ſvarar: Pad er Vani þeirra Fedga, ad hlæa þa Vijga-Hugur er aa þeim. Fiñaſt þeir Fedgar Halli og Baardur, og ſpyr Halli, hvij hønum yrdi þad ſyri, ad mæla ſvo ſerligt? Og uggir mig ad dragi til mikillrar Ogiptu, mun þad eitt Raad, ad þu farir utañ, og ſækir þier Hwſa-Vid, og ver utañ Priaa Vetr, ella muntu ſeyg?, B: m: vel er Lagid, ef þu værir ei rag?, og ſlijkt gørir Elliñ, ad þu hrædiſt uñ Sonu þijna. Halli ſvarar: Pookt

þu ſiert Hetia mikil, mun þier Torſookt, ad hallda þig i Heradinu. Baardur giorir eptir Raadum Fødur ſijns, og fer utañ. Sijdañ kaupir Halli ad einum Uñhleyþingi, ad fara i Skagafiørd edur Veſtur þadañ, og ſegia; ad Baardur færi af þvi utañ, ad hañ treyſtiſt ei odru fyri þeim Fedgum, eñ fara utan fyri eitt Ord, og eingi þori þeim i mooti ad geøra i Heradinu: Hañ geørdi ſem Halli baud. Þetta Bragd var til þeſs geørdt, ad Frændur Baardar ſæti i Fridi fyri hañs Sakir. Baardur var eiñ Vetur utañ, og kom þa aptur til Bws ſijns.

## XIX. Cap.

Halli hafdi vardveitt Bw Baardar a medañ hañ var utañ, og hafdi lætid høggva i Skoogi Timbur i Midaar-Dal, er Baardur atti: Hañ hafde og ut mikla Vidi, hañ var Stundum ad Bwi ſijnu, eñ Stundum med Fødur ſijnum. Þad var eiñ Dag, ad Baardur ſagdiſt vilia ſækia Timbur ſitt, Halli ſvarar: Þad villda eg, ad þu færir ei ſiaalfur, og mun þeim ei gott ad trwa Fedgum: Baardur ſvarar: Ad Meñ mundu ei verda varir vid Ferd þeirra: Hañ foor og Hws-Karl med hønnum ad ſækia Timbrid, og høfdu Fiolda Hroſſa, eñ Una Kona hañs hafdi farid i Vijdi-Nes til Oddkøtlu Syſtur ſiñar, og kom Baardur þar, og baud Hleñi hønum, ad ſa Mañ añañ i Skoogiñ, eñ hañ bijdi þar; Pookti þad meiri Varwd, hañ kvad þeſs ei þurfa. Þær Syſtur leyda hañ ur Gardi, eñ er þær hvorfu aptur, leyſt Una uñ Auxl eptir hønum, og fell i Ovit, eñ er hun Vitkadiſt, ſpurde Syſter heñar hana hvad hun heſdi ſied? Eg ſa danda Meñ gaanga i mooti Baarde (ſegir hun) og mun hañ feygur vera, og munum vid ei ſeaaſt ſijdañ. Nu fara þeir Baardur, og leggur Þoku yfir er þeir koma i Skoogiñ: Binda þeir Drøgur og hepta Hroſs. Uñ Morginiñ ſneña var Smala-Madur a Footum ad Þver-Aa. Þad var opt ad Vijgfws hitti Smala-Mañ, og ſpurde Tijdinda? Og ſvo var þeña Morgin. Vijgfws

mællti:

mællti: Undarlegt er þad ad þu finnur jafnañ Fee i slijku Myrkre, þvi allrei munde eg svo Fee finna. Hañ svarar: Lijtid vard mier fyrir ad hitta Feed, eñ ecki vard þeim minna fyrir ad finna Rossen i Morgun, er eg sa i Skooginum, og stoodu nær hiaa þeim sialfum, og letu þeir þo vænt yfir sier, og var añar i grænum Kyrtle, og hafde Skiolld a Hlid. Vijgfws spurde, ef hañ kendi Mañiñ? Hañ kvadst ætla ad Baardur væri, þviad hañ kom a Skoogiñ er þeir vorn i. Vijgfws mællti: Sæk þu Hestu mijna Præ. Ausmeñ voru þar 2. a Vist: Þaa bad Vijgfws rijda med sier, og kvadst munde rijda til Langar; Hañ stefner Sudur ur Garde uñ Langar-Dal. Þa mælltu Aust-Meñ: Hvort villtu nu rijda? Ad Eyrindum mijnum fyrst, segir hañ: Og reid sijnu fyrri eñ þeir, og fooru fyrir ofañ Bæ Sudur, þar til þeir saau Baard fara ur Skooginum med Dragna-Rossen. Hwskarl Baardar sa Eptir-Reidena og mællti: Hardt rijda þesser epter, segir hañ. Hvor Tijdinde eru þad, segir Baardur? Hañ svarar: Þar er Vijgfws, og villda eg ad vid snerum undañ, og er un-Svijvirdingarlaust, a medañ vid vitum ei hvad þeir vilia. Baardur segir: Ei mun Vijgfws raada a mig vid Pridia Mañ, ef þu ert ei med mier. Hñ svarar: Froskari er eg ad fara med Hestana, eñ þu rijder i Vijde-Nes, er þad ei Amælis verdt, er þu rijdur þaangad er þu att Eyrinde, enda veitstu ei vijst þeirra Eyrinde er epter rijda: Eñ Hleñi mællti ad þu skyllder ei trwa þeim. Baardur mællti: Þu skallt rijda fyrri, og gera Meñ vara vid, ef For mijn verdur seiñi eñ Lijkindi eru a, þvi ecki mun skiott uñ skipta med ockur Vijgfwsi, ef vid skulum Tveir a siaast: Eñ hañ er betri Dreingur, eñ hañ mune med Pridia Mañ ad mier gaanga; Eñ ef vid erum Tveir eñ þeir Prijr, þa munu þeir noota Lidsmunar. Nu geordi hañ sem Baardur mællti: Eñ Baardur leysti Skiolld siñ, og bioost vid sem hönnum þookti vænst, og er þeir fundust, þa spyr Baardur hvort Eyrinde þeirra væri? Vijgfws segir ad þeir mundu ei af þeim Funde Lijfs fara baader; Eñ Baardur kvadst

bræeñ þess, ef þeir skylldu Tveir vidleikast: Eñ þad er einginn Bafleikur, ad Priir gange ad Einum. Þa mælltu Austmeñ ad þeir mundu heima setid hafa, ef þeir vissu Eyrindid, eñ letust þo ecki Lid veita meiga, ef Meñ kæmi ei til Fulltingis vid Baard, er Førunautur hüs hleypti a Braut. Vijgfws bad þaa sia fyrst hvørsu færi. Sijdañ bördust þeir længa Hrijd, og vard hvørge sær. Vijgfws horfde þvi Uvæña, ad hañ vard ad hopa i hvøriu Siñe ædur hañ nædé Høggfæri: Baardur hafdi Sverd, og varde sig ægæta vel, og vard ecki sær. Austmønum sijndist Ufarnadur mikill, ef Vijgfws er ad Jørdu lagdur, eñ þeir standa hiaa: Eñ er Meñ komu til Fulltijngis vid Baard, þa hlaupa þeir ad Baarde og drepa hañ, og var hañ Hreudur er þeir Hleñe komu. Eñ þeir Vijgfws ridu heim, og let Glwmur illa yfir Verkinu, og kvedur mikiñ Vanda hafa aukist i Heradinu. Halli fer aa Fund Einars i Saurbæ, og bidur hañ taka vid Maalinu; Hañ let þad skylldt ad mæla eptir Frænda siñ og Foosibroodur. Nijsda sijdañ aa Fund Þorarins, og bidia hañ Lidveitslu. Þorariñ segir ad hañ vite ei Voner þess Mañs, ad hañ vilie helldur vid eiga, og bundu sitt Vinseynge med Særum uñ þetta Maal og hvort añad. Fooru Meñ til Þijngs, og var leitad uñ Sætter: Eñ þar var so þrøngt fyrir, ad eingiñ var Vøl aa þvi, þviad i moote voru Løgvitrer Meñ og Hug-diarfir, Mødruvellingar og Esphælingar: Lauk þessu Maale svo, ad Austmeñ urdu sekir, og var gefid Fee til Varningar. Vijgfws skyllde 3. Sumur leita vid Utañsør, og hafa 3. Heimile aa hvørium Missurum, og var hañ þa Feørbaugs-Madur; Eñ hañ maatti ei heima vera fyri Helgi Stadarins, og var hañ ad Uppsølum laungum, og ætludu Meñ ad hañ munde i ødrum Fiordungum Landsins, og villdi hañ ei Utañ fara ad þvi Maale, vard hañ þa Alsekur, og helldur Glwmur hañ aa Laun; Eñ þvi skylldu ei seker Meñ þar vera, ad Frevr leyfdi ei, er Hof þad ætti er þar var, foor þvi frañ 6. Vetur.

* * * * * *

XX. Cap.

## XX. Cap.

Ull er þar til Maals ad taka, er þeir Fooſtbrædur vara upp, Arngriimur og Steinolfur: Eñ þa er Þorgriimur audadiſt i Modru-Felli, foor Arngriimur til Bws ſijns og Steinolfur med hønum, og var þa Aſtwdlegt med þeim, ſo ſem þa betſt hafdi verid. Arngriimur kvongadiſt og ætti Þordijſi Doottur Biarnar, Syſtur Arnors Kerlingar-Nefs. Steinolfur var i Kaup-Førum, eñ var med Arngriimi er hañ var wt hier. Þad var eitt Sumar er hañ kom wt i Eyafyrde, ad Arngriimur baud hønum ei til ſijn, og mællti ecki vid hañ, þo ad þeir ſæiſt, og ſañ þad til Saka, ad hañ hefdi fleyra talad vid Þordijſi Konu hañs eñ Skaplegt væri: Eñ þad er fleirra Mañа Søgn, ad lijtid væri til hæft edur ecki. Þa baud Glwmur hønum til ſijn, og var þa ſo nockur Miſſire, ad hañ var med hønum þa hañ var wt hier, og var Aſtwdlegt i Frændſemi þeirra. Steinolfur var Atgeørfis-Madur mikill. Eitt Sumar baud Glwmur hønum ei til ſijn, og kvadſt vilia ad hañ væri ad Uppſølum med Fødur ſijnum; Eñ þvi bijd eg þier eige, ad mier þykia ei goodar Hwsgaungur: Eñ ef þu ert med Fødur þijnum, þa muntu hijngad gaanga til Þveraar og Verdum þa ſegner er vid fiñunſt. Nu ſer ſo nockra Vetur, ad Vijgſws var ad Uppſølum med Arnore Raudkiñ, þa er hañ var i Sekt, enda var Steinolfur þar.

Eitt Hauſt gypti Doottur ſijna Bwande i Giaaſelli, og baud til øllum Bwendum, þeim er meſt Haattar voru i Eyafyrde: Steinolfi var og bodid; Hañ kom til Þveraar og villde fara med Glwm, eñ hañ leſt ei munde fara. Steinolfur mællti: Þad þyke mier ad, er þu ert Lausmaall. Glwmur ſvarar: Miña Mein mun ad Lausmælge miñe eñ ad Uvarleik þijnum, og kem eg þar ei. Mikid Raad ſegir Glwmur einum Bwanda, ad kalla til ſijn ſo marga Stoorefſlis-Meñ, og fylge þvi einaiñ Slægd, og er mier a Grunur hvad under bwe þeſſu Bode, þvi ei tekur Bwande

þetta af sialfum sier, og betur þykir mier ad mijner Viner fari ei. Foor Steinolfur til Bodsins, og þeir ed bodid var; nefnd Glumur. Þeim var tijd-rædt Einare Eyolfs-Syne, Þorvallde og Steingrijme: Þan Tijd er Men skylldu a brott rijda, þa talade Einar laungt Eyrinde um Herads-Stiorn, og kvad hæfa jafnan er Men kiæmi saman, ad nockud væri þad mællt, er þa væri mest Naudsyn til, og þa væri betur en aadur, en hier hefur leingi Ofridur verid aa med Ofurkapps Monnum, en mijn Ord koma þar til er þeir Frændur eru, Arngrijmur og Steinolfur: Fæd hefur verid aa med þeim, en vier hyggium Lijge hafi verid og Uvina-Mæl. Nu vill Arngrijmur biooda Steinolfi til sijn, og giora Før hans sæmilega, ef han vill þyggia og leggia nidur Uvingan. Steinolfur lest þad giarnan vilia, lest einga Søk vita sier aa Hendur, qvadst Arngrijmi mest Manna unna. Sijdan foor hvør til sijns Heimilis, en Steinolfur foor med Arngrijme, og var han þar nockrar Nætur vid mikla Sæmd.

## XXI. Cap.

Einn Dag spurdi Arngrijmur Steinolf, ef han villdi fara med honum aa Grund ofan til Skilmings, og vera þar Nætur Tvær edur Priaar? Han svarar: Eg mun heima vera aa medan, en fara i Annad Sinn, er þu ert heima. Arngrijmur lest vilia han bijdi hans heima, ef han vill ei med honum fara. Nu foor Arngrijmur aa Grund, en Steinolfur er eptir i Modrufelli um Nootr: En um Morguninn sat Steinolfur vid Elld, og hafdi Smijd nockra fyri Hendi, var þad Baukur nockur er Hwsfreyia aatti. I þad Mund kom Arngrijmur heim, og Þorvalldur Krookur med honum, og er þeir komu i Elld-Hwsid, laut Steinolfur nidur, þa høggur Arngrijmur til hans i Høfudid, soo han fekk þegar Bana, þa gekk Hwsfreyia hiaa honum og mællti: Høgg þu Manna Armastur, þetta eru Raad þier Vitrari Manna, en fraa þessum Degi, skal eg alldre þijn Kona vera. Fer hun

hun nu til Arnors Kellingarnefs, og kom allrei i Sæng hiaa Arngrijmi upp þadañ, og mællti, ædur hun reid brott: Pad mun til Boota, ad þu munt Arngrijmur faa Lijf-Daga eiga, þvi þeir munu verri er sijdar koma yfir þig. Atti hana sijdan Asgrijmur Ellida-Grijmsson. Peir Arngrijmur ridu til Espehools, og sögdu Porarinum þesse Tijd indi, og bædu hañ Asiaa, og letust hvørki til hafa Vitsmuni nie Vinsælld ad sitia fyri Glwm, eñ Porariñ var bædi Vitur og Vinsæll, hañ segir sier lijtist Verkid illt, og lest ugga illt mundi af standa. Porvalldur let ecki tiaa, ad sakañ um Verkid, og lest hyggia ad brædt mundi hañ eiga nuñ meira Vandrædi ad sæta, ef hañ veytti þeim einga Asiaa, letu sem margir feingist Fulltijngis-Meñ, ef hañ legdi sijn Ord til. Porariñ svarar: Pad er mitt Raad, ad þid flitied hijngad Bwiñ bædi, af Grund og Mødrufelli, og sofnum hijngad ad oss Møñnum sem tijdast, og komum saman añ Bwum. vorum, ædur Glwmur verdur var vid, edur spyrie þetta: Og er hañ fregnar, safnar hañ Lidi, fara nu ad þeim þegar, eñ eingiñ vard Framlaga, þviad Esphælingar voru Fiølmeñir, og sætu uñ Veturiñ of kirt, eñ Glwmur vard allrei aa þeim Vetri nüñ, hañ var svo var uñ sig, ad hañ hittist allrei i þeirri Reckiu sem hönum var bwiñ. Opt svaf hañ lijtid um Nætur, og geingu þeir Maar og Ræddu um Maala-Ferli. Eina Noott spurdi Maar hvørsu vel hañ hefdi sofid? Glwmur qvad Vijsu.

> Eigi sofna ek Ofnis
> Isheim i Bæ þeima,
> Monat Ellþvihium Ollþu
> Auþbætt vid mik sættañ,
> Abur Grindlogi gonþlar
> Gellur i Hattar Felli,
> Opt vo ek Mañ of miña,
> Meir eñ nockurn þeirra;

Nu vil eg segia þier Draum miñ: Eg hugdist gaanga

hier

hier ur Garþi Einsamañ og slippur, eñ Poravinñ geck aa mooti mier, og hafdi Hardstein mikiñ i Hendi, og þooktist eg varbwiß vid Fundi ockrum, og er eg hugda ad, saa eg añ-añ Hardstein hiaa mier, og riedunst eg i mooti, og er vid fundust, þa villdi hvør liooста añañ, eñ Steinarnir komu samañ, og vard af Brestur haar. Maar spyr, hvørt þookti hier heita meiga. Hybila-Brestur? Glwmur svarar: Meiri var eñ svo, þookti hier heita meiga Herads-Brestur? Glwmur svarar: Vel er þad til jafnad, þviad eg þooktist vita, ad heyrdi uñ allt Heradid, og er eg vaknadi, qvad eg Viisu.

Hardsteini let hnwa
Harþgerþur Limafiarþar
Pa saa Doom i Draumi
Dijnniørdur mig bardañ,
Eñ ek þraa draattar þooktunst
Piooſti keyrdur of liooſta,
Sæfar Hrafns i Svefni
Snarbenlanda Steini.

Maar kvad þad lijkast, ad sañast mundi Fornkvedid Maal: Ad Hvør Jckar Mun Liooſta Añañ Jllum Steini. Glwmur svarar: Ei er ørvænt ad slijkt sie, ber nu margt fyri; Er eñ Añar Draumur ad segia hier. Eg þooktunst uti staddur, og seaa eg Konur Tvær, þær høfdu Trog i milli siñ, og naamu þær Stadar aa Hriisa-Teige, og jusu Bloodi of Heradid allt, og vaknadi eg sijdañ, og higg eg fyri Tijdindum vera. Og qvad Viisu.

Menskikler saa miklu,
Mon Sverþabrak verþa,
Komiñ er graarra Geyra
Goþreiþ af trad kveþia,
Par er Asynmur jusu,
Eggmootz of For Seggia,

Viniv

Vinir fagna þvi Vagni
Vijgmooþar fram̃ Blooþi.

Pañ Morgun foor Maar i Modrufell med Atiaanda Mañ, ad stefna Arngrijmi um̃ Vijgid, eñ Glwmur var heima vid Siøtta Mañ, og bad þa skiott heim koma. Jodur var heima hiaa Glwm, og Eyolfur Son Þorleyfs ens Haafa, Þorvalldur Tasalldi Systur-Son Glwms, og Tveir Þrælar.

## XXII. Cap.

Helga Systir Glwms, er aatt hafdi Steingrijmur i Sigluvijk, var þa komiñ aa Laugaland, hun var Moodir Þorvallds Tasallda, og var hañ þa Atiaan Vetra gamall. Þorvalldur het Madur Ørnolfsson, og Son Jngvolldar, er kølluð var allra Systir, hañ bivo i Krists-Nesi, Goþbrandur het Son hañs Toolf Vetra gamall. Þorvalldur var Vitur Madur og þo gamall, Medallægi Goodgiarn, hañ var snem̃a aa Footum þeña Morgun, og bad Sveiniñ taka Hesta, og rijda sijdañ til Þveraar, og er þeir komu þar, var Maar nij fariñ aa brott. Glwmur fagnar vel Þorvalldi, hañ spyr hvørt nockud væri leytad um̃ Sættir milli Maña? Glwmur kvad ecki þad vera. Þorvalldur segir: Er tilbwid Maalid? Glwmur kvad þad ei vera: Slijkur Dagur væri vel til falliñ segir hañ, Þoka er mikil, og mun ei verda vart vid, þo Meñ hafisi nøckud ad, ef farid er Hlioodlega. Sijdañ segir Glwmur hvar þa var komid, og segir ad Sex Meñ ein ir voru heima. Þorvalldur svarar: Helldur ertu faa-Meñtur, eñ þetta Raad mun þo duga er þu hefur haft. Nu rijdur Þorvalldur til Espehools, og voru Meñ ei uppristnir er þeir komu þar, hañ hitti Þorariñ og spurdi, hvøria Med ferd ætle þier ad hafa aa, skulu þier nockra Sætt biooda Glwmi um̃ Vijgs-Maalid? Þorariñ svarar: Vant ætlum vier þad ad biooda Sætt, Þorvalldur spurdi, hvørt er tilbwid Vijgs-Maalid? Þorariñ svarar: Ecki hef eg tilspurt, edur hvad veitstu af? Hañ svarar: Maar foor i

Morgiñ

Morgin i Maala Tilbwnad, eñ Glwmur situr vid Siøtta Mañ heima, og væri nu fullgood Faungiñ a, ad retta Hluta siñ, og hvi tekiñ ydur lijtt, ad hier georid ei slijk Hvatrædi sem Glwmur. Þorariñ svarar: Ecki neñi eg ad bwa til Sakir hier i mooti, Þorvalldur svarar: A þad er ad lijta, hvørt nockur var Søkiñ edur eingiñ, ødur Steinolfur var drepiñ, hefur hañ ei sijlst Konu hañs, vijst ætla eg slijk Maal þiki ei einskis verd. Þorariñ svarar: Illt þiki mier med slijku Maali ad fara, hañ svarar: Hvad er slijkt ad tala? Kom Glwmi fyri nockud er hañ Ohelgadi Sigmund Mag ydarn, og er nu einsætt, ad laata ei svo audvirdast, Þorariñ svarar: Eigi mundi eg vita nema þad væri Raad. Sijdañ stoodu Meñ upp, og eggiar Þorvalld ur Krookur ad rijda til Uppsala, og stefna Steinolfi til Uhelgi. Þorariñ svarar: Ei er þad Raadlegt, eñ þad munum vier þo gera. Þeir ridu samañ Fiñtaan, eru Sis nefndir: Þorariñ og Þorvalldur Krookur, Ketill Son hañs, Arngrijmur og Berserkur, og Þordur Rafnsson, er bioo ad Stockahlødum, og atti Vijgdijsi Þorersdoottir, er Sigmundur hafdi att fyr, og Eysteiñ Aust-Madur, hañ var Vistum med Þordi. Nu fooru þeir til Uppsala, eñ Þorvalldur foor a Aungulstadi, þar bioo goodur Bwandi Halli hiñ Digri, eñ sendi Son siñ til Þveraar, og bad segia Gl: Fyriætlan þeirra Esphælinga, eñ rijd til moots vid mig sijdañ hvatlega, eñ er Þorvalldur kom a Aungulstadi, þa spurdi Halli, hvad hañ segde Tijdinda? Ecki neitt segir hañ. Sijdañ segir hañ Halla hvar þa var komid, eñ Halli hooktist fra a Glijkindum, ad hañ munde øllu slijku a Leid hafa komid, sagdi ad slijker Meñ væri til mikils U-farnadar, ad hañ villde ad aller ætti Illt samañ, og væri þad maklegt ad þu værer drepiñ. Halli foor skindelega med alla sijna Meñ þa er hañ seck, Karla og Konur, og villde gaanga mijlli Maña ef þyrfte. Gobbrandur kom til Þveraar, og segir ad Fader hañs hefdi hañ þangad sendt, sagdi hønum Tijdindiñ, og lest hañ vera þess skylldur ad segia hier, þad er þig vardar, ad Esphælingar ætla ad stefna Steinolfi

til

til Uhelgis. Glwmr svarar: Hvi kom Fader þiñ ei sꜳlfur? Hañ svarar: Eg kalla allt eitt, hvør ockar sem foor. Glwmr svarar: Vel hefur Fader þiñ gørdt, er hañ sendi þig hijngad, ef vier þyrftum Mañа vid; Hañ took Sveiñ af Baki, og fiøtrade Hesi hañs. Þa mællti Goþbrandur: Þad sagdi Fader miñ, ad eg skylldi skunda heim. Glwmur svarar: Ecki er þad, helldur vill Fader þiñ ad þu sijner Vaskleik þiñ i Dag. Nu tekur Þorvardr til Orda: Seiñ er Goþbrandur Son miñ, segir hañ: Eg sendi hañ til Þverꜳr. Halle svarar: Þad er vel ad þu hitter fyri nockra Brøgdootta, og er þetta hæfilegt. Esphælingar rijda nu yfir Aaņa, og ætludu yfir ꜳ Knarar-Vade, sꜳ Glwmur Ferd þeirra. Þa mællti Glwmur, ad Mꜳr væri helldur til seiñ. Sijdañ rañ Glwmur ꜳr Garde ꜳ mooti þeim, og þeir med hønum sem til voru: Ser Karlar med Goþbrande. Glwmr hafdi Skiølld siñ og Høgg-Spioot, girdur Sverdi, reñir ꜳ Leidina fyri þꜳ, og Meñ hañs epter hønum. Þorariñ sꜳ nu Ferd hañs, bidur hañ ad þeir fari Leid sijna, og hvørke skiootara nie seiña, og mꜳ oss uñ þad ei hallmæla. Þordur Rafnsson spurde Þorariñ, hvørt hañ skyllde elltast lꜳta med 15. Mañ undañ Glwme, þoott hañ sie med Siøtta Mañ? Þorariñ svarar: Rijdum, þviad Glwmur vill dvelia oss, og bijda sviñа Mañа. Þordur svarar: Þvi er ei kynlegt ad vier berum opt lꜳgañ Hlut fyri Glwm, þa er hañ stendur jafnt ad Vijge sem þier, þar sem þier þorid nu ei ad bijda hañs, er hañ hefur fꜳ Meñ, enda skal hañ ei mig ellta, og steig af Baki. Eysteiñ Berserkur segir ad hañ vill ei undañ rijda, og kalli þeir ad þeir ellti oss. Þorariñ svarar; Þad lijtst mier U-rꜳdlegt. Eñ er Glwmur sꜳ ad þeir sooru ei, þa foor hañ seiña, og kastadi Ordum ꜳ Þorariñ, og spurde hvørt Eyrinde þeirra væri til Uppsala? Þorariñ svarar: Ad þeir hefdu stefndt Steinolfi til Uhelge. Þa mællti Glwmur: Er ei þvi miøg til Kapps halldid, skule ei Boot koma fyrer, og mættum vier rꜳda uñ nockud ad Mꜳlid geingist. Þorariñ sꜳ ad Glwmur villde dvelia

þar, og bad Meñ rijda: Þeir giørdu og ſvo. Glumur ſpurde vid hvad þeir foru undañ? Og þoi ſeiña ſem þeir fooru, þvi ſeiña ſvor Glumur, og beid Maña ſiña og mælti: Ei mun Vinſælt verda Mœlid, ef þier hañd lognar Saker uppe; og verdur þa Svijvirding i. Ecki mun nu farid ad þvi, ſegir Þorariñ, og erfidt verdur vid þig ad eiga. Glumur komſt hiar heim fram, og talade ſvo vid þa, eñ þeir ridu, og dvalde þar ſvo: Eñ er hañ ſa ad eckl mœtti dvelia þar, eñ veit Von ſiña Maña, þa ſkaut hañ Spiote til Arngrijms, og kom i gegnum bæda Sǫdul-Bogana og Lærid, og var Arngrijmur illa vijgur uñ Dagiñ. Sijdañ hlioop Eyſteiñ ſyrſtur Maña ad Glum, eñ Þorvalldur Taſallde i mooti honum; og lieknſt þeir Tveir vid, og þooktuſt þeir beſt hafa er fœrſter voru þeirra Saungange, og var hvortveggi þeirra Fullhuge og Ramer ad Afle: Veitti hvor þeirra ødrum ſtoor Høgg og morg. Þorvalldur Krookur ſookti ad Glum faſt, og marger med honum: Eñ Glumur hopade undañ og þeir Meñ er honum ſylgdu, og hliiſdu ſier, eñ Þorariñ ſteig ei af Baki, og þookti honum þo ærid marger uñ Eiñ.

## XXIII. Cap.

SA Madur kom ad hlaupande þar er þeir børduſt, ſem var i Skiñ-Kufle, og hafde Sverd i Hendi; Hañ kom ad þar er Þorvalldur Taſallde fell fyrir Eyſteine, og þegar hleypur hañ ad Eyſteine, og høggur hañ Bana-Høgg. Sijdañ ſoor hañ i Lid med Glume. Þa mællti Glumur þeita: Kom heill þu Þundar-Benda, gott Kaup var þad er eg keypta þig, þu munt nu vel giallda Verd þitt i Dag. Glumur atti Þræl þañ er ſvo het, þvi mællti hañ þeita: Eñ þad var þo Raunar Vijgſws Son hañs, og þektu hañ faaer edur eingir Maña nema Glumur, þvi hañ hafdi þa 3. Vetur verid i Sekt og Leyndum: Ætludu fleſter ad hañ væri Utañ fariñ. So bar ad er Glumur hopade, ad hañ la fallñu, eñ Þrælar hañs bæder løgduſt a hañ ofañ, og voru

þar ſtangader Spiotum til Bana: Eñ þa kom Mær ad i þvi med ſijna Meñ: Pa foor Poraríñ af Baki, og børduſt þeir Mær, ſvo ad einger ættu Hlut i med þeim, eñ Glwmur ſpratt upp og bardiſt þa Afrijulauſt, og var þa Lidsmuuur eingiñ. Eyrekur het Hwskarl Porarins, hañ var ad Verki ſijnu uñ Morguniñ; Hañ hafdi einga Hlijf nie Vopn: Hañ fær ſier Tre-Lurk i Hønd, og foor til Fulltijngis vid Porariñ, og vard þeim Glwmi meſta U-Lid ad hønum, þvi Meñ og Hlijfar meidduſt fyri Tre þvi er hañ hafdi ad vega med. Peſs er getid ad Halldora Kona Glwms qvadde Konur med ſier, og ſkulum vier binda Saar þeirra Maña er Lijfvæner eru, wr hvørra Lide ſem eru: Eñ er hun kom ad, þa fell Poraríñ fyri Mær, og var Ørliñ høggviñ fra, ſvo ad Lwngun hiengu ut i Saarid, eñ Halldora batt uñ Saarid, og ſat yfir hønum til þeſs er lokid var Bardaganum. Halle Digre kom fyrſtur til Medalgangu, og margt Maña med hønum: Og lauk ſvo Bardaganum, ad Fiñ voru fallner af Eſphælingum. Porvalldur Krookur og Arngrijmur, Eyſteiñ og Eyrekur, og Eyvindur Auſtmadur; Eñ af Glwme var falliñ Porvalldur Taſallde og Eyolfur Rolleyſsſon, Joodur, og Prælar 2. Poraríñ foor heim med Førunautum ſijnum: Glwmur foor og heim med ſijna Meñ, og let færa ena Daudu i Ute-Hws eitt, og var bwid uñ Porvalld virduglegaſt, þviad Klæde vorn boriñ under hañ, og var hañ reiſadur i Hwd. Eñ er Meñ voru heim komnir, þa mællti Glwmur vid Halldoru: For vor munde good hafa vordid i Dag; ef þu hefdir heima verid, og hefdi Poraríñ ei Lijfs brott komiſt. Hun ſegir ad Porarinnm være lijtil Von Lijfs, eñ þo muntu ſkaña Stund eiga Herads-vært þo hañ lifi, eñ ef hañ deyr, muntu eiga allrei Land-vært. Sijdañ mællti Glwmur vid Goþbrand: Pu hefur mikillrar Frægdar aflad þier i Dag, er þu lagder ad Jørdu Porvalld Krook, og mikid Lid veittir þu oſs i Dag. Hañ ſvarar: Og kvad ecki æ þa Leid verid hafa, enda varid Hendur ſijnar. Glwmur ſvarar: Sæ eg gløgt hvad tijdt var þar

 uñ,

uñ, ad allrei hef eg eñ veigid slijka Hetiu sem Þorvalldur var, og muntu verda frægur af þessu Verki, þvi af þvi feck eg Sooma Utañlands, er eg vo Berserkiñ. Hañ svarar: Ecki hef eg Þorvalld veigid. Glwmur svarar: Ei er ad dylia þessa Vinur, þu veittir honum Bana-Saarid, og firost þu ecki Geæsu þijna. Til þess brætti Glwmur vid Gobbrand ad hañ trwde, geck vid og þookti Virding ad hañ mœtti nu ei dylia, ad ei væri þetta fyri Satt hast, og þa var honum aa Hendur lijst Vijginu, og þookti þa miñe Slægia eñ þeir ætludu, er kioru Þorvalld til Eptermaals. Þad segia Meñ ad Glwmur mællti svo: Þad þyker mier illa, ad Maar lætur binda uñ, þo ad Hnecki-Stikil sie geor i Hofde honum, þad kallade hañ svo, er i Kross var sprunged. Maar svarar: Eg munde þess miñur þursa, ef eg legdunst nidur, og hefdi eg Þræla mijna ad Skilide. Þa mællti Glwmur: Hardslægur Var Hriisa-Tenaur J Dag Sveinar, segir hañ. Maar svarar: Fyri þad mun þier gaanga sem hardslægur hasi verid, þviad nu muntu Þveraar-Land hafa sleigid ur Hendi þier. Glwmur svarar: Þad ætla eg ad þu viter þad Ogeorla. Maar svarar: Vera maa ad eg viti ei, eñ fyri þad mun þier gaanga sem eg vite. Eñ er Helga spurde Tijdindiñ Syster Glwms, þa foor hun til Þveraar, og spurde hvorsu Sonur heñar hefdi fraṁgeingid? Glwmur svarar: Ei feck eg hraustare Mañ. Siaa villda eg hañ daudañ (segir hun) ef ei eru añur Faung aa: Þad var heñi veitt, og let hun hefia hañ i Vagn og bwa hooglega uñ; Og er hun kom heim, fæade hun Saar hañs og batt uñ sijdañ, og kom svo Raade hañs, ad hañ mællti vid Meñ. Þad voru Log þa, ad ef Meñ fellu jafn-marger, ad þad skyllde kalla jafnveygid þoott Mañamunur þætti vera: Eñ þeir er Avijga urdu, skylldu twoja Mañ til, epter hvorn mæla skyllde; Eñ þoott nockud kyñe þad i Maalum ad georast sijdar, er betra þækti ad hafa añañ Veg kosid, þa skyllde ei skipta Kiorinu. Eñ er Þorariñ spurde ad Þorvalldur var Lijfs Tasallde, þa kaus hañ Þorvalld Kroof Broodur siñ til Eptermaals; Eñ litlu sijdar

In ſiidar ſpurde hañ ad Gobbrandr var eignad þad Vija, og villde hañ þa helldur añañ hafa tilkoſtid, eñ þo vard nú þeſſu fram̃ ad hallda, er fyrr var koſid. Þeir hitta nu Einar Eyolfsſon, lætur Þorariñ ad nu mune hañ taka til þeirra Maala, er þeir høfdu med ſier talad: Sliikt er mier i Hug ſem fyrr (ſegir hañ) þa Baardur var veigiñ. Took nu Einar Maalid til Medferdar um̃ Sumarid, og ſookti Glwm. Þorariñ laa i Saarum allt Sumarid, og ſvo Þorvalldur Taſallde, og urdu bæder græder. Glwmur hafde mikiñ Lids-Afla aa Þijnginu, og ſvo hvorutveggiu: Var nu leitad um̃ Sætter af goſugum Frændum þeirra: Og vard þad af Sættum, ad bæta ſkyllde Vijg Steinolfs, ſvo ad fram̃ væri ſærd Sijkna Vijgſwo Glwmsſonar, eñ Gobbrandur var ſekur um̃ Vija Þorvallds, og kom Glwmur hønum Utañ, og ſvoru vid ſvobwid heim, og undu þeir Þorvalldur illa vid og Þorariñ, og þooktiſt Þorariñ eınga Sæmd hafa fyri Vijg Þorvallds Brood: ſiins; Sat nu Glwmur i Virdinau. Um̃ Veturiñ epter kom upp Vijſa, er Glwmur hafdi þa nij-ordt.

Virkis ſpyr af Verkum
Vijn-Hyrder ſiiſt mijnum,
Er at aa Mañą Moote
Mord voru ſøgd Fordum:
Liggur þeim Hraſn of Hyggiu
Hørveyg talid gørva,
Mun at ſva Maaliñ laaka
Myrk at ſem ſæſt, um̃ yrkium.

## XXIV. Cap.

Jrn Dag ſem Meñ voru ad Hrafnagils-Laugu, koin þar Þorvardur, hañ var Glede-Madur mikill, og hendti ad mørgu Gaman, hañ mælti: Hvad er komid þeirra Maña, er ſkemta kuña nijum Frændum? Þeir ſvara: Þar er Sſem kan øll og Gaman, er þu ert, hañ ſvarar: Ecki þiki mier nu meira Gaman, eñ kveda Vijſur Glumms, eñ þar higa eg

ad, er hønum þikir vantalad i eiñi Vijsu, ad hañ mundi ſkorta a uñ Vijgiñ, hvad ſkulum vier ætla hvørt þad muni vera, eda hvørt er lijkara, ad Goþbrandur muni veygid hafa Þorvalld edur Gluumur? Þetta þikir mørgum aꝛ rædilegt. Hañ reid nu a Fund Þorarins, og mællti: Hugleidt hefi eg nu nockud, og higg eg ad ei muni hid Saña uppi uñ Vijg Þorvallds Krooks, hviad hittaſt mun i Kvedſkap Glwms, ad nockud þikir hønum vantalad vera uñ Vijgiñ: Þorariñ ſvarar: Valla kañ eg nu upp ad taka Maalid i Ødru Siñi, þo þetta væri ſatt, og mun nu vera kirrt. Þad er U-Raadlegt ſegir Þorvardur, og mætti þo kirrt vera, ef ei hefdi verid uñ grafid, eñ nu mun eg bera upp fyri Moñum, og munu þeir Svijvirdingar af fa, ſvo ei munu meiri ordid hafa. Þorariñ ſvarar: U-hæglegt lijſt mier Maalid ad flitia til Alþijngis vid Frænda-Afla Glwms. Þorvardur ſvarar: Þar kañ eg Raad til ad leggia, ſtefn hønum til Hegraneſs Þijngs, þar attu Frænda-Afla, og mun þar torſookt ad veria Maalid. Þorariñ ſvarar: Þad Raad mun haft verda, og ſkiliaſt ad þvi. Nu Vorar illa, og verdur torſookt allt ad fa. Uñ Vorid bioo Þorariñ Maal a Hendur Glwmi til Hegraneſs Þijngs, hviad allir Samþijngis-Goþar, þeir ed þvi Þijngi attu ad hallda, voru bundnir i Raudleitum vid Þorariñ, eñ Heſtum matti traudt koma yfir Heidar fyri Snioo. Glwmur took þad til Raads, ad hañ feck Byrding eiñ mikiñ i Hønd Þorſteini Broodur ſijnum, og ſkal hañ hallda Veſtur fyri, og koma til Þijngs med Her-Klædi og Viſtir, eñ er þeir komu fyri Ulfs-Dali, þa brutu þeir Skipid i Spoon, og tijndiſt þar allt ſamañ, Meñ og Fear-Hlutur. Glwmur geck til Þijngs med Hundrad Maña, og naadi ei nær ad Tiallda, eñ i Fiørbaugs-Gardi: Þar var komiñ Einar Eyolfsſon med þeim Eſphælingum. Voru Glwm nu Ord ſend, ad hañ ſkylldi til fara, og færa fram Løg-Vørn fyri ſig. Nu geingur Glwmur, eñ ei var meira Rwm gefid, eñ Eiñ Madur matti uñ Siñ ganga, eñ þar var fyllt Lidi Tveim megiñ hia, eñ Glwmi var bodid ad ganga i Kvijarnar,

árnar, ef hañ villdi til Doomsins, eñ bad siindisi hönum U-Raadligt, og mællti til ſiña Maña: Audsied er nu þad, ad þeir hikiasi i Hendi hafa vort Raad, maa og vera ad svo sie: Nu vil eg þo ad þier snuid aptur, mun eg gaunga fyrstur, þa Tveir næst mier jafnframt, og skulum vier reña ad, og hafa Spiootiñ fyri oss, og mun Klambrar-Vegguriñ gaanga ef fast er filgt. Þeir giördu svo, og ruñu ad i einu Skeidi i Doom-Hriingiñ, og var leingi Rætur, aadur þeim var bægt fraa i burt, og geordist þar svo mikil Þraung og føsi, og vard þad uñ siidir, ad Doomuriñ var settur i Añad Siñ, og er þeir tooku ad reyna Maalid, þa geingur Glumur i Þiing-Brecku, og nefnir sier Votta, ad Sool er komiñ af Þiing-Voll, siidañ vardi hañ Meñum Doomiñ fyriti, ad dæma uñ Sakirnar, og vard þar nidur ad falla hvert Maal, sem þa var komid: Ridu Meñ aa brott, og undu Esphælingar stoor illa vid, kallar Þorariñ hañ hraklegt geordt hafa fyri þeim. Einar svarar: Ei list mier svo stoor liootl sem þier:. Þui þar er til Maals ad taka, sem skaa er horfid. Siidañ rijda þeir til Alþijngis Esphælingar med Einari, og margir Vinir þeirra, er þeim höfdu hritid Lidi i mooti Glumi. Frændur Glums veyta hönum ad Maal-um til Rettra Laga, og er þad af geordt med Vitra Maña Raadi, ef Glumur vill viña Eyd fyri Maalid, ad ei veigi hañ Þorvalld Krook, og er margir aattu Lut i, þa sættust þeir ad þvi, ad aakvedid var nær Eyduriñ skylldi viñiñ vera uñ Haustid ad Fiñi Vikum, og er nu svo rijkt filgt Maal-inu, ad þeir skuli fram hafa Maalid, edur hañ viñi Eyda ad Þremur Höfuñi i Eyafirdi, og Eydfall, ef þa kemur ei fram: Margrædt var uñ þetta Maal, hvorsu Eydar Glums mundu vera edur framfara.

## XXV. Cap.

Nu rijda Meñ heim af Þiingi, og er Glumur heima uñ Sumarid, og er kirrt allt i Heradinu: Lijdur til Leydar, og rijda Meñ til Leyds, eñ af Leyd hvarf Glumur, svo ad eigi spurd

ist til hañs. Mær sat heima i Bwinu, eñ uñ Haustid ad Fiñ Vikum, þa baud Mær Mønnum, og var þar stofnad Brullaup, og komu þar ei færri Meñ til Bods eñ Hundrad: Øllum þookti Kynlegt Bod þetta, þviad þeir voru lijtils verdir er i Hlut ættu. Þar sæu Meñ þañ Aptan, ad ur Dølum øllum Eyafiardar ridu Tveir Meñ samañ edur Fiñ, og safnadist samañ Lidid, er ofañ kom i Heradid, og var þar komiñ Glwmur, Asgrijmur og Gissur med Þriu Hundrud Maña, og komu heim uñ Noottina, og sætu þar ad Bodi: Eñ uñ Morguniñ eptir, sendi Glwmur eptir Þorarni, og bad hañ koma i Diwpa-Dal, ei sijdar eñ ad Midium Morgni, ad heyra Eydaun: Þorariñ veykst vid, og feck Hundrad Maña, eñ er þeir komu til Hoffsins, þa geingu þeir iñ i Hofid med Glwm, Gissur og Asgrijmur, eñ med Þorarni Einar og Hleñi hiñ Gamli. Sa Madur er Hofs-Eyd skylldi viña, took Silfur-Baug i Hond sier, þañ er rodiñ var i Nauts-Bloodi, þess er til Blootæ væri haft, og skylldi ei meira standa eñ Þriæ Aura. Þa kvad Glwmur svo ad Ordi.

At ek nefni Asgrijm i Vætti, Añañ Gissur i þat Vætti, at ek viñ Hofs-Eyd at Baugi, ok seygi ek þat Æsi, at ek varkat þar, ok vakat þar, ok rauþkat þar, Odd ok Egg, er Þorvalldur Krookr feell at Hrijsa-Teygi, lijti nu at Eydspiall mitt þeir Meñ er spakir eru, ok viþ eru staddir.

Þeir Þorariñ urdu ei bwnir ad lasta, eñ kvædust ei firre heyrt hafa þañ Veg ad Ordi kvedid: Med slijku mooti voru Eydar uñir i Gnwpufelli, og svo ad Þveræ, og ad Skilnadi gaf Glwmur Gissuri Felld siñ Blæ, eñ Asgrijmi Spiootid Gullrekna, og skildust Vinir. Uñ Veturiñ hitt ust þeir Þorvardur og Þorariñ, og spurdi Þorvardur, vañ Glwmur vel Eydiñ? Þorariñ svarar: Ecki fundum vier ad, hañ svarar: Undarlega verdur slijkt uñ Vitra Meñ, er svo missynist, þad hefi eg vitad, ad Meñ hafa lijst Vigeæ Hendur sier, eñ hitt hefi eg ei vitad edur heyrt, ad Meñ

hafi

hafi svarid um̃ þad sialfer, ad þeir hafi veygid Mañ, sem Glwmur hefur gjördt, eñ hversu mætti hañ mær ad tveda eñ segia, ad hañ vægi þar at, og ridi þar ad Oddi og Egg, er Þorvalldur Krookur fell a Hriisa-Tengi, þoott hañ leiddi ei svo sem Tijdaßi er, og mun su Sneypa jafnañ uppi sijdañ. Þorariñ svarar: Ecki hefi eg fundid þetta, enda mædunst eg ad eiga vid Glwm. Hañ svarar: Ef þu bikisi mædast Sakir Vanheilsu, þa lattu Einar taka eñ Maalid, hañ er Vitur og Kynsioor, munu honum marger fylgia, þo ei situr Gudmundur hia Broodur hañs, og er sa Lutur, ad hañ er gearnastur til, ef hañ kemst ad Þvera. Eptir þetta hitt ast þeir Einar, og bera Raad samañ, og mællti Þorariñ: Ef þu villt fyri Maalinu vera, munu margir þier veyta, munum vier og þad til viña, ad selia þier Landid eigi meiru. Verdi eñ Glwmur keypti ad Þorkatli Haafa. Einar segir: Glwmur hefur nu loogad heim Lutum, Felldi og Spiooti, er Viigfws Moodur-Fadir hañs gaf honum, og bad hañ eiga, ef hañ villdi hallda Virdingu siñi, eñ kvad þadañ fraa þverra mundu, mun eg nu taka vid Maalinu og fylgia.

## XXVI. Cap.

Nu blijr Einar Viigs-Maalid ad niju til Alþijngis, og Fiølmeña hvortveggiu, eñ aadur Glwmur reid heimañ, dreymdi hañ, ad margir Meñ være komnir þar til Þveraar ad hitta Frey, og þooktist hañ sea margt Maña a Eyrunum vid Aaa, eñ Freyr, sat a Stooli: Hañ þooktist spyria hvarier þar være komnir? Þeir segia: Þetta eru Frændur þijnir Framlidnir, og bidium vier Frey, ad þu siert ei brott færdur af Þveraar-Landi, og tiaair ecki, og svarar Freyr stutt og Reidulega, og miñist nu a Veg-Gesf Þorkels eñs Haafa: Hañ vaknadi vid þetta, og lest Glwmur verr vera vid Frey alla Tijma. Sijdañ ridu Meñ til Þijngs, og verda nu þau Maala-Lok, ad Glwmur geingur vid Viiginu, eñ i þvi aattu Lut Vinir hañs og Frændur, ad helldur skylldi sættast eñ Sekt kæmi a, edur Utañferd, og sættust þeir a Þijngi

ad þvi, ad Glwmur galdt Pveraar-Land, hcalft Katli Syni Porvalldar Krooks i Fodur-Bætur, eñ seldi hcalft vid Verdi, og skylldi þo œ bwa þau Misseri, og vard Herads-sekur, og bwa ei nær eñ i Horgardal. Fooru Meñ sijdañ heim af Þijngi: Keypti Einar Landid, sem hönum var heytid. Meñ Einars komu þangad uñ Vorid ad viña Landid, og mællti Einar, ad þeir skylldu segia hönum hvört Ord þad Glwmur mællti. Eiñ Dag kom Glwmur ad Mœli vid þa og segir svo: Audsied er þad, ad Einar hefur vel hier feingid Verk-Meñ, og er vel uñid œ Landinu: Nu skiptir miklu, ad smœtt og stoort sie til hendt. Nu skulu þier reysa hier vid Ana Vadmeyd, og er Konum hægt til Pvoottar ad hreinsa stoor Føt, eñ Heima-Bruñar eru vondir. Nu komu þeir heim, og spyr Einar hvad þeir Glwmur mælltust vid? Þeir segia hve Hugkvæmur hañ var ad øllu, ad uñid væri, hañ svarar: Pookti ydur þad vera, ad hañ villdi vel bwa i Hendur mier? Þeir svara; So þikir ockur. Einar mællti: Añañ Veg lijst mier, þad lijst mier, ad vid þañ Meyd setti hañ yckur upp, eñ ætli ad rista mier Nijd, nu skulu þier ei fara þo. Einar færdi þangad Bw sitt uñ Vorid, eñ Glwmur sat þar til ens efsta Fardags: Eñ er Meñ voru œ brott bwnir, þa settist Glwmur i Ondveygi, og geordi ei œ brott ad ganga, þo œ hañ væri kallad: Hañ lætur Tiallda Skœlañ, og vill ei svo skiliast vid Landid sem Kot-Karlar. Hallbera Dootfir Porodds Hiaalmssonar, þar Moodir þeirra Gudmundar og Einars, hun bioo þa ad Hana-Kambi, hun kom til Pveraar, kvaddi Glwm og mællti: Siittu heill Glwmur, eñ ecki er hier nu leingur ad vera, komid hef eg nu Elldi œ Pveraar-Land, og geori eg þig œ brottu med allt þitt, og er helgad Landid Einari Syni mijnum. Glwmur reis þa upp og mællti: Ad hun skylldi sleyppa Kerlinga aurmust, eñ þo reid Glwmur þa œ Braut, og vard litid uñ Oxl til Bæiins, Og qvad Vijsu.

Rudda ek sem æddi,

Ord-

Ord-Leik aa þvi Fordum,
Met Veþurstofum Viþris
Vandar mier til Handa,
Nu hef ek Valþauglns vegna,
Varrar Skeids of siþir,
Breyþa Jord met Barþa
Benþa mier or Henþi.

Glwmur bioo ad Mødruvøllum i Hørgaardal vid Þorgrijm Fiwk, og unir þvi ei leingur eñ eiñ Vetur;. Þa bioo hañ Tvo Vetur i Myrkaar-Dal, þa hlioop þar Skrida nær Bænum, svo ad took sum Hwsiñ: Þa quad Glwmur Vijsu.

Maal er munat eñ Sælu
Meñ briootande hliooþa,
Oss kom breiþur i Bwþer
Bøggur af einu Høggi,
Þa er Fleymara Fioora
Full-kaater vier saatum:
Nu er Møgreñer miña
Mett Sextiju Vetra.

Þa keypti Glwmur Land ad Þverbreckn i Yxnadal, og bioo þar medañ hañ lifde, vard gamall og Siwonlaus.

## XXVII. Cap.

NArfi het Madur er bioo i Hrijs-Ey, hañ hafde aatt Ulfeyde Dootter Ingialldar Helgasonar eñs Magra; Þeirra Syner voru þeir Eyolfur og Klængur, Þorbrandur og Þorvalldur: Aller voru þeir mikilhæfer Meñ, og Frændr Glwms. Þeir Klængur og Eyolfur bioggu epter Fødur siñ i Hrijs-Ey. Sa Madur bioo i Haga er Þorvalldur het, og var kalladur Meñi; Hañ aatti Doottur Þordar Rafns-

Sonar fra Stockahlødum er Helga het.

Eitt Vor kom Þorvalldur ur Haga vid Hriis-Ey a Byrdinge, og ætlade ad hallda til Feyngiar: Og er Klængur vard var vid, riedst hañ til Ferdar med honum, eñ er þeir komu ut ur Fyrdenum, fundu þeir Reyde nii-dauda, keyrdu i Festar og sigldu iñ epter Fyrdenum uñ Dagiñ; Villde Klængur flytia til Hriis-Eyar, þvi þad var skemra eñ i Haga, eñ Þorvalldur villde til Haga flytia, og kvad þad jafn-riett. Klængur segir ad ei sien þad Log, ad flytia ei þaingad er nærst eiga Flutningar-Meñ Land. Þorvalldur kvadst hafa Riett ad mæla, og let þa Frændur Glwms ei þurfa ad gaanga a riettañ Hlut vid þaa: Og hvad sem Log eru, þa munu enu Riikare nu rada. Þorvalldur var Fiølmeñare i þvi Siñe, og tooku þeir af Klænge Rekalldid naudugum: Eñ hvørtvegai þeirra var Land-Eigande. Klængur foor heim, og unde illa vid. Þorvalldur og þeir hloou ad þeim Klænge, og tøldu ad þeir treystiu ei a ad hallda. Eiñ Morgin reis Klængur snemma upp, og foor med Floorda Mañ iñ i Haga, kom þar snemma svo ad Meñ voru i Svesne. Þa mællti Klængur: Rædos skulum vier leita, her eru Naut hia Garde, og skulum vier þau reka a Hwsiñ, þar sem Þorvalldur hviiler under, og teigium hañ svo wt. Þeir geørdu svo, og vaknar Þorvalldur og hleypur wt. Klængur hleypur ad hønum, og þegar veitti hañ hønum Bana-Saar, foor brott sydañ, og treystist ei þar ad lijsa Vijginu, þviad þar var fyri Mañmargt, foor til Hriis-Eyar og lijste þar þegar Vijgenu. Nu eiga Eptermaaled Þorariñ og Þordur: Þeir kølludu Mord verid hafa. Og er þesse Maal komu til Þijngs, sat Glwmur heima, og uñ Þijngid foor hañ wt i Flioot og i Svarfadardal, og bad Lids til Fee-Rañs Dooms, og þo bad hañ leyna þessare Fyriætlan. Klaufi ad Barde sagde: Vijst vilium vier veita Glwme Lid. Hañ atti Halldoru Dootter Arnors Naudkiñs, og marger adrer hetu Glwme sinu Lide. Nu foor Glwmur heim. Maal fooru fram a Þijnge: Eñ epter Þijngid bwast þeir

til Fee-Raans-Dooms, og høfdu Fiogur Skip og Priar-tiige Maña aa hvoriu Skipe, og riedu þeir Einar, Þorar-iñ og Þordur fyri Skipunum, og komu iñañ ad Eyuñe i Nætur-Elldinq, og sea Reyk yfir Hwsum: Spurde Ein-ar hvort þeim siyndist svo sem hønum, ad Reykuriñ værj all-blaar? Þeir segia ad þeim siyndist svo. Einar mællti: Svo liist mier aa Reykiñ, sem Fiolment mune vera i Hws-unum, og mun af Mønum leggia Reykiñ: Eñ ef þad er, þa munum vier geora Raun til, og koma undañ Eyuñe Piood siynelega, og munum vier þa viiser verda ef Fiolme-ñe er i Eyuñe, og svo geordu þeir. Eñ er Eyar-Meñ saau þetta, þa hlupu þeir wt til Skipaña og løgdu epter þeim, og var Glwmur þar komiñ med 200. Maña, og ellti þaa iñ allt ad Oddeyre, og vard ei hafiñ Fee-Raans-Doomuriñ, og feingu Eyfyrdingar Uvirding: Sat Glwmur uñ Su-marid i Bwe siinu; Hañ aatti og ad helga Hauft-Piing, eñ Piingstaduriñ er fyrir Austañ Fiordiñ, skamt fraa Kau-paange, og Fiolmentu Eyfyrdingar miøg: Eñ Glwmur hafde eina 30. Maña. Marger tølndu vid Glwm, ad hañ skyllde ei Fraameñur fara: Hañ svarar: Lifad mun nu þid fegursta, eñ vid þad une eg, ad ecki hafa þeir mig elltañ, svo ad ei fære eg Riettleidis. Glwmur foor aa Skipi iñepter Fyrde, geck aa Land og til Bwdar: Eñ þar eru Melar bratter og lausgriitter, aa milli Fiardarins og Bwdaña. Eñ er Glwmur kom gagnvart Bwd þeirri er Einar aatti, þa hlupu Meñ fraa Bwdiñe, og baaru Skiøll-du ad þeim, og hrundu þeim af Melunum, og fell Glwm-ur og velltist med Skiølld sñ aa Eyrina ofañ, og vard ecki saar, eñ Priw Spioot hafde fest i Skillde hañs. Þorvalld Tasallde var þa komiñ ad Lande, og saa ad Glwme horfde þa Uvænt, og hlioop svo aa Land, ad hañ took Ur i Hønd sier og rañ i Meliñ upp, og skaut Uriñi til Gobmundar Riika, kom a Skiølldiñ, og geck hañ i sundr, og kom Hlumuriñ fyri Brioost hønum, og fell hañ i Uvit, og var boriñ i Fioorum Skautum til Bwdar: Siidañ eggiudu hvorier adra til Atgaungu, og skutust aa og køstudu Grioote, og vard hørd

Hriid, og urdu marger ſaarer: Og aller ſøgdu a eina Lund, ad ei mættu ſaaer Meñ vaſklegar veriaſt eñ þeir Glwmar. Þeir Einar ſooktu ad faſt: Þa geingu Meñ a milli, og lauk ſvo, ad Tveir Meñ fellu af Glwm: Klængur Narſaſon og Griimur Eyrarleggur, Brooder Halldoru Konu Glwms. Þa qvad Brwſi Hallaſon Viiſu þeſſa.

Hofum vier Veg af Viigum,
Veyt ek Orþ a þvi Vorþa,
Stads vit Stiiri Meydi
Stafngondil Hlut jafnañ,
Þo hyck firi Viþu fooru
Fleygarþs eñ mik varþi
Beyþi Hlock fyri Brecko
Bliks harþara miklu.

Einar qvad Viiſu.

Þrøngvat vard a Þiingi,
Þreñalijns at reña,
Varat Jala eli
Auþlattur fyri Mel brattañ,
Þa er marſtiettar mattet
Mæfels Vit Þrøm Sæfar
Geyra moot a Griooti
Geſtels klauf of feſta.

Þa qvad Glwmur Viiſu i mooti.

Lattiſt Her met Hauttu
Haun-gatiirs at gaanga,
Þoott tiaair þeim at hætta
Þeckilegt fyri Brecko,
Þa er dinſwſar Diiſir

Dreyra,

Dreyraſvells aa Eyri,
Breyd Or Brognum Mæþa,
Blood-ſkulldaþir ſtoodum.

So var ſett Mæalum, ad i Fadma fell Viig Klængs og Þorvallds ur Haga: Þad var og jafnt lætid Viig Grijms Eyrarleggs og Averki vid Goþmund, og undi Glwmur illa vid, ſem hañ qvad ſijdañ.

Illt er aa Iorþu of orþit,
Allþur Bolnar miok ſkællþi,
Liþit er meſt et meira
Mitt Liif Hieþins Drijſu,
Er U-vegnis eigi
Eyraleggs fyri Seggium,
Grijms i Gonþlar flææmum
Gefnar maa ek of heſna.

## XXVIII. Cap.

Þad var Eitt Sumar, er þeir rijdu af Þijngi Goþmundur og Einar Brædur, ad Glwmur baud Mønum til ſijn, og ſendi Meñ upp til Oxnadals-Heidar, ad biooda þeim Brædrum heim, og leſt vilia ad nu ſættuſt þeir heilum Sæattum: Þviad eg em nu fyri Elli Sakir til einkis fær, og mun eg þeim ei til Matar eins biooda. Glwmur var þa Sioonlaus, hañ let Vørd hallda aa uñ Ferd þeirra: Goþmundur villdi þiggia Bodid, eñ Einar ei, og reid ſijnn megiñ Ar hvør þeirra, var Glwmi ſagt, ad Añar Flockuriñ reid þæangad, þa mun Einar ei vilia þiggia Bodid ſegir hañ, ſvo er hañ Tortryggiñr, ad hañ trwir eingum Mañi. Þad er ſagt, ad Einar kallar aa Goþmund, og mællti: Þa mun eg koma aa Morgun, ef þu kemur i Kvølld, eñ Goþmundur huxadi i bad er hañ mællti: Þa mun þad Ætlan þijn ſegir hañ, ad þu mun

ir eiga

ir eiga ad mæla eptir mig, snijr hañ þa nu eptir Einari: Þetta er sagt Glwmi, ad hvørge snijr þaangad, þad er illa þo kvad Glwmur, þviad þad hafda eg ætlad, ef eg geingi aa moott þeim, ad eg skyllde ei beggia missa, hañ hafdi Sverd brugdid undir Skickiu siñe, og voru þau Lok Vidskipta þeirra Glwms og Eyfirdinga: Eñ þa er Kristni kom ut hijngad, took Glwmur Skijrn, og lifdi Þriaa Vetur sijdañ, og var Biskupadur i Bana-Soott, af Kol Biskupi, og Andadist i Hvijta-Vodum.. Þa bioo Maar Glwmsson i Fornhaga, og hafdi þar laatid Kyrkiu giøra, og var Glwmur þar Jardadur, og svo Mañ þa er hañ Andadist, og margt añara Maña, þviad lainga Hrijd var eingiñ Kyrkia i Hørgaardal, nema su Ein. Þad er Maal Maña, ad Glwmur hafi verid Tuttugu Vetur mestur Høfdingi i Eyafirdi, eñ adra Tuttugu Vetur einger meir eñ til Jafns vid hañ, Þad er og Maal Maña, ad Glwmur hafi verid betst uñ sig all-margra Maña, sem hier hafa verid aa Lande. Og endast hier svo Sagañ af Vijga-Glwmi Eyolfssyne.